# LJÓÐMÆLI

EFTIR

MATTHÍAS JOCHUMSSON

II. BINDI

SEYÐISFIRÐI
PRENTSMIÐJA SEYÐISFJARÐAR
1903

# I. VIÐ 1000-ÁRA-AFMÆLI ÍSLANDS.

## TÍMAMÓT 1873.

I.

Sefur þú, sveinn og snót?
Senn koma tímamót:
Vaknið, ó, vaknið af dvala!
Þei! hvaða hljómur hár? –
Heyrið, hvað þúsund ár
farandi fram hjá oss tala!

Vaknið, því voða-gný
varðeldar loftið í
hvæsa frá háfjalla rótum[1].

---

1) Þá gengu landskjálftar og rokviðri.

Hér er ei heilt um grið;
heyrið og annan klið:
hafið oss hrynur að fótum.

Hvað lýsir himingöng?
Hver ræður þessum söng? –
Situr á gullskýi Saga,
Bragi við hennar hlið, –
hlustið á fagran klið
himneskra hrynjandi laga.

Nú fyrir nýja öld
ný hefir sagnaspjöld
gyðjan sér tekið í tíma;
hvílir við Fjölnis feng
fingur á gullinstreng
Bragi, sem búin sé ríma.

Sefur þú, sveinn og snót?
Senn koma tímamót:
Vaknið, ó, vaknið af svefni!
Saga við sólar-dyr
situr og frétta spyr;
Bragi nú biður um efni.

---

II.

Hvað þýða höpp og fár?
hvað eru þúsund ár? –
Alvizku-hlutfalla hljómur,
en hvorki örlög sterk,
álög né kraftaverk:
Sagan er sjálfskapa-dómur.

Alt hefir eðlis-lög,
aldir sem hjarta-slög,
alt er af skynsemi ofið;
heimskan er heimsins raun,
heimskan á slysa-laun,
þegar í syndum er sofið.

Forsjónin helg og há
hefir hér jörðu á
frjálsræði' og skynsemi skapað;
hver, sem því hefir gleymt,
hégiljur sjálfs sín dreymt,
hefir frá ákvörðun hrapað.

Upplýsing er vort líf,
uppbygging, stoð og hlíf
undir Guðs alstjórnar ráði.
En þótt í þúsund ár
þornaði' ei blóð og tár,
uppsker hver, eins og hann sáði.

---

III.

Upp, upp, þú Íslands þjóð—
unglingur, maður, fljóð—
hætt þú að horfa til baka!
Hvað sér þú?—hrygðar-kjör.
Hvað sér þú?—afturför.
Lát þú nú sjálf til þín taka.

Hvað kennir horfin öld?
heimskunnar skugga-tjöld
eltandi sannleikans sólu.
Meir vinnur mentuð hönd
mánuð, en vorri strönd
eymdanna þúsund ár ólu.

Hvar sérðu heilan garð?
Hvað áttu mikinn arð,
þjóð, hinna þúshundrað punda?
Ó, þú mín ættar-fold,
átt þú í dauðra mold
arð þinna ábyrgðar stunda?

Eigi sitt óskert hrós
allir, sem voru ljós
Íslands á nátthimni alda;
hann, sem veit hulin rök,
hinna skal dæma sök;
síðast skal sjálfs sín hver gjalda.

IV.

Upp, upp, þú Íslands son,
ókomna tímans von,
áfram, og efldu þig sjálfur!
Í þér býr andi stór,
eilífra krafta sjór;
enn ert þú ei orðinn hálfur.

Dunar nú himinn hár,
hart stíga þúsund ár,
aldirnar út frá þér renna;
kjörin sín köld og blíð,
kynstofn þinn langa tíð
þakka skal þér, eða kenna.

Dunar frá dvalins heim,
dísirnar fara' á sveim;
dynja nú dvergar í steinum;
landvættir lands um hring
leika sér bæi kring,
bjart er hjá hauglögðum beinum.

Senn roðar sól á fjöll,
senn skín á rakan völl,
senn fara blómstrin að brosa,
senn stíga sólar-dans
svanir við fjaðra-glans,
senn vaknar mús undir mosa.

Fram, Íslands frjálsu menn!
fram, fram! og allir senn!
Skjótt eru tímarnir taldir.
Senn kemur siðabót:
sólfögru aldamót,
leiftrið á ókomnar aldir!

---

## ÍSLANDS-VÍSUR,

**kveðnar í Lundúnaborg gaml'árskvöld 1873.**

---

Sit þú, fósturfoldin mín,
frjáls í segulheiði;
sé hver vagga signuð þín
og sérhvert dáins leiði!

Mál er komið, Íslands öld,
ellibelg að kasta;
gefur þér nú gaml'árskvöld
Guð hið þúsundasta.

Þannig fór: í þúsund ár
þú hefir lífi varizt;
þakkaðu Guði, þerrðu tár,
þú hefir mikið barizt.

Eftir þúsund ára spil,
ægi-rúnum skrifað,
eitt er mest, að ertu til,
alt sem þú hefir lifað.

Seztu nú í Sögu stól,
sjáðu farnar brautir,
meðan guðleg gæzku-sól
gulli slær á þrautir!

Neyð og mæða niðar þung
niðri' í svörtum dölum;
dilla kvæðin eilíf-ung
upp í björtum sölum.

Þúsund ára aftansól
alda kveður dalinn:
set þig hátt á sjónarhól,
sjá nú yfir valinn.

Við þér blasir svipleg sjón,
sól og fagrar hlíðar,
himinfjöll og heljar-lón,
hraun og elfur stríðar.

Fyrst er alt svo frítt og bjart,
frelsi girtur kraftur,
þá er kalt að sjá og svart,
síðast birtir aftur!

Les nú djarft, ó fósturfrón,
forlaga-bálkinn kalda,
horfðu skarpt á hverja sjón,
hræðst ei bergmál alda.

Hræðst þú ei, þótt börðin breið
blóðugir skeri þræðir;
ógurleg er andans leið
upp á sigur-hæðir.

Óttast ei, þótt háð og hróp
hvellur elti grátur;
hræðstu ei, þótt ómi óp
eftir fífla-hlátur.

Sjáðu, hvernig heimska' og lygð
hamingju þína tefur,
sjáðu, hvernig dáð og dygð
Drottinn launað hefur.

Les, en slít ei letrin há,
lífs er hvergi endi;
aldrei fýkur fys né strá
fram úr Alvalds hendi.

Hræðstu sízt, þótt heljar skafl
hrynji' á fleygum árum;
vakir lífsins eilíft afl
undir djúpum bárum.

Þekktu andans eilíf lög
undir tímans hjóli;
rektu lífsins dular-drög
dóms að Urðar stóli.

Ó, mín þjóð, þitt andans ljós
enn má lítið skilja. –
Nú er hinstu röðla-rós
rökkrið líka' að hylja.

Ó, þú mikla umbreyting,
ó, þú veika hjarta:
sjá, þar deyr við sjónar-hring
sólar-ljósið bjarta!

Þegar hylur himinljós
heilög tjaldbúð nætur,
hnípir sérhver hagarós,
himininn sjálfur grætur.

Vér erum fáein vetrar-strá,
vökvum ekru tára,
meðan frá oss sezt í sjá
sólin þúsund ára.

Röðlar gylla Ránar göng,
raddir fullar hljóma,
heyrum dilla hnatta-söng,
hörpur gullnar óma.

Lífsins móðir, muntu þreytt
myrkrin við að etja?
Ertu bana blóði sveitt,
bjarta sigur-hetja?

Eða brennir blygðun rjóð
bjarta hvarma þína,
óþakkláta yfir þjóð
ár og dag að skína?

Ó, vor köldu glæpa gjöld
glata voru hrósi;
ó, þá fjöld, sem öld af öld
eyðir Drottins ljósi!

En vér þráum þó að sjá
þína dásemd aftur
draga stráin dufti frá,
dýrðar-hái kraftur!

Þreyzt ei enn í þúsund ár
þungu stýra hjóli,
meðan sár og mein og tár
mæna' að Drottins stóli.

Kom þú, blessað ljósa ljós,
lýs þú Ísa-foldu,
alt til þess, er rós við rós
rís við prís úr moldu.

---

Allir dagar eiga kvöld,
ýmsu háðir láni,
gjörum nú, er endar öld,
eins og forðum Máni:

Felum öndu helgri hönd
hans, er ljósið skapti
og úr böndum leysir lönd
lifanda veldis-krafti.

Gaml'árs-kvöld er gengið inn,
guðleg von oss orni;
rís nú ung í annað sinn,
Íslands þjóð að morgni!

Norðurljósin leiftrum slá
lífs frá knarrar stafni;
þúsund ára sól, í sjá
svíf í Drottins nafni!

---

## LOFSÖNGUR.

Ó, Guð vors lands! ó, lands vors Guð,
vér lofum þitt heilaga, heilaga nafn!
Úr sólkerfum himnanna hnýta þér krans
þínir herskarar, tímanna safn!
Fyrir þér er einn dagur sem þúsund ár,
og þúsund ár dagur, ei meir,
eitt eilífðar smáblóm með titrandi tár,
sem tilbiður Guð sinn og deyr.

| : Íslands þúsund ár — : |
eitt eilífðar smáblóm með titrandi tár,
sem tilbiður Guð sinn og deyr.

Ó, Guð! ó, Guð, vér föllum fram
og fórnum þér brennandi, brennandi sál,
Guð faðir, vor Drottinn frá kyni til kyns,
og vér kvökum vort helgasta mál;
vér kvökum og þökkum í þúsund ár,
því þú ert vort einasta skjól;
vér kvökum og þökkum með titrandi tár,
því þú tilbjóst vort forlaga-hjól.
| : Íslands þúsund ár : |
voru morgunsins húmköldu, hrynjandi tár,
sem hitna við skínandi sól.

Ó, Guð vors lands! ó, lands vors Guð,
vér lifum sem blaktandi, blaktandi strá;
vér deyjum, ef þú ert ei ljós það og líf,
sem að lyftir oss duftinu frá;
ó, vert þú hvern morgun vort ljúfasta líf,
vor leiðtogi' í daganna þraut,
og á kvöldin vor himneska hvíld og vor hlíf,
og vor hertogi' á þjóðlífsins braut;
| : Íslands þúsund ár : |
verði gróandi þjóðlíf með þverrandi tár,
sem þroskast á Guðs-ríkis braut.

## VIÐ KOMU KRISTJÁNS IX.

Velkominn yfir Íslands sæ,
vor öðling hár!
Nú dunar ljúft um borg og bæ
með blíðu-mildum sumar-blæ,
að kominn sé um svalan sæ
vor sjóli hár.
Nú yngist þúsund ára þjóð,
nú óma nýfædd sigurljóð:
gott ár!

Í Drcttins nafni stíg á strönd,
vor stillir kær!
Þó kalt sé hér við heimsins rönd,
er hjartað varmt og styrk vor hönd
og viljinn fús og frjálslynd önd,
vor fylkir kær!
Á þúsund ára þakkar-stund
við þína komu dunar grund
og sær.

Þér heilsa engin hræsnis-ljóð,
vor hilmir dýr!
þér heilsar norrænt hetju-blóð,
þér heilsar Íngólfs sögu-þjóð,
sem alin er við ís og glóð,
vor öðling dýr!
Sjá hástól þinn, vor himinfjöll,
og hjarta vort, er konungs-höll
þér býr.

## ÞINGVALLAMINNI KONUNGS.

Stíg heilum fæti' á helgan völl
vor hjartaprúði Snælands-sjóli,
er komst frá þinum konungs-stóli
að sjá vor kæru fósturfjöll.
Með frelsis-skrá í föðurhendi
þig fyrstan konung Guð oss sendi;
kom heill, kom heill að hjarta Fróns.

Lands-faðir! stíg vort Lögberg á
og lít svo yfir Drottins verkin. —
Hvar sástu frægri frelsis-merkin —
eldsteyptu virkin, vötnin blá?
Hér gjörðust vorar hetju-sögur;
hér viknar sérhver Íslands mögur;
altari þetta gjörði Guð.

Hér óma þúsund ára vé
söm orð og fyrir tíu öldum,
er geirþjóð stóð með gullnum skjöldum
og varði lögum líf og fé;
í sömu tungu, sama landi,
hinn sami lifir frelsis-andi
og fagnar, dýrsti fylkir, þér.

Nú eru þrotin þúsund ár,
sem þetta fólkið hefir lifað;
í bók vors Guðs er skráð og skrifað
alt þjóðar-stríð vort, þraut og fár;

en gæfu-vonin glatt nú brenni
frá giftufríðu konungs-enni.
Nú hefst upp fögur heilla-tíð.

Vort land skal, jöfur, þakka þér,
um þúsund ár skal nafn þitt hljóma
og Lögberg verk þitt enduróma,
á meðan hér finst hraun og hver.
Alvaldan föður börn þín biðja,
að blessa þig, þitt hús og niðja
til líknar þjóð um þúsund ár.

---

## MINNI ÍSLANDS.

---

Ísland, þig elskum vér
alla vora daga;
bygð vor við brjóst þitt er,
brauð og líf og saga,
blikeldar braga
brýnir lífið frost og glóð;
heimilis-haga
hér gaf Drottinn vorri þjóð;
hér blessast heitt og kalt,
hér er oss frjálsast alt.
Faðmi þig himinn fagurblár,
föðurleifð vor, í þúsund ár.

---

## MINNI DANMERKUR.

Brosandi land,
fléttað af sólhýrum sundum,
saumað með blómstrandi lundum,
draumhýra land!

Skjöldunga land,
voldugt á Valdimars dögum,
víðfrægt í íslenzkum sögum,
Absalons land!

Kristíans land
signandi siklinga góða,
sigurstöð norrænna þjóða,
konungs vors land!

Samþegna land!
Þokur, sem berast á bárum,
breytast og hverfa með árum;
land þekkir land.

Bróðurlegt orð
Snorra-land Saxa-grund sendir;
samskifta vorra sé endir
bróðurlegt orð.

## MINNI NOREGS.

Loksins vér finnumst og föðmumst í dag,
þér frændur af norrænni grundu;
festum nú eiði vort fóstbræðra-lag
á fagurri hamingju-stundu.
Nóttin líður, nú fer að morgna,
nú vekja þórðunur blóðskyldu forna.

Með yður dynja frá Dofrafjalls-bygð
vor dýrðlegu feðranna minni;
Hér bíður saga með heilagri trygð;
hún sat, þó steinar brynni.
Nóttin líður, nú fer að morgna,
nú vekja þórdunur gullöld upp forna.

Þjóðlífis bernskan er þúshundruð ár,
en þjóðlífsins takmark er frelsi,
brosir nú himininn bjartur og hár;
brotnar nú fjötur og helsi.
Nóttin líður, nú fer að morgna,
nú vekur alfaðir lífs-kraftinn forna.

Berið heim kveðju frá Kjartans grund
til kynstórrar feðranna móður;
Segið: „Vér hnýttum við háleitan fund
vor hjörtu sem bróðir við bróður.“
Sjáum, bræður, hvar sól skín á grundu;
samtökin byrjum á heilagri stundu!

## MINNI SVÍÞJÓÐAR.

Þú söguríka Svía-bygð
með sigurfrægð og hetju-dygð
og málmi skærra mál –
þú goðum vígða Gauta-slóð,
þú Gustafs prúða snildarþjóð,
þín harpa syngur sólar-ljóð,
en sigurorð þitt stál.

Þig hyllir Snorra móður-mold,
þín minnist sænska Garðars fold
sinn dýra vonar-dag.
Oss tengi, Svíar! bræðra-bönd,
vér bjóðum hlýja vinar-hönd,
og hátt um sænska sigurströnd
vér syngjum heiðurs-lag.

## MINNI VESTURHEIMS.

Frelsisins fimbulstorð,
fjörefida lífsins borð,
heill, heill sé þér! –
Upp, lofum alvalds hönd:
aftur fanst Vínlands strönd;
Leifs heppna hetju-önd
happið nú sér.

Draumvitrun dýrðarhá
deyjanda víkings brá
lýsti sem ljós:
Vínland með borg við borg,
blikuðu mannfull torg;
hratt af sér hlekk og sorg
halur og drós.

Sá hann, hvar flekklaus fram
frumherji bruna nam
—sól skein á skjöld—
víðfrægstur Washington,
vígsterkur frelsis son;
leiftraði líf og von
langt fram á öld!

Þakkir og sæmd í senn
sýnið þér, Vestanmenn,
Leifs ættar-ey:
Berið vorn hróður heim,
heilsið í Vesturheim;
blítt yfir bárugeim
beri' yður fley!

---

## MINNI GESTANNA.

Velkomnir, gestir,
göfugu vinir,
heilir til Íslands
handan um sjá!
Hræðist ei eld vorn,
örbirgð né jökla;
hér bærast hjörtu,
hér lifir sál.

Þér komið hingað,
höfðingar dýrir,
af því vort tilveru-
takmark er eitt:
framför og frelsi,
fullkomnun andans
straumöldur gegn um
stríðanda lífs.

Hví fara hingað
höfðingar prúðir?
hvað boðar Íslands
eyðileg strönd?
Það, að vér vörðum
þúshundruð ára
öndvegi andans
yzt við heims rönd.

Lítið á land vort:
líf þúsund ára
varð hér að vonum
varnar-stríð eitt;
en meðan hjörvar
hjörtu vor skáru,
söng norræn tunga
sigrandi ljóð.

Velbornu gestir!
gullspjöldin helgu
sannfróðrar Sögu
sjáið þér geymd.
Lítil er lands vors
lífs-vöku-íþrótt,
þó skal hún aldrei
alþjóðu gleymd.

Þökk fyrir heimsókn,
hugprúðu vinir,
hollvinir Íslands,
handan um sjá.
Hnýtum nú heims-bönd
heilagrar elsku;
þá sigrar andinn
eld, frost og hel!

---

## MINNI KVENNA.

Fósturlandsins Freyja,
fagra Vanadís,
móðir, kona, meyja,
meðtak lof og prís!
Blessað sé þitt blíða
bros og gullið tár;
þú ert lands og lýða
ljós í þúsund ár!

Meyja! – mannsins lotning,
milda, svása dís;
dagsins himna-drotning
dýrðleg með þér rís;
lífsins ljúfu hörpu
ljær þú guðamál,
sigur sverði snörpu,
sætleik bana-skál!

Móðir! – hjartahreina
himinblíða ást,
lífsins elskan eina,
aldrei sem að brást;
árdags engilroði,
ungbarns sólar-brá,
sannleiks sigurboði,
signing drottins há!

Kona! – mannsins króna,
kærleiks-tign þín skín,
allir englar þjóna
undir merkjum þín.
Þó oss sólin þrjóti,
þróttur, fjör og ár,
grær á köldu grjóti,
góða dís, þitt tár!

Þegar mannast maður,
miklast, snót, þín stétt,
harðra herra smjaður
helgan snýst í rétt;
fríkkar þá á Fróni,
faðmast ás og dís,
leikur sér með ljóni
lamb í paradís.

Fósturlandsins Freyja,
fagra Vanadís,
móðir, kona, meyja,
meðtak lof og prís!
blessað sé þitt blíða
bros og gullið tár;
þú ert lands og lýða
ljós í þúsund ár!

---

## MINNI INGÓLFS.

Lýsti sól
stjörnu-stól,
stirndi' á Ránar-klæði,
skemti sér
vor um ver,
vindur lék í næði;
heilög sjón:
hló við Frón;
himinn, jörð og flæði
fluttu landsins föður heilla-kvæði.

Himinfjöll
földuð mjöll
fránu gulli brunnu.
„Fram til sjár!“
silungs-ár

sungu, meðan runnu;
blóm á grund
glöð í lund
gull og silki spunnu,
meðan fuglar kváðu alt, sem kunnu.

Blíð og fríð
frelsis-tíð!
Frægur steig á grundu
Ingólfur
Arnar-bur
íturhreinn í lundu;
dísa-fjöld
hyltu höld,
heill við kyn hans bundu;
blessast Ingólfs bygð frá þeirri stundu.

---

## VIÐ BURTFÖR KONUNGS AF ÍSLANDI

**11. ágúst 1874.**

Faldaðu fyrir skjöldung,
fjallmær! í dag snjallan,
(fjöll skrýðist geisla gulli)
goðhelg, sólar-roða.

En frjálsborin frelsis
fagrljóð jöfri góða
vandi vel og sendi
vindr af Snjófells-tindi.

---

## ÞJÓÐHÁTÍÐAR-SÁLMUR.

Upp, þúsund-ára-þjóð,
með þúsund radda ljóð!
Upp, alt, sem er og hrærist,
og alt, sem lífi nærist!
Upp, harpa Guðs, þú heimur!
Upp, haf og landa-geimur!

Skín, sól, á sumarfjöll,
og signdu vatna-föll;
breið geisla guðvefs-klæði
á grundir skóg og flæði,
gjör fjöll að kristalls-kirkjum
og kór úr bjarga virkjum.

Krjúp lágt, þú litla þjóð,
við lífsins heilagt flóð;
þú geisla-ár Guðs sólar,
þú glódögg lífs, sem bólar;
þú útsáð anda geimsins,
þú aldin stundar-heimsins,

Krjúp lágt, þú litla þjóð,
við lífsins náðarflóð!
Eilífum Guði alda
þú átt í dag að gjalda
alt lánsfé lífs þíns stunda
með leigum þúsund punda.

Upp, upp, þú Íslands þjóð
með eldheitt hjartablóð;
Guðs sólu signd er foldin,
öll sekt í miskunn goldin:
þú átt, þú átt að lifa!
öll ár og tákn það skrifa!

En burt með gömul brek!
Í brjóstið líf og þrek!
Burt, burt með dauðans doða,
sjá Drottins sólar-roða!
Upp, upp, því Kristur kemur!
Hvað knýr þitt hjarta fremur?

Fram, fram úr fornri döf!
Fram, fram mót dauða' og gröf!
Því hvar er heljar vigur?
og hvar er dauðans sigur?
Guðs ríkis kraftur kemur:
hvað knýr vorn anda fremur?

Kom, Jesú Kristí trú!
kom, kom og í oss bú!
kom, sterki kærleiks kraftur;
þú kveikir dáið aftur!
Ein trú, eitt ljós, einn andi
í einu fósturlandi!

Guð faðir! lífs vors líf,
þú lands vors eilíf hlíf!

sjá, í þér erum, hrærumst,
og af þér lifum, nærumst;
þú telur minstu tárin
og tímans þúsund árin.

Þig lofar ljóssins hvel;
þig lofar nótt og hel;
þig lofar landa-hringur
og lífið amen syngur;
þig lofar lögmál geimsins;
þig lofa afgrunn heimsins.

Þitt er vor sterka storð
steinprentað máttar-orð,
þess feikna fjörbrot stríða
og framrás-lögum hlýða,
unz fjöll og hamrar falla
í faðmlag grænna valla.

Sál, dýr, gras, grund og steinn,
ó, göfgið Drottinn einn!
Frá einum alheims rómi
hins eina lofgjörð hljómi!
Vegsamið, aldir alda,
alföður sólar-tjalda!

---

## AMERÍKA TIL ÍSLANDS.

(ÞÝÐING.1)

Hér koma börn þíns bjarta Vínlands,
sem byggjum yngsta heimsins grund,
þú ættland kappa, söngs og sögu,
að signa þig á frægðarstund!

---

1) Frumkvæðið er þannig:

AMERICA TO ICELAND.

We come, the children of thy Vinland,
The youngest of the world's high peers,
O Land of steel, and song, and saga,
To greet thy glorious thousand years!

Across that sea the son of Erik
Dared with his venturous dragon's prow;
From shores where Thorfinn set thy banner,
Their latest children seek thee now.

Hail, mother-land of skalds and heroes,
By love of freedom hither hurled,
Fire in their hearts as in thy mountains,
And strength like thine to shake the world!

When war and ravage wrecked the nations.
The bird of song made thee her home:
The ancient gods, the ancient glory
Still dwelt within thy shores of foam.

Vér hleyptum skeið, þar Eiríks arfi,
hinn ógnum-prúði sigla nam;
og þar, sem fánar Þorfinns gnæfðu,
vér, Þorfinns niðjar, settum fram.

Heill, heill þér móðir hetju skálda,
er hingað leiddi frelsis-orð,
með eld sem þú í efldum barmi,
og afl sem þú að bifa storð!

Þá tryltur ofsi eyddi þjóðum,
nam andans svanur hér sín lönd,
og heiðin goð og frægðin forna
hér festu bygð á sæbrims-strönd.

---

Here, as a fount may keep its virtue
While all the rivers turbid run,
The manly growth of deed and daring
Was thine beneath a scantier sun.

Set far apart, neglected, exiled,
thy children wrote their runes of pride,
With power that brings, in this thy triumph,
The conquering nations to thy side.

What though thy native harps be silent,
The chord they struck shall ours prolong —
We claim thee kindred, call thee mother,
O Land of saga, steel and song!

Bayard Taylor.

Og eins og lindin hrein sér heldur,
þótt hlaupi' á akra leirug flóð,
þitt afl og ljós og lífsins dugur
hér lifði' á sólar-kaldri slóð.

Þótt gleymd, og hrjáð og hrakin værir,
þín hetjuþjóð skóp frægðar rún,
er seiðir til þín sigurþjóðir
að sjá í dag þín frægu tún.

Og þótt þín harpa þagna eigi,
skal þjóð vor lengja brostin ljóð:
Vér köllum land þitt kynland, móðir,
þú kappa, skálda, sögu þjóð!

# II. FRÁ ÁRUNUM 1865-1880.

## VÍG SNORRA STURLUSONAR.

**Nóttina milli 22. og 23. septbr. 1241.**

Þyngdi' í lofti þögult kvöld,
það var á grimmri Sturlu-öld
snemma hausts; frá himna-sal
horfðu nið'r í Reykholts-dal
sjónarvottar sögu-geims,
sannleiks-rúnir Urðar-heims,
helgar stjörnur; stirndi' á svell,
stafaði' á vötn og jökulfell.

Yfir brattan Baulu-tind
blóðug streymdi segullind
eldi glík og óþrotleg,
yfir loftið ruddi veg –

aldarfarsins ofsi' og blóð
eldibröndum skrifað stóð.
Fjöllin blésu forn og köld
frosti gegn um heiðríkt kvöld,
jökulblæ á bjarga-sal
Balls- úr -jökli' og Þórisdal:
Það voru náköld norna-ráð;
nötraði' af hrolli syndugt láð.

Yfir ríkan Reykholts-garð
rauður máni sýndi skarð,
glotti niður, hengdi horn,
helþrungna sem dreymi norn
myrk og ferleg Urðar orð:
í hann lagðist svik og morð.

Hver er sá, sem himinbaug
horfir á við Snorra-laug,
skaparans dýrðar skíra mynd
skráða' á vatnsins krystalls-lind,
að sér feld hann sveipar sinn,
sit'r og styður hönd við kinn?
Er það goð við Urðar-unn?
er það Mímir við sinn brunn?

Goðum líkur svo er sá
að svip og vexti til að sjá;
skeggið sítt og silfurhár
sextíu bera með sér ár;

ennið talar um tign og vit,
tálbrögð heims og feigðar-lit,
meðan augun, ern og snör,
eilíft kynda sálar-fjör.

Saga, laus við lýgi' og tál,
les mér Snorra skriftamál.

---

„Inni og úti
að mér sækja
daprir draumar,
dimmar fylgjur;
sá ég áðan
í svefni brugðinn
hjör Hákonar
yfir höfði mínu.

Eru það svipir,
er ég sé á himni,
bragandi bál
blóði sveipuð?
rista ginnregin
rúnir sagna
öfugt við oss,
áður en fram koma?
„Urðar orði
kveðr engi maðr“,
vafin er Verðandi reyk;
litið sjáum aftur,
en ekki fram,
skyggir Skuld fyrir sjón.

Leiptra frá laugu
ljósar myndir;
titra þær fram?
titra þær aftur?
Sé ég á vellanda
vatni skjálfa
umbrot, ókyrð
og aldur manna.

Sækjast geislar
frá goða-sölum
og skugga-skrímsl
frá skygðu djúpi;
gott og illt
í gumna heimi
heyr in sömu
Haddingja-víg.

Lít ég í laugu
liðna æfi
bregða fyrir
í bládjúpi;
blandnir eru litir;
ljós og skuggar
sjálfs míns svip
saman fella.

Okkar einkunnir,
ólgandi hver!
sýnast mér margar
saman koma:
flár eins og þú
og fjöllyndur
ég var oft,
þótt nú iðrumst þess.

Sýður þér ólga
alla daga,
sjóðandi hver!
og svælu kyndir;
en kreppt saman
kemst hún eigi
fram um skapaðan
forlaga-garð.

Svo var mín fégirnd;
svartur reykur
rammra ráða
ruddist víða,
en andrammur
Urðar-gustur
aftur blés öllum
í augu mér.

Fláræði, fégirnd,
fölvu vofur,
hverfið niður
í Hvergymli!
Vélt hefir oss veröld,
vildag feginn
grið og Guðs frið
gulli kaupa.

Vil ég nú, Alfaðir,
við þig mæla,
því ég em hugsjúkur;
heilagi Guð!
útskúfa mér eigi,
því að andi minn
skín af þinni dýrð
sem þessi hver.

Mér, sem honum,
hefir þú leyft
lofi þínu lýsa
með ljósbroti;

mér, sem honum,
hefir þú leyft
ímynd þinna athafna
endurskína.

Eins og því ljósi
aftur skilar
lindin logskær,
er léði sól —
eins fel ég þér,
alda faðir!
lítið ljós
míns lífs-anda.

Gott væri mér,
ef Guð leyfði,
hverfa frá heimi
í helgisetur;
sagðir þú, Þorvaldur[1]
það fyrir löngu,
að heimsins hjól
hverfult væri.

Frið hefir þú fundið,
forni vinur,
en ég ófrið
uggi jafnan;
bak við svikalogn
svartir flókar
dragast saman
af dular-ráðum.

Sagt er mér,
að sonur Þorvaldar,
konungs hins kaldráða
sé kær vinur;
óttumst ég Hákon,
uggi ég Gizur,
hlýra minna
höfuðs-bana[2].

Óttumst ég og uggi
öldu þessa;
goldin mun glæpska
gjöldum þungum;

---

1) Þ. e. Þorvaldur Gizurarson, faðir Gizurar jarls og fornvin Snorra; hann bygði klaustrið í Viðey og varð þar kanunki áður hann lézt. Hann var þá andaður fyrir nokkrum árum.

2) Í Örlygstaða-bardaga 1238 féll Sighvatur bróðir Snorra fyrir þeim Gizuri og Kolbeini unga. Þar féll og hetjan Sturla sonur Sighvats; vann Gizur á honum hálfdauðum með mikilli heift og frekju, en handtók bræður hans þrjá og lét höggva.

eltir fall ofsa'
áþján metnað,
óstjórn einveldi
með afarkostum.

Fylla haustský
himin bjartan
döpur og drungaleg,
dynur í fjarska;
það er nákominn
norna stormur,
er kynland vort
kreppir dróma.

Heyr mig, Alfaðir!
heim kalla mig,
fyr en Hákon
hauðri ræður
og frelsi flýr
fornar stöðvar
Egils ættar
illu heilli.

---

Hjör Hákonar
yfir höfði mínu! —
von er vélráða,
þótt sé virki traust. —
Óðum dimmir,
dynur í fjarska;
hverfa skal heim
og hurðum loka".

---

Þyngdi' í lofti þoka dimm;
þrútinn sat með ráðin grimm
Gizur á dökkum gjarða-val,
greiddi ferð um Reykholts-dal;
myrk og ferleg flærðar-rún
faldaði nú hans yglibrún,
grimd og drambi, girnd og þrótt
gneistuðu hvarmar þessa nótt;
skorti þó ei skraut né vit,
skörungs-bragð né fagran lit

á við dýrast ættar-val
áa sinna' úr Haukadal;
mál hans rann sem Ránar-fall,
rómurinn bliður, hár og snjall;
gnóg var spekt og fræði fróð
fólgin djúpt í hyggju sjóð,
gnógur studdi vegur og völd
véla-ráðum slungin höld.

Hugði' hann nú á fé og frægð,
fylkis treysti ríki' og slægð,
ættar-lands síns æztu völd
ætlaði víst að fá í gjöld
handa sér og sinni ætt,
síðan gæti' hann yfirbætt
vélráð sín og verkin hörð
við sinn Guð og fósturjörð.

Glæfra-ráða gegn um hjúp
grilti' hann ei það regindjúp,
sem hann gróf, og syni hans[1]
svalg, og fæddi kúgun lands,
og sem brátt við blóð og morð
blettaði sjálfs hans frægðar-orð:
vera sverð og svipa lands
sýnast forlög þessa manns.

---

1) Það var einkum í hefnd eftir Sturlunga, að Flugumýrarbrenna varð; þar brann kona Gizurar og synir hans allir.

Mælti' hann nú á miðri braut:
„Mikla bréfið konungs-naut,
sem að gylfi sendi mér,
sýna skal nú öllum hér;
það er að segja þessi orð:
„„það er hvorki svik né morð,
þóttú fellir frjálsan mann
fallinn þvert í konungs bann;
berlega því bjóðum vér,
beint í Reykholt farið þér;
þar býr Snorri, flár og forn,
fellið þennan óvin vorn;
þá, sem verða' í þeirri för,
þiggja læt ég sæmdar-kjör.““ —
Sjáið skipun sjóla hér!
sjálfur neyddur til ég er,
enda vil fyrir engan mun
af mér gefa minsta grun,
að eg ei reki æ sem bezt
erindi grams. En hitt er verst,
reki nú undan refurinn enn. —
Ríðum sem hvatast, vaskir menn!“

Vaknar lið í hersis höll,
heyrist gnýr, sem boða-föll
ómi' í fjarska, brak og blót
boðar dauðans sjávar-rót;
hurðir brotna, brynjuð mergð
brýzt í skálann, leiftra sverð;

heimalið við hjörva-glaum
hrekkur upp og illan draum;
nokkrir grípa hjör og hlíf,
hinir naktir biðja' um líf,
hrína börn, en hjúfra fljóð,
hlífar bresta, dynur blóð.

En er grimmast geysir lið,
Gizur kallar: „Ró og frið
hjúum Snorra hér eg gef,
hann því sjálfan fundið hef."
Og úr fláum flokki senn
fimm hann kallar glæfra-menn,
hjalar við þá hljótt og leynt,
halir hverfa jafnskjótt beint
í gólfið, sem hin gamla jörð
grimdist þeirra ráðagjörð;
sem með húð og hári þá
hauðrið sylgi, var að sjá.

Atburð þennan ókunn sveit
óttaslegin næsta leit;
gat ei smugu grilt né deilt,
gólfið var sem fyrri heilt.
Alt eins hollir heimamenn
hljóðir störðu allir senn;
gekk þeim ekki undrun til,
aftur heilt þó sýndist þil,
heldur ótti' og vonin veik

við þá tefldi sáran leik.
Gizur sjálfur grafkyrr stóð,
geig með augum sýndi þjóð;
glotti tungl um glugg einn inn,
gula signdi níðings kinn.

Allir hljóðir hlýddu til;—
hér var svipað millibil,
sem und dauðans sárri hönd
sjúkur maður standi' á önd,
eða fylgi' um sollið sogn
sviftibyljum dúnalogn.

Í því bili opnast þil,
allir litu þangað til,
hermenn, sem að hurfu fyr,
hljóðir komu' um leynidyr,
bera mann á milli sín,
mann, er blóðugt huldi lín,
meðan óp og hálfbyrgð hljóð
heyrast nam frá salar-þjóð;
grimmir seggir sáran rekk
síga láta' á auðan bekk,
andspænis í hárri höll
horfði þar á sveitin öll.

Bak við líkið loka þá
lágt, en fljótt, var dregin frá;
fram í setið seggur gekk,

snjóhvítt hár í lokkum hékk,
dularfullur forn og stór,
fölur stóð þar málma-þór;
augun sýndu dimm og djúp
dauðans ró; á svörtum hjúp
og hárri krúnu helgan mann
halur sérhver þekkja vann:
Arnbjörn klerkur aldinn þar,
ástvin Snorra, kominn var.

Gekk þar til, er líkið lá,
líndúk spretti dauðum frá,
ginu benjar, glotti nár,
gylti blóðið silfrað hár;
hremdir störðu hlynir stáls;
halurinn aldni tók til máls:

„Svo er Snorri lagður lágt! —
Lesið hér um miðja nátt
voðalega Skuldar skrá
skörungs blóðgu höfði á;
lesið, lesið einörð orð,
orð, sem vitna þetta morð;
orð, sem halda heilli stærð,
hvað sem líður ógn og flærð;
orð, sem tala ávalt, þó
Íslands tindar hrapi' í sjó;
orð, sem boða landi' og lýð
langra daga hrygðar-stríð.

Víst er þetta váleg tíð,
vélum slungin, heiftarstríð;
hvaðan ilsku aldan gín,
augun gömlu sjá þó mín:
Kaldara' en jökull kreistir fold,
kaldara' en dauðinn þetta hold,
Hákon! þín hin römmu ráð
ráða nú um Ísa-láð;
þau munu gegn um brögð og blóð
blinda vora sterku þjóð,
unz vort frelsi fallið er
fornt og dautt, sem þessi hér,
Snorri, sem með sæmd og spekt
setti' í letur ódauðlegt
allra þinna feðra fans,
frægðar-verk þíns ættar-lands,
Snorri, sem um sjálfan þig
samdi kvæði vegsamlig;
aðrir jöfrar fremd og fé
fyrir þvílíkt létu' í té,
en fyrir Snorra snild og ljóð
sníktir þú hans hjarta-blóð!
Aumi jöfur, öll sú sæmd,
hann um þig kvað, sé frá þér dæmd!
Ei ert þú þó einn í sök,
önnur standa nærri rök:
sjáðu, grimmi Gizur, hér
grettan náinn ógna þér!
Þótt hans gjörvalt blætt sé blóð

beint í þinnar grimdar sjóð,
þitt skal hungur þverra sízt,
þyrsta skal þig aftur víst.
Þér hefir styrkri Sturlu-þjóð
steypa tekist í sitt blóð;
en af rústum hennar hár
heiftar-logi brennur sár
inst við hjarta, þrjótur, þitt.
Þegar rætist orðið mitt,
mun þess, Gizur! meiri von
þú munir Snorra Sturluson[1].

Hræðstu! nú ég sé í sýn
svífa yfir höfði þín
fræðidís míns föðurlands,
fóstru þessa lista-manns;
döpur sinn hún sveigir fald,
setur nöfn á gullið spjald;
annað svart, og það er þitt,
þannig skal það jafnan litt;
hitt er ljóst og lýsir strönd,
ljómar alt í Suðurlönd,

---

1) Þessi Arnbjörn, sem þannig er hér látinn tala, er nefndur í Sturlungu, þar sem sagt er frá drápi Snorra; er líklegt hann hafi verið heimilisprestur hans. Er að sjá af sögunni, að Gizur hafi veitt upp úr honum að segja til Snorra, móti því að Gizur hét Snorra griðum. Þess vegna er hann hér látinn ámæla Gizuri, segja fyrir Flugumýrarbrennu o. fl.

það er Snorra heiti', er hún
helgri prýðir dýrðar-rún:
snildin hlýtur líf og lán;
lygin kvelst við skömm og smán."

---

Þagnar halur, þar næst hvarf.
Þá var unnið nætur-starf;
Gizur eftir grimman leik
gneypur hafði sig á kreik,
með sér flutti ljótan löst —
löstum fylgja eftirköst,
þau er sekan sífelt þjá
og sverð og eldur vinna' ei á.

---

## GUÐBRANDUR HÓLABISKUP.

(Orkt 22. júní 1878.)

Nú hnignar þeim fræga Hóla-stól,
nú hækka skuggarnir þungu,
nú lít ég ei framar Guðs ljúfu sól,
nú ligg ég með aflvana tungu.

Í fimtíu' og sex ár samfleytt hér
hef ég setið í Frelsarans skjóli
— við níræðis-aldurinn nú ég er —
á Norðurlands biskups-stóli.

Sem fleyið bundið við báru-strönd
ég bíð eftir lausnarans hljómi,
ei framar er leyft minni líkams hönd
að lyfta Guðs heilaga dómi.

Mig hryggir það mest, að heyrn og sýn
mig hindrar að afreka meira.—
Ó lít, minn Drottinn, í líkn til mín
og lát mig fá klukkurnar[1] heyra!

Því árin þrjú hef ég eftir þráð
þeim eilífa bergmáls-rómi,
sem kveður Guðs frið yfir kristið láð,
með kirkjunnar sigurhljómi.

Sem Jakob fram fyrir Faraó
ég fer við minn Guð að ræða;
því horfi' ég yfir minn æfi-sjó,
þá ógnar mér synd og mæða.

Og hver, sem hefir svo hátt á öld
við heimsins vélræði barist,
hann elskar ei framar auð og völd,
en undrast, hann hefir ei farist.

---

1) Hér er bent til þeirrar frásagnar, að nokkurum missurum áður, en Guðbr. bisk. andaðist, hrapaði dómkirkjan á Hólum til grunna í stormbyl. Biskup lá þá í kör; var hann leyndur kirkjuhruninu, en undraði það oft, að hann heyrði nú aldrei klukkurnar „og var þá ýmsu við skotið“, segir Espólín. „Líkaböng“ hét hin forna mikla kirkjuklukka á Hólum.

Ég átti forðum svo hrausta hönd
og huga, sem engu nam kvíða;
ó, hversu brann þá mín unga önd
fyrir orð hins lifanda' að stríða!

En dátt hefi' ég elskað auð og seim
– far, ágirnd, í myrkranna díki! –
og þó var mér ætíð helgast í heim
Guðs himneska dýrðar-ríki.

Eitt stórverk gafstu mér, Guð, af náð
að gjöra með kröftunum ungu:
nú geymir að eilífu Ísa-láð
þitt orð á lifandi tungu.

Guðs heilaga kirkja! Svana-söng
ég syng þér með brestanda rómi. –
Nú heyri ég ljóðin þín, Líkaböng,
og lyftist af upprisu hljómi.

Kom, ímynd Krists brúðar, mín dóttir dýr[1],
þinn deyjanda föður að styrkja.
Svo lýsi dýrð hans, sem í ljósinu býr,
yður, land mitt, og dóttir, og kirkja!

---

1) Halldóra Guðbrandsdóttir.

## EGGERT ÓLAFSSON.

Þrútið var loft og þungur sjór,
  þokudrungað vor.
Það var hann Eggert Ólafsson,
  hann ýtti frá kaldri Skor.

Gamall þulur hjá græði sat,
  geigur var svip hans í,
hann mælti við Eggert Ólafsson:
  „Mér ógna þau vinda-ský.“

„Eg sigli' ei skýin, eg sigli sjá!“
  svaraði kappinn og hló;
„eg trúi' á Guð en grýlur ei,
  og gleð mig við reiðan sjó.“

Gamall þulur frá græði hvarf,
  gegndi með þungri lund:
„Þú siglir ei þennan sjó í dag,
  þú siglir á Guðs þíns fund.“

Það var hann Eggert Ólafsson,
  hann ýtti frá kaldri Skor,
vindur upp segl og sjálfur við stjórn
  settist með formanns þor.

Knúðu rastir knerrir tveir,
  komið var rok um svið;

síðasti fugl úr fjarri Skor
flögraði' á vinstri hlið.

Á búlkanum situr brúður ung,
bleik var hin göfga kinn:
„Ó Guð! sú báran er brött og há,
hún brotnar í himininn inn!“

„Hækkið þið seglin!“ hetjan kvað,
en Helja skjótari varð;
boðinn skall yfir báru-mar, —
í búlkann var komið skarð.

Það var hann Eggert Ólafsson,
frá unnar-jónum hann stökk,
og niður í bráðan Breiðafjörð
í brúðar örmum sökk.

„Það var hann Eggert Ólafsson“
— Ísalands vættur kvað —;
„aldregi græt ég annan meir
en afreks-mennið það.“

Ef þrútið er loftið, þungur sjór
og þoku drungað vor,
þú heyrir enn þá harma-ljóð,
sem hljóma frá kaldri Skor.

---

# ÍSLANDS LANDNÁM.

I.

Ó, landnáms-öld, þú lands míns bernsku-tíð,
þú ljómar eins og himinsólin fríð,
og skín á raka rósum klædda fold
og rauða-gulli fóðrar stein og mold;
með ilm og angan, söng og kvak og klið
þú kveikir vorsins yndi, ljós og frið,
og getur vakið hjörtun öld af öld,
sem áður voru dauð og jökulköld!

## II. ÍSLAND.

Ár var alda
Íslands bygðar,
fjalls milli' og fjöru
fagurlimi,
fullir fiska
fagrir straumar,
en grængresi
gróin fjöll.

Runninn var röðull,
rendir gulli
fránir jökla
fagurhjálmar,
en til axla
úrig vóðu
sólar-fjöll
silfurþoku.

Hófu svás
svanir í lofti
ljúflings-ljóð
Lofnar-heima;
gullu glymhálsar,
glóðu svifvængir
silfri sindrandi
og til sólar stefndu.

En hlymhrönn
hvítra fossa
féll af fjalli

í frjódali;
dunuðu dyngjur
Dvalins heima
gleði-rödd
Gýmis barka.

Þrumdu volegir
á virkis-tindi
hamra hersis
haukur og örn;
slitu höggdofa
og úr háfjalli
fyrir flugbjarg
að foldu steyptust

Þangað, er snúðhart
snéru laxar
stóriðu-vað
stæltum sporði,
en kastharðan,
kvikan fisk
hremdi hræmár
með heiftar-kló.

Bar blævind
blárra fjalla
út á þröm
Ægis heima,
þar er flögrandi
fjöru-bráðir
gleypti ger
gjögurfugla
og sundkænir
selir bygðu
fjöru-torg
flæðiskerja,
og hvalblástrar
hauðri sendu
ógnar-orð
Ægis dóttur,

En glymbrúður
Gýmis vafði
sólar-dúk
um svala bringu
og fastlega
fróni hélt,
jóði sínu
jötunörmum.

Vaknaði fold
sem fagni Óði
fimbulfríð
Fensala-dís;
vaknaði Fjallkona,
fest sig hafði
ungum, ógnrökkum
ímun-þjóðum.

Varp sólþoku
sumardrauma
ofinni ísung
úrigdagga,
en sefmöttull
silfri dreginn
og hlaðbúinn
að herðum féll.

Ár var alda
Íslands-bygðar --
fjörs og hels,
harms og sælu –,
þá er andans
úr óminni
sögu sól
signandi rann.

Og frjófaðm
fríðra dala
grænilmanda
glóey kysti;
en blómþjóðar
barna augu
grétu' af gleði
og geislann drukku.

Varp Alfaðir
almáttugri
hendi hlut
í hauðurs skaut;
glóðu sólgeislum
guða rúnir,
sungu ljósálfar,
svöruðu landvættir.

---

## III. VÆTTASLAGUR.

Ljósálfar:

Lof sé þér, heilaga
lífs-heima sól,
andans við eilífan
alveldis-stól!

Sjöfaldir sólröðlar
signa nú storð:
lifandi sálir
og lifandi orð.

1. rödd:

Vaki vætta her,
vaki hvað, sem er,
hefjið hvellan róm;
heyrið guða-dóm!

2. rödd:

Háfaldinn knör
hjaldur-ör

horfir að vör.
Hver mun ráða för?

3. rödd:

Sé ég Hárs hrafn,
horfi' á skipstafn,
signir sólrún
siglu gullhún;
skyggir skips-ögn
Skuld og ginrögn!

Fagurt er far,
Freyr hinn dýri
stendur við stýri,
hauksnar
horfir of mar.
Hermið svar:
hver fer þar?

Illvættir:

Snæfells-ás,
stormi blás!
Eyfjalla ár,
ógnir og fár!
Heklu-glóð!
Hamra-þjóð!
Dvergar, dökkálfar,
dólgar, hraunbjálfar:

Æsið, hræsið,
emjið, lemjið,
bölvið, mölvið,
blótið, skjótið,
hrækið, skrækið
hendið, sendið
út yfir sjóinn
eldinn og grjótið!

Hollvættir:

Það er hann, það er hann!
Ármann, Grámann,
Bárðr, hólbúi,
bjarga fulltrúi!
Það er hann! það er hann!

Enginn kur,
Arnar bur
nemi land
laus við grand.
Allar gættir

opni vættir
láðs og laga;
landsins saga
á sér rætur
við orar fætur.

Sævættir:

Nýtt er ár alda,
öldur bláfalda,
skutla skúmfjöðrum
að skerjajöðrum,
hvín í háklettum.
Hvað er í fréttum?
Andsvör Unn semur:
„Ingólfur kemur!“

Ljósálfar:

Sjöfaldir sólröðlar
signa nú storð:
lifandi sálir
og lifandi orð!

---

## IV. SIGLING INGÓLFS.

Norðar enn!
norðar enn!
Látum gamm
geysa fram!
stormur hár
stendur þrár
Noreg frá.
Flýjum þá
fjón og þraut
frjálsa braut,
þar til Þór
þróttarstór
ræður einn
rétti lands;
þangað beinn
brautar-vegur
æskilegur
liggur Ingólfs
landnáms-manns.

Spýtir fönn
frjáls um tönn
drotning Rán
djörf og frán:

Gram og jarl
gabbar þú
Hlés um hjarl,
heyr mig nú:
sveigir fald
við þitt vald
sérhver súð
sigurprúð;
ber oss nú
beint til lands,
þá skalt þú
una' í fróðum
afreks-ljóðum
landsins elzta
og yngsta manns!

Heiðin goð,
hlífið gnoð! –
Ekkert má
orka smá
nokkurs manns,
lýðs né lands,
nema goð
styrk og stoð
veiti drótt
dag og nótt.
Verða köld
kynja-gjöld
örlög ill
ætíð hans,
sem ei vill
blóta goðin;
goð sé stoðin
Íslands yngsta
og elzta manns!

Norðar enn!
Norðar enn!
Látum gamm
geysa fram!
Flýgur hrafn
fram um stafn:
„krá, krá, krá!“
Hvít og há
skín á fjöll
földuð mjöll —
Heill þér, Frón!
Heilög sjón!
Fyrsta stund
fundins lands –
fyrsta stund!
Nú vill þrengja,
nær því sprengja
brjóst hins elzta
bygðar-manns!

Fyrir borð
beint við storð

súlum skjótt
skjóti drótt! –
Freyr og Þór
þróttarstór,
leiðið þið
þær um mið.
Hvar sem þær
sendir sær
næst á sand,
nem ég land!
Undir voð
örlög lands
geyma goð:
séu regin
máttr og megin
Íslands elzta
og yngsta manns.

---

V. HRAFNAGALDUR.

Hvað er þetta?
Hvað er að frétta
austr um ver?
Innið þér.

---

„Nýtt ár er
austr um ver:
Sjáið blótnafna,
Bölverks hrafna;
skoðið skafna
skeiðar stafna:
Ingólfr og Hjörleifr
halda hér til hafna“.

Skynjum skálmöld,
skorin hlíftjöld,
hafinn herskjöld,
heimtuð vígs-gjöld;
Veitt mun vargfjöld
veizla hræköld,
Hildar haustkvöld
herjar veröld.

„Harða hjálmskrúfa
hárs eldar kljúfa,
stökkur stálhúfa,
steypist hjarnþúfa,
niður gögl grúfa,
gelur hrædúfa,
ryður hlunnhúfa
Haraldur lúfa.

Fer sem flugandi
fylkir sigrandi

reiðr ríðandi
Randvers sægandi;
bresta benþvarar,
brotna glymskarar,
hetjur hugsnarar
biðja' um heill farar."

Fregn er flogin,
friðr mun loginn,
óvígur her
þekur allan ver;
styrkir, styrkænir
stafnar austrænir
skipa svalan sjá
við sólar-brá;
gapandi trjónum
gína við sjónum
dreka höfuð há:
horfið á!

---

„Þar er Hrólfs hlýri
Hrollaugr af Mæri,
Haralds heill
fylgir hjaldrstæri,
stórmannlegur
er stýrir dreka,
en gefr eigi bráð
gera' og freka.

Næst er skeið Hæings
úr Hrafnistu;
ernir að hans
oft um gistu:
hamrömm þjóð
Hrungni borin,
jörmunfróð,
jötunþorin:

Hlýri Hæings
hrindir knörum
efldur næst
Úlfr úr vörum.
Sjálfr er feigr,
en á sonar skalla
örlög eru skráð
Íslands fjalla.

Ríkir og auðgir
af rógmálmi
glóa gramir
und gullhjálmi:
Heljar-skinn
heim um kunnir
hingað inn
halda' of unnir.

Vestr vog
vandils slóðir

leita Fróns
Flatnefs þjóðir.
Fagnar grunn
fólki slíku;
hneig þú, Unn,
Auði ríku!« —

---

## ELDGOSID OG STJÓRNARMÁLIÐ.

**Kveðið um þingtímann 1867, og fest upp í lestrarsalnum.**

„Hárr leikr eldr yfir orum«
ættlands himingættum
(firn boða ný) of fornum
(fjöll) alþingis võllum.
Svá var endr, þá er andi
alvalds þrumu-halla
lõgberg heilagt logum
leiftrandi þjóðum steypti.

Svá var endr, þá er andi
Óðins brott frá þjóðum
(reistr stóð krossinn Kristí)
knúðr af landi flúði;
svá er ok enn, þá er inna
eigu landsins megir
(hönd sjáið Guðs) af hendi
heilagt verk (í merki).

Sjáið tákn ok trúið,
traust skelfr borg á hausti;

römm kváðu rökin dimmu
ragna heiðnar sagnir.
Sjáið tákn og trúið,
titra glæður, en hræðist;
eldraun boðast öldum
öllum sem þessum fjöllum.

---

## STJÓRNARMÁLIÐ
1869.

---

Vertú óhrædd, veika þjóð,
vörn í þinni sök
fram mun færð um síðir
með full og heilög rök.
Stöndum fastir á fót, fylgjumst allir vel!
Líður nótt og lýsir röðull himinhvel.

Falda hvítum faldi enn,
feðra heilög drós;
Drottinn gaf þér djásnið
drifið loga-rós.
Stöndum fastir á fót, o. s. frv.

Aldrei varstú ambátt neins,
eyjan tignarhá
slungin ógn og eldi
úti' í köldum sjá!
Stöndum fastir á fót, o. s. frv.

Lengi' hefir þú, fósturfold,
felt hin bitru tár.
Himna-Guð einn heyrði,
hve hörmung þín var sár.
Stöndum fastir á fót, o. s. frv.

Blóðug sugu brjóstin þín
börnin gráti mett;
þú seldir blóð, en seldir
ei sona þinna rétt.
Stöndum fastir á fót, o. s. frv.

Eigi sífeld eymd og kvöl
er þér, móðir, léð,
heldur fremd og frelsi,
ef fara kantu með.
Stöndum fastir á fót, o. s. frv.

Úr því þú sazt ein í rann
yzt í foldar-geim,
átt þú óskift frelsi
enn í skuld hjá heim.
Stöndum fastir á fót, o. s. frv.

Ekki deyr þitt dauða-vein,
dapra þjóðin mín;
horfðu upp til himins
unz heilög sólin skín.
Stöndum fastir á fót, fylgjumst allir vel!
Líður nótt og lýsir röðull himinhvel.

## FUNDARLOK Á ÞINGVELLI 1873.

Getið verðr þess, er þorðu
þingdjarfir Íslendingar
inna einum munni
orð hvell á Þingvelli:
„Frjáls kjöri þjóð til frelsis
fjallbygð Garðars alla;
lýðr skal lögum ráða;
lands-rétt hefir Guð settan!“

---

## VEÐURVÍSUR.

### I. NORÐANBYLUR.

Hvín reginhvellur,
er fjúkstormur fellur
úr fjallsalnum auða;
gnötra grjóthellur,
er gnýbylur svellur
um grænbreiðu sauða;

kemur hásmellur,
er kastvindur skellur
á kotbæi snauða,
hreggþruma bellur,
en hræðast glysþellur
hinn helkalda dauða.

---

### II. ÚTSYNNINGUR.

Utsynnings-bylur
sig biksvartar hylur
við bládýpið kalda,
enn þá finst ylur

og skin sólar skilur
að skautin lofttjalda;
demban sig dylur,
en óðara mylur
alt illviðrið galda,
þrumu-ljóð þylur,
svo hringsnýst hver hylur
sem hreggblásin alda.

---

III. GÓÐVIÐRI.

Brosir nú blíða,
því hásalur hríða
er hlývindi þveginn,
fjallstrindin fríða
og frjóangur hlíða
eru' fannstöfum dregin,
lágbygðin lýða
við lagar-þröm víða
er ljósbifi slegin.
Þraut skal ei kvíða;
ef þú kant að bíða,
skal þér batna treginn.

---

## SJÓMANNAHVÖT.

Sungin, er vígður var fáni sjómanna í Rvík 1876.

---

Vaki Darraðar drótt
meður drengskap og þrótt,
nú er dagur um blájökla-stól;
yfir fjöll, yfir höf,
yfir fleysiglu-tröf
þeytir flugeldum ljómandi sól.

Berum hátt vora stöng,
kveðum hermannasöng,

stígum harðsnúinn víkinga dans,
því við styrjöld og stríð,
því við Hjaðninga hríð,
er vort hlutfall í forvígi lands.

Mót oss víkingur fer,
nefndur Víðir og Hlér,
undir vináttu blár eins og Hel,
en í hernaði grár
meður hrímfroðu-tár,
býður hildingum gjörninga-él.

Hann á fannskautuð fljóð,
hann á fjöldamörg jóð
haldin fjöllynd og vanstilt og bráð;
ef þær dansa mjög dátt,
ætlar Ægir á flátt,
þá er einsætt að kunna sín ráð.

Hann er ríkur og forn,
hann á bagsælda-horn,
getur hlaðið með gulli hvern knör,
en hann gefur ei margt,
nema herjað sé hart,
þá er Hlér Ægir mildur og ör.

Fram í fylkingar þröng
meður fánann á stöng,
höfum feðranna gullaldar sið;

nú sé kotungum kvöld,
lifi karlmensku öld,
full með kraft gegn um styrjöld og frið.

Vaki Darraðar drótt,
burt með niðdimma nótt;
skín á gullhúna glóandi sól;
sækjum Hlé konung heim,
vinnum sæmdir og seim,
knýjum seglin við marrandi hjól!

---

## TIL FRÚ GUÐLAUGAR ARADÓTTUR,

**þegar hún lá í veikindum og hafði mist dóttur sína.**

---

Í Drottins friði sit þú, svanni dýr,
til sala þinna hugur minn nú snýr.

Í friði Drottins hlustar þú svo hljóð
og heyrir dynja lífsins stóra flóð.

Þér finst þú vera barn við sjávar-sund,
er sumarnótt í logni skyggir grund.

Þér finst þú vera barn í brjósti' og sál;
á burt er dagsins sorg og stríð og tál.

Þú veizt, að baki lífsins horfinn leik
hin ljúfu blóm í dufti hvíla bleik.

Hve margan kvist, hve ótal blómstur björt
í barmi sínum felur nóttin svört!

Þinn hjartans akur ástar vermdi sól,
þar átti margur veikur kvistur skjól.

Og færri blóm á sælli sumarstund
um sína daga hlutu betri lund.

En rós eĩn stóð við hjarta þitt í hlé,
og hjartað nefndi blóm sitt lífsins tré.

Og rósin óx, varð yndisblíð og ljós,
og allir sögðu: „Þetta' er fögur rós!“

Og hjartað bað og sagði: „Herra hár,
lát hana þerra ótal daggar-tár.“

En rósin dó á dagsins miðri stund,
og dauðinn nísti hennar móður lund.

Og nú er hún og flestöll blóm þín bleik;
sem barn á strönd þú situr hljóð og veik.

Og horfir fram á dimma drafnar-slóð,
þar dunar lífsins undarlega flóð.

Sem hvítar völvur dansa drafnar fljóð,
um dauða' og líf þær kveða hulins-ljóð.

Ó hverf þú, barn, frá heimsins köldu strönd
og horfðu beint á morgunroðans lönd.

Með augans sjón þú eygir ljós og frið,
með andans sjón hin björtu lífsins hlið.

Og þar á barnið borgar-rétt og skjól,
þar birtist alt, sem duft og myrkur fól.

Og þar er Eden vort með líf og ljós,
þar lifnar aftur sérhver dáin rós.

En þótt þú standir ein á auðri strönd,
er ávalt hjá þér Drottins náðarhönd.

Já, allt í kring og inst í sálu þér;
– og engu týnir Guð úr hendi sér.

Í Drottins friði sit þú, svanni kær,
unz sólin aftur rennur morgunskær!

---

## EYJAFJÖRÐUR.

---

Eyjafjörður — finst oss — er
fegurst bygð á landi hér,
meðan guðleg sumarsól
signir Norðra konungs-stól.
Ægis band inst í land
undið blítt af guðamund
festir Suðra segul-átt
silkimjúkt og himinblátt.

Jafnt á marar bæði borð,
brosir alt, sem prýðir storð;
stuðla-björgin sterk og há
stöðva nyrst hinn ramma sjá;
fríðkar skjótt, frjófgast ótt
fögur strönd með dala lönd,
þar sem Hörgár hlíða svið
hýran Laufás brosa við.

Ríðum inn á Laugaland
ljósa nótt við árdags brand,
meðan sumarþokan þýð
þiljar miðja blómsturhlíð:
Sólin há, Súlur þá
sveipar gulli náðarfull,
glóir fold og fjarðar-ós,
fuglinn syngur, grætur rós.

Himinlofti hollu skygð
hlær nú við hin forna bygð;
höfðinglegri héraðs sveit
Helga magra enginn leit.
Saga fróð! Sigurljóð
syng um þennan bygðar-hring,
syng um snotra snildar-þjóð,
snyrtimenn og gullin fljóð!

Forna Kristnes, gamla Grund,
gróin lofi hverja stund!
Hár og stór þinn vegur var,
völlur ríka Guðmundar!
Þverár-grund, þar sem fund
þreytti blóði Sturlu þjóð,
þar sem Glúmur prúðgur hló,
þar sem Einar spaki bjó!

Fornu stöðvar hreysti-hljóms,
heilög óðul frægðar-róms,
gleði-sveitin gullinfríð,
glói lof þitt ár og síð!
Aldrei drós lagði ljós
lokka-krans að brjósti manns
fegri þér, sem ástin ól,
Eyjafjarðar meyja-sól.

## TIL BENED. GRÖNDALS

[á afmælisdegi hans 1871].

Góðan daginn, gratulor[1];
gakk þú rakleitt öll þín spor
hvergi hræddur hjörs í þrá
hlífum klæddur Drotni frá!

Gyrtur varstu skarpleiks-skálm,
Skaparans dýrðar ægis-hjálm,
hvelfdi Guð á höfuð þér,
af hringjum ljóss er brynjan ger.

Fræða-dísin fim og hög
fimbulmögnuð töfra-slög
kendi þér við Fjölnis feng,
fékk þér stoltan gullinstreng.

Grátum aldrei orma-ból;
ill er skáldum drauga-sól;
kom þú blessað, Braga-full,
betra' en vín og rauðagull!

1) ɔ: Ég gratulera, óska til hamingju.

# Á HÁTÍÐ ALBERTS (BERTELS) THORVALDSENS.

5. nóv. 1875.

---

## I. MINNI ALBERTS THORVALDSENS.

Er kominn Íslands forni frægðar-dagur
í fullri stærð og sýnilegri mynd?
Hver heilsar oss svo mildur, munar-fagur
sem mána systir kyssi Esju-tind?—
Velkominn Albert! Albert Thorvalds mögur
til ættlands þíns frá blíðri móður-strönd!
Þú hjóst í stein, en nú skal sett í sögur:
„Snæland og Danmörk festu trygðabönd."

Þig blessi Guð, hin góða danska meyja,
er grátblíð réttir frónskum sveini hönd;
í Hertu lund þá hittust Þór og Freyja
og helgir kraftar snertu norðurlönd.
Og sveinninn óx, varð sinnar aldar ljómi,
hann svarf úr steini mannsins djúpu sál,
hann hráan leir að helgum gjörði dómi,
hann hjó til lífs, og steinum gaf hann mál.

Danmerkur sonur, Íslands mikli arfi,
vors ættlands dýra þúsund ára gjöf!
Svo margra þinna frænda stríð og starfi
með stirðri höndu féll í týnda gröf,

en loks komst þú, er þjóðum skyldir lýsa
og þúsund bræðra yngja sál op von.
Kom heill með kraftinn Ása' og yndi dísa
til Íslands fjalla, tigni Þorvaldsson!

Og þú ert Íslands forni frægðar-dagur
í fullri stærð og sýnilegri mynd;
og þú ert Íslands endur-fæddi hagur
með andans vor um fagran brúna-tind;
og þú ert sómi' og sættir tveggja landa,
er sólar-herrann veitti slíkan mög;
þitt lifir nafn með list og snild þins anda
svo lengi sálin undrast Drottins lög.

---

### II. MINNI KAUPMANNAHAFNAR.

Danskir menn í hárri Höfn,
hjartaprúðu vinir,
yður heilsa yfir Dröfn
Íslands glöðu synir.
Absalons og Bertels bær,
bygður snildar lýði,
meðan speglar sólu sær
sértú vafinn prýði!

Bertels vagga, Bertels gröf,
Bertels dýra móðir!
þökk fyrir Bertel, þökk fyrir gjöf, —
þökk, vor danski bróðir!

Vertu blessuð, blíða grund,
brjóst sem á vanst leggja
og signa fram að síðstu stund
soninn okkar beggja!

Göfgir frændur, gleði-stund
gafst oss sjaldan meiri;
Þorvaldsson á Garðars-grund
greyftuð þér í eiri.
Þúsund ár skal mærings mynd
mikla yðar snilli,
standa hlý sem laufgræn lind
landa vorra milli.

Norðurlanda mesta mann
munum, þjóðir beggja!
Í þeim sveini saman rann
sæmd og gæfa tveggja.
Heilla-stund, er blóð við blóð
blandast svo í einum;
læri þar af þjóð við þjóð
þýðast ástum hreinum.

Dýrra menta heilla-Höfn,
herborg Absalonar,
lifi, meðan listasöfn
lifa Þorvaldssonar!
Gamli, fagri Bertels-bær,
bygður snildar lýði,

meðaa speglar sólu sær,
sértú vafinn prýði!

---

# Í JÓRVÍK.

Stend ek í borg, þars byrginn
Blóðöx hlýddi ljóðum;
skaut á yglibrún Agli
öðling köldum röðli;
vöktu fjarðloga firðum
firn ok Arinbirni
(tröll fyrir stóli stillis
stóð) þórdunu-hljóðin.

Stóðu hér á heiði
hlýrar tveir af Mýrum.
bænda-synir, er sendu
sigrgrein Aðalsteini.
Nú man frónskáldi finnast,
frábær þó að væri,
meiri raun að reyna
randhæng á Bretlandi.

Hamaðist þar sem þruma
Þórólfr í gný stórum;
brauzt með heiftar-hreysti
Hringur í mót víkingi.
En skaftloga leiftri
lagðr vígnöru bragði
sást á kesju svífa
svæfður jarl yfir hjarli.

Hætt voru víg þar er hitti
hlýra Egill dýran,
skein hinn skarði máni
ský-dimmr á val grimman,
vargar úr viði orga,
víg-slóð drifin blóði,
eldhögl rigndu Agli
óð yfir fallinn bróður.

---

## Á SIGLING Í ORKNEYJUM.

1873.

Keyrir byrr á báru
borðjó þar er forðum —
agasamt var í eyjum —
jarlar réðu hjarli.
Sama sker með skoru
skein fyrir bráa-steini
(háa skóku drifdúka
dúfur) Hausakljúfi.

Óm af hjörva hreimi
heyri' ek nú fyrir eyrum,
ungr er Íslendingum
ógnfrár veitti Kári.
Hýrt Njáls sonum hjarta
herðimaðr of gerði;
garpr var geiri snörpum
gyrtr í silkiskyrtu.

Réð hér Bláeygs brúði
Blóðaxar kyn rjóða
(römm voru regingrimmrar
ráð tryld) og Gunnhildar.
Brandr gall of sjá sollinn
(sí ok æ yfir hræjum
svarraði Svölnis orra
söngr) í skerja-göngum.

## UM MYND KARLS JÓHANNS 1872.

TIL MYNDASMIÐS BR. BERGSLIEN.

Stara man öld of aldir
undran hárri bundin
dvergsmíð bjargáss borga
Berghlíðings á fríða.
Völundr hefir of valið
vist ódáins lista
(nemi dýrviðir darra)
dís í verki þvísa.

Heilsar höldum frjálsum
horskr sá er kom norskum
geirs með geysi-tíri

gunnórungur að sunnan,
hátt ber Hörða dróttinn
höfuð sigri göfgað,
hrísla hvarmar geislum
hildings þróttargilda.

Ógn af enni tignu
allvalds skín hins snjalla,
brjóst er brynjað hreysti,
böðsnart vottar hjarta
og harðsnúnar herðar.
hríðefld mund með síðum
sýnir þrekstrindi Þrænda
þrótt norrænna drótta.

Geyst ber tiggja traustan
trölljórr hinn svipstóri;
aldri úrdaggir kulda
ægilegri mynd fægja.
Víst í hal og hesti
(hróðr völundi ljóðak)
þykkir mér sem ek þekki
þjóð ok land í anda.

---

## BLESA-MÁL.

**Sigurður Vigfússon gullsmiður og fornfræðingur átti lengi hest blesóttan, allra gæðinga beztan. Honum þótti hesturinn allgóður, og er Blesi var hálfþrítugur að aldri, lét hann skjóta hann og heygja síðan að fornum sið 10 nóv. 1877.**

---

Dundu árgalar,
umdu Týs salar,
Hár og Hlóriði
hrundu glómiði;
hvein með gný-gjalli
gnegg frá jóstalli:
„Flytur feigð Grani“
mælti Fáfnis-bani.

Fljúga í höll hrafnar,
hrikta salstafnar,
hvískra orð Óðni,
– frá ég aldir hljóðni.
Bendir Hár Braga,
birtist hróðsaga;
svellur gull-gígja,
glaðnar þjóð día.

---

**Bragi kveður:**

Gellur brú Gjallar,
gnýr af jódýri,
gneista gimrastir
gjósa logrósum;
herðir svipharðan
(hifinloft bifast)
gang til goðvengis
goti vellbrota.

Glöggur hátt gneggjar
Grani linns-bana,
lýsir brá Blesa,
bragnings jó fagnar.
Aldrei, sízt elda
óð í guðmóði,
glað sá jafn-góðan
goða-veg troða.

Hvað er á hauðri
hesti glíkt beztum?
Hvað gjörðu goðin
gota jafn-snoturt?

Hvað gáfu goðin
góð fíra þjóðum
blakki bifrökkum
betra' á lífs vetri?

Hvar lærðu herjar
hreystinni treysta?
Hvar lærðu lýðir
ljónhug á fróni?
Jóar flugfráir
fjöld kendu hölda
list, og kyn kosta
konunga sonum.

Blesi með Ásum
bygð tak, hinn dyggvi,
grænstör með Grana
góðheims þig fóðri. –
Gef nú með gáfu
glað þann, vígfaðir,
sköldungi skálda
skýrum hinn dýra.

---

Síðast ég sá
undir sólar brá,
leiftrum roðin
hvar riðu goðin
í Austurveg
svo ægileg,
að valdögg drifin
stóð viður hifinn.

Fremstur ók Þór,
hann var furðu-stór,
brá hamri' í hönd
yfir heiðin lönd,
suður nam halda
yfir Svíþjóð kalda;
biðu stórvirki,
vildi berja Tyrki.

Óðinn fór næst,
og bar allra-hæst
yfir Soldáns garði,
stóð í Sjipka-skarði.

Gekk úlfur og örn
yfir Osmanns börn,
vall af valköstum
vogur í stórröstum.

Höfðu þar allir
Einherjar snjallir
fylkt að fólkroði; —
það var fagur voði; —
en fremst yfir tindi
flaug of valsstrindi
Blesi með Braga
yfir Balkan-skaga.

---

Gunn-hvatan kveð ek gotna
góðhest, skörung flestra,
fallinn vals á velli,
vex tír, hinn glófexta.
Hylr, þótt harma teljum,
húm-nótt (lánar-dróttinn
sorgar-lauf yfir leyfðum
les sínum vin) Blesa.

---

## MINNI VERZLUNARMANNA.

**Sungið í verzlunarmannagildi 1879.**

---

Þú, sem oss í sali Seifs
sóttir eldinn, Promeþeifs!
blessuð veri börnin þín,
blessað þetta Rínar-vín;
það má heita himinglóð;
hitum anda merg og blóð;
enginn býður æðri kost
eftir nítján stiga frost.

Fullhuginn með þrek og þor,
þú, sem fyrsta sinn til vor
hleyptir knerri hrannar-stig,
hátt í lyfting sé ég þig:
glæsimann með gullinn hjálm,
gyrtan logabjartri skálm.
Hvað bar skrautleg skeiðin þín?
Skarlat, hveiti, gull og vín!

Brandur örvi, Bolli, Hrafn
báru forðum kaupmanns-nafn;
Egill sjálfur orkustór
enskan sótti mjöð og bjór;
konungs-félag kaupmenn þá
knúðu fast um land og sjá;
kaupmenn Fróns með frægð og seim
fundu sjálfan Vesturheim.

Lifi hróður hepna Leifs!
hann var maki Promeþeifs;
sannir kaupmenn sérhvers lands
synir eru' og niðjar hans.
Dvínar auður, dofnar blóð,
deyr í kulda sérhver þjóð
andans nauð og sulti seld,
sæki' ei hennar kaupmenn eld.

Nær kom Íslands nauða-öld,
nær þess dapra rauna-kvöld?
Frón, hinn bjarti faldur þinn,
féll, er léztu kaupskapinn;
sverðið datt úr hraustri hönd,
hringur þinn af vala-strönd;
guðvef, djásn og gullin rauð
gafst þú fyrir hungurbrauð.

Hvers kyns mæða þrengdi þér,
þó stóð verst á landi hér
þegar kreisti kjark úr þjóð
kramarinn með okurblóð;
gegn um tímans ólán alt
aldrei varð þér meira kalt,
móðir vor, við magran kost
með þitt nítján stiga frost.

„Æskumenn með afl og þor!"
— Ísland hrópar, móðir vor —

„einn ég dýran á mér sjóð,
ykkar varma hjarta-blóð.
Sviftið af mér sorg og pín,
sækið rændu gullin mín;
finnið týndan tignar-feld;
tendrið lífs og frelsis eld!

Lifi fóstur-land vort enn;
lifið, ungu snyrtimenn;
elskið, hefjið land og lýð,
lífgið aftur forna tíð.
Dafni fjör og líf og ljós;
lifi sveinn og fögur drós;
lifi himinn, land og sjár;
lifi gullið þrúgna-tár!

# IV. ORKT EFTIR 1880.

## ÍSLAND OG ÖNNUR LÖND.

(Þakkarljóð, 1882).

Fyrrum í forneskjutíð<br>
          var finnur í hamförum sendur<br>
heiftugur handan um ver<br>
          Haraldi Gormssyni frá.<br>
Komst sá með hrakningi heim,<br>
          og Haraldur tiðinda spurði;<br>
fjölkunnur fylkis í höll<br>
          Finnur svo ræðuna hóf:<br>
„Fyrst bar mig austfjörðum að.<br>
          en óðar en landinu skaut upp<br>
ginu við geigvænleg fjöll,<br>
          gnýpur og forynju-ský.<br>
Eitt þeirra' ég alskapað sá,<br>
          að ekki var ský, það var dreki,<br>
flugdreka-forað svo hátt<br>
          að fjallið og jökullinn hvarf.

Hreistrið ég horfði' á svo glögt
og hrímgráa ísbrodda-vængi;
sporði við Snæfell hann sparn,
spertur stóð skoltur til hafs.
Lét ég þar landinu frá,
en leit við, ó fádæma-undur:
óttaleg eldgusa stóð,
eftir mér drekanum frá!
Fór ég svo norður um fram,
unz fjörður gekk suður i landið,
langur og bjartur og lygn,
ljómuðu strendur og bygð.
En er ég innfirðis kom
ein óvættur ferlega mikil,
fugl eins og svanur að sjá,
sveif mér í hamförum mót.
Hálsinn nam hátt yfir sól,
en hlíðarnar vængir hans tóku;
fordæðan sýn minni fól
fjörðinn sem lifandi tjald.
Hrökk ég þá vestur um ver,
en versna tók æ meira landið,
ferleg sem hungur og hel
Hornstranda glotti við sveit.
Skarst þar inn fjörður við fjörð,
en fjölkyngi' og seiðskratta galdrar
fældu mig suður um sæ;
sá ég þá fjörð eins og haf,

ótal með eyjar og sker
og innfjarða-bygðir og dali,
friðsælt og frítt leizt mér þar,
ferð minni skyndaði inn.
Ekki tók betra við enn,
því innar er kem ég á fjörðinn,
blóðrauður bjúghyrndur þjór
bölvandi móti mér vóð.
Hnýðingi harðara fór
með hornunum þyrlandi sjónum;
hræddan mig elti til hafs
hvínandi öskur og gnýr.
Síðast við suðurströnd lands,
ég, siklingur! landtöku freisti:
ferlegri forynja' en þar,
fyrir mig aldregi bar.
Jötun með járnstaf ég sé
úr jörðunni logandi ganga,
gnötraði fjall hvert af gný,
glóð upp í himininn stóð.
Járnstafinn jötuninn skók,
en jörðin við höggin gekk skykkjum;
meðan af fjallsbrúnum fram
fossaði bálelda-sjór.
Bundinn af blöskran ég stóð
og bálið og tröllið ég horfði' á,
gjörandi' í hug mér það heit,
hilmir, að brenna minn gand.

Skjálfandi herti ég hug
og hleypti sem bráðast ég mátti
út yfir Ísalands haf,
Jómali studdi minn gand."
Þagnaði finnurinn þá,
en þengill stóð hljóður og mælti:
„Heldur skal ilt þola', en ilt
eiga við forneskju þá."

---

Forneskju saga! fornaldar daga
djúp er þín kenning um land og lýð!
Hver ertu, finnur hinn forni?
Forynja' á sögunnar morgni;
hugmyndaleikur um heiftarhug
erlendra ofríkismanna;
Ísland að kanna með ófriðarsveim
þótti þeim
jafnt því að fara í Jötunheim.
Og Íslands vættir,
sem verja gættir,
hvað þýða þær?
Þær sýna glögt, hvar saman fór:
Garðarshólmurinn geigur-stór,
ísar, eldar og ógnandi sjór, --
og heimafylgjur,
heiftardylgjur
römmustu þjóða
Randvés slóða,

er heiftum safna
með hug og önd
mót Haralds nafna
frá Dofraströnd.

Þú forna tíð,
þitt frægðarstríð
var afl, sem braut sig á bak.
„Ilt fyrir ilt og gott fyrir gott“,
það var þín fávís fræði.
Frægðin var stór, en frelsið valt,
frostið kalt
anda þín ímun-kvæði.
Þú myrtir sjúka, þú barst út börn
svo bú hins auðuga stæði,
hjarta og mál var hart sem stál,
og blóð var þitt brúðkaupsklæði.

Heiðna tíð heiftar köld,
mannlífsbrautar mánakvöld,
far þá vel með frost og hel.
Guði sé lof, nú er önnur öld.

---

Þú fagur-milda, þú fræga land,
þú fóstra hins göfuga Kraka;
þú sendir ei fornan finn með gand
sem forðum til landsins klaka.
Þú skipin sendir með björg og brauð

af bróðurlyndinu staka,
þegar oss vantaði vist og auð
sem Vögg fyrir stóli Kraka.
Með þakklátu hjarta viljum vér
mót veglyndi þínu taka,
og vinarorð sömu veita þér,
sem Vöggur gaf Hrólfi Kraka!

Þér Suður-Jótar við Egðu á
um aldir á norðurverði,
ei prúðara fólk und heiði há
hefir haldið upp vörn með sverði.

Vér minnumst yðar — þér mintust vor,
vér minnumst yðvarra tára.
Hver mat yðar trúartraust og þor
og tölu' yðar þjóðlífs sára!

Ofríkið tekur tár og blóð
og tunguna myrðir kæru,
en tekur ei rétt þinn, tigna þjóð,
sem trúir á Guð og æru.

---

Þú Norðmanna þjóð, vor hugur hlær
að hugsa til þinna geima;
hve máttir þú, lands vors móðir kær,
þínu mótlætta barni gleyma?
Þú gleymir ei oss — vér gleymum ei þér —
vér göfgum þinn kraft og snilli;

vor hauður skilur að hafsins hver,
en hjartnanna' er skamt í milli.

---

Og Svíar og Gautar, glæsiþjóð!
vér gleymum ei yður heldur,
því söm eru' vcr allra sigurljóð,
og sami vermir oss eldur.

---

Þér Englar og Skotar: Albíons þjóð,
vér eigum þér gjafir að launa;
þú heldur á opnum hjálparsjóð
og hlustar til allra rauna.
Þú ríkasta fold af sigri og seim
und sólar skínandi faldi:
vinn þú með gullinu hálfan heim
en heilan með kærleikans valdi!

Til launa viljum vér læra af þér
að lifa með dáð og hreysti;
Bretlands gæfa' er ei gull — það er:
að Guði og sér sjálfu treysti!

---

Lít nú upp, fjallkonan fríð
og fram, fram, því Drotttinn þér hjálpar,
gleðstu, því gengin er þraut,
gleym þínum forneskjudraum.
Fornöld var tunglaldartíð,
en tímarnir nú eru sólöld;

heiðninnar táp, það var tungl,
trúin á Krists anda: sól.
Þetta' er ei ellinnar öld,
sjá, ellin er langt þér að baki:
æskan þér andspænis skín,
elskan og lifandi von.
Sjá þú, hver sigur er stríð,
við sífelda þraut skaltu nærast:
aldregi ásmegin Þórs
óx, nema' í römmustu þraut,
Trú þú á táp þitt og fjör,
og trú þú á sigur hins góða,
ílskunnar stæltasta stál
stenzt eigi kærleikans egg.
Trú þú á sannleikans sól
og sameining gjörvallra þjóða,
bróðurást, mannúðarmagn,
mentun og sigur vors kyns.
Trú þú! Og þá ef í þraut
þú þróttvana hendurnar réttir
harðinda hafsnauðum í,
hendur þér koma til lífs.
Lofa þá líknsaman Guð,
en lát hvorki virðing né hógværð.
Göfugum göfugur af,
gjafir má þiggja með sæmd.

---

# ÍSLAND OG GRÆNLAND.

**Orkt, þegar Nordenskjöld rannsakaði Grænlandsstrendur 1883 og kom áður hér við land.**

---

**Ísland.**

Fundur minna fyrstu sona
fáráðlingur, jötunbróðir,
fóstri Dumbs, er sæinn svala
sogar norðan úr Elivogum!

Fornjótsarfinn fimbulrammi,
furðar mig þú skulir hjara,
slæddur upp úr kynjakólgu
kvalinn strengdur fyr en alinn.

**Grænland.**

Hvaða rödd og hvílíkt yndi!
hljóminn, óminn glögt ég þekki,
málið snjalla, hetjuhreiminn,
hjartansmálið, æskuróminn!

Ertu þarna, signuð systir?
sendir þú mér loksins kveðju?
manstu enn þinn ólánsbróður?
ertu á lífi? Blessuð vertu!

**Ísland.**

Man ég alt og engu gleymdi:
andinn þinn af heljarlandi

æði stirt mér hefir að hjarta
heli kaldað langan aldur.

Lengi þreyði, lengi þráði' ég,
lánleysingi, misti hljóðin
þegar frá Hvarfi hörmug heyrðeg
hinstu náhljóð sona minna.

### Grænland.

Fjögur hundruð svipul sumur
síðan þú mér gleymdir, blíða,
kystu mig und firna frosti
Fjörnis hjálms og leiðarstjörnu.

Svipleg varð mér sonareignin,
systir góða þú ert kona,
ríf þú eigi' upp römmu sárin,
raunir minna fyrri sona.

Hafgerðingar harðra norna
hafa systkin lengi skilið;
hvort hefur lítið hinu' að þakka;
hamingja okkar fór ei saman.

### Ísland.

Veiztu, ég á söng og sögu
signuð orð og guðatungu,
sem mér kveður sól og yndi
sífelt gegnum rökkrin þungu?

Grænland.

Ég á hvorugt söng né sögu,
satt er það, hin mikilláta;
ærið áttu þeim að þakka
þér sem unni slíkri vera.

Metnast þó ei, mentadrotning,
mundu vel þín stóru pundin,
hlýri þinn þó heimskur kenni,
haf mín ráð og léttu háði.

Ísland

Ei skal hæða; hrumi bróðir,
heyri' eg nú að veistu fleira,
sæl er ég að hitta heilan
hug með sál og greindarmáli.

Seg mér, hvað og hvernig goðin
hafi skift þér lífsins giftu:
áttu takmark? er þér veittur
andi, saga, slíku landi?

Grænland.

Þá er, systir, batnað brjósti,
blíð í lund ef viltu hlýða;
glaður sendi' ég gígjar vinda[1]
Gautreks yfir svana brautu.[2]

---

1) c: góðan huga. 2) c: hafið.

### Ísland.

Vekja hroll og hug minn trylla
heimar þinna voðageima;
enn mig fræð og inn hið sanna
ástand þitt og vonir háar.

### Grænland.

Eg em land með undra ströndum
ægigeimur falinn heimi;
senn er flest und sólu kannað,
seinast hafa þeir geymt mig eina.

Ég em land með allskyns undrum,
Indlands skraut er sjón má blinda,
ég á ragna rökkurs ógnir,
ríki ljóss og myrkradíki.

Voðalegu hels í híði
hef ég sofinn þjáðst af dofa;
því er lundin beiskjublandin,
bagaleg og köld mín saga.

Barnalán ég aldrei átti,
Eiríkur þinn vígarauði
heilli flýði heiman illri,
hauðrið mitt varð kappadauði.

Mesta varð þó munargleðin
mín af garpaliði þínu,

aldir fimm er uppi héldust,
undi' eg beztar lífsins stundir.

Þögn ég dreg með þrúðgu regni
þeirra yfir fólgin leiði;
síðan mér til síðstu daga
sólin aldrei skín í heiði.

Ísland.

Veit ég — veit ég; varast skaltu
voða þann að nefna meira;
ógnarlegri óhamingju
aldrei móður barst að eyra.

Grænland.

Komu til mín kynja-þjóðir
kufli girtir húðkeypingar
þökkuðu Guði kalda kosti
kólgu barðir fáráðlingar.

Ísland.

Hvernig gaztu, gamli frændi,
gefið vistir hyski slíku, —
séð þá flá með svikakyngi
sveitir hinna goðumlíku?

Aðrir kristnir, hraustir, háir,
hetjulýðir mentafróðir;
þessir heiðnir, heimskir, smáir.
húsgangsfólk og skrælingsþjóðir!

Grænland.

Vant er svarið, vitra systir,
valda regin kjörum alda
eðlis míns og auðnulaga
eg sem fleiri hlaut að gjalda.

Veit ég, flestir fyrirlíta
fávitringa mína smáu;
en þeir hafa einir manna
unnað mér af hjartans grunni.

Leikur ást í léttu brjósti
lítilþægra vesalinga;
angurblítt ég einatt horfði
yfir mína bjróstmylkinga.

Ísland.

Ungum fyrri umskiftingum
aldinn faðir brosti glaður;
enginn hrósi hamingjuleysi,
hvað hugsarðu, gamli maður?

Grænlaud.

Margt um b ö r n mér barst til eyrna;
búast þín ei land að flúa?
mín við þraut og þunna kosti
þakka Guði kyr að búa.

Hver veit, hvað þeim ætla árin
unga hafa þau sál og tungu;
yzt þau eru sett, en síztir,
systir, verða stundum fyrstir!

Ísland.

Verði það, minn vesli bróðir!
vildisgestur land þitt nemur.

Grænland.

Nóttin deyr og nornin grætur:
Norðurskjöldur til mín kemur.

---

## JARPUR, † 1885.

Úr bréfi til Tómasar læknis, sem gaf mér hestinn.

---

Verður ertu víst að fá
vísu, gamli Jarpur,
aldrei hefir fallið frá
frækilegri garpur.

Margan fórstu frægðarsprett,
fákurinn ítur-slingi;
því er skylt, að skarpt og létt
skáldin um þig syngi.

Harmar látinn lífhest sinn
læknir Tómás prúði,
fyrstur hann á frækleik þinn
og fagra kosti trúði.

Marga glaða fremdar-för,
fórstu, kempan rakka,
þegar skauzt sem ástar-ör
út á fagran Bakka.

Þá var taða, þá var skjól,
þá var fjör og yndi,
þá var æska, þá var sól,
þá var glatt í lyndi!

Æska, þú ert örvar-skeið,
Eyrarbakka slétta;
Elli, þú ert löng og leið,
leið um hraun og kletta!

Hvorki getur lyf né list
læknað hestum elli;
sendur varstu' í súra vist
suður á Rangárvelli.

Hugði máske herra þinn
hér sé krafta-tungan,
sú er geti gæðing sinn
gjört að nýju ungan!

Nei, nei, kosta-klárinn minn,
kraft minn spottar Elli,
klár og skáld sú kerlingin
keyrir jafnt að velli.

En þó löngu liðið vor
og lífs þíns gleði væri,
bar mig aldrei blakkur spor
betur en þú, minn kæri.

Sorg í minni sálu bjó
svip þinn nam ég skoða:
horfðir þú með hugar-ró
heljar- móti -voða.

Skyttan stóð og studdi hlaup
stilt við þína krúnu,
af þér hvorki datt né draup,
dýrinu hreystibúnu.

Hvað þér bjó í hyggju-rann
heitt mig vita fýsti;
eitt ég sá, að samvizkan
sýknu þinni lýsti.

Endar þannig æfi-raun —
inti ég í hljóði —
Eru þetta lífs þíns laun,
lista-klárinn góði?

Skotið small, en gaus upp glóð,
greyp þig dauðinn bleikur,
bólgið hræ á heljarslóð
hjúpaði kaldur reykur.

Hélt ég gneypur heim á braut,
hvíslaði vindur skarpur:
nú áttu' eftir þína þraut, –
þarna liggur Jarpur!

Örlög mín og efstu þraut,
ei skal hér um klifa,
en á minni minnisbraut
máttu, Jarpur, lifa.

Hvorugum okkar ódauðleik
annan gefa má ég;
eins og lán er vonin veik —
vissu dauðans á ég.

Hvíldu, Jarpur, hægt og rótt!
Hver veit, nema' um siðir
endi loks hin langa nótt,
lengi þó þú bíðir;

Og á baki Edenlunds
oss þú berð sem áður; –
(milli manns og hests og hunds
hangir leyni-þráður).

Komdu þar á blómstur-blett,
bak við heljar-váðir;
á þér skeiða skarpan sprett
skulum vér Tómás báðir!

---

## VIÐ ÞJÓÐHÁTÍÐ EYFIRÐINGA.

### I. HULD.

(Landnámsljóð Eyfirðinga.)

Svíf ég upp á „sólarfjall“,
sé ég aldir líða
yfir frónið fríða;
roða slær á Ránar fall,
rósir dali prýða.
Heyri ég frá hæðum kall:
„Hver, sem vill, má þýða
rúnir lífs og lýða.“

Sefur alt um sæ og strönd,
sé ég inn til dala,
einn í árdags svala;
blána dimm hin lægri lönd,
loga brúnir sala;
skín á gull og guðvefs bönd; —
gyðja, bundin dvala,
við þig vil ég tala.

Þúsund sinnum þúsund ár
þreyja foldin mundi.
Viltu' ei bregða blundi? —
Fífill spratt og feldi hár,
fimbulvetur dundi;
glóey kom með gleðitár,
gullið brann í lundi,
silfrið flaut á sundi.

Þrumir sær en þegir storð,
þrúðgir fossar lauga
býlin dimmra drauga;
enginn lítur lífsins borð,
lönd og fríða bauga:
Bruna fram, þú blessað orð,
brjóttu dáins hauga,
opna lífsins auga!

Vakna, mæra munardís,
morgun gyllir haga,
stiltu strengi Braga!
Dýrðleg sveit af dauða rís,
dynur orðið laga.
Heiðurs nafn þér nýtt ég kýs:
njóttu langra daga,
guðleg gyðjan Saga!

Leiftrar þér um ljósan hvarm
Lofnar táknið fríða,

barnsins engilblíða;
háan vöxt og hvelfdan barm
hreinir lindar prýða;
móti sól þú sveigir fald,
svo sem viljir þýða
rúnir lífs og lýða.

Loga sjónir. Ljúfa snót:
lífsins von og yndi
lýsir loft og strindi.
Hitnar fjör í hjartarót,
hverfur svefninn blindi.
Allra meina unaðsbót,
andans sólarlindi
skín frá skarartindi!

Heil og sæl, hin horska mey,
hlýddu lögum tíða,
bjartar aldir bíða;
sérðu ei hið fagra fley
faldi búið skríða?
Gróa fer á Garðars ey
guðdómseikin fríða –
óður lífs og lýða! –

Vættir duna, vaknar Hind,
varpar foldin mæði,
svífur frán að flæði
dísin Saga, svans í mynd,

sópar fjöllin bæði.
„Við þig, Helgi, heill ég bind."
Huld svo frá ég kvæði, –
gakk þú heill frá græði!"

---

## II. EYJAFJÖRÐUR.

Lag: Hátíð öllum hærri stund er sú

Hlusta, hlusta, heilög fósturjörð;
haldið anda loft og vindar svalir;
sól í heiði, signdu Eyjafjörð;
sofi bára, þegi strönd og dalir!
Lofi Drottin fold og himinn hár;
hef þú maður gleðiklökkar brár;
Guð er þinn í gegnum bros og tár;
Guð er Guð í þúsund-þúsund ár –
í þúsund ár!

Hef þig andi, horf á þessi fjöll,
há og stór sem fyrir þúsund árum;
lít þú yfir liljum gróinn völl,
ljómar hann ei enn af vonar tárum?
Ekkert glatast utan fals og lygð,
alt hið góða sigrar böl og hrygð;
enn þá lifir Eyjafjarðar bygð;
enn er hreystin hreysti, dygðin dygð —
og dygðin dygð!

Feðra' og mæðra minnist hjörtu klökk –
minningin er forðabúr hins sanna.
Tíu alda hljómi hjartans þökk,
heiðursfylking vorra beztu manna!
Hafðu þökk, er harða ruddir leið;
hafðu þökk, er fastur stóðst í neyð;
hafðu þökk, er hljópst með sæmd þitt skeið;
hafðu þökk, er söngst í miðjum deyð –
í miðjum deyð!

Fósturbygð, sem enn þá glóir ung
undan köldum þúsund ára vetri,
allvel berðu æfisporin þung,
enn þá ertu flestum sveitum betri.
Sælli framtíð fagna skaltu nú
fyrir alt sem liðið hefir þú!
gegnum tímann bygð er laga-brú
beint til sigurs – hjálpi dáð og trú –
og dáð og trú.

Duna himinn, dalir, fjöll og sær
dýrðarundur nýrri þúsund ára!
Frelsið sanna færist óðum nær,
fjarar stórum hafið blóðs og tára.
Lofi Drottin fold og himinn hár;
hef þú maður gleðiklökkvar brár;
Guð er þinn í gegnum bros og tár,
Guð er Guð í þúsund-þúsund ár –
í þúsund ár!

### III. MINNI KONUNGS.

Lag: Við Eyjafjörð, við Ægeifs forna haf.

Við Eyjafjörð, við íssins klakarönd,
grær enn þitt blóm á hlýjum munarvegi
og enn vér réttum varma vinarhönd,
ó, vísir kær, á þessum minnisdegi.

Vér sjáum þig, þó sé þín ásýnd fjær,
vér sjáum þig í trú á betri daga,
og hyllum þig, vor hilmir dýr og kær,
þig hyllir nýfædd þúsund ára saga.

Þú aldni hái hollvin þessa lands,
þitt hjarta jafnan bauð oss frið og mildi,
vor hjartans þökk sé hnýtt í mæran krans,
um heiti þitt á lands vors frelsiskildi.

---

### VI. MINNI EYJAFJARÐAR.

Lag: Svo fjær mér á vori.

Svo margs er að minnast, þú himinn Guðs hár,
vér horfum í dag yfir þúshundruð ár!
Ó, sveit vor, hin sviphýra, bjarta,
svo friðsæl og hlý við hin frostköldu höf,
ó, framtíðar vagga hjá tímanna gröf!
Nú hitnar vort angurblítt hjarta.

Hve þúsund margt gleymist, ó, þúshundruð ár!
En þúsund margt geymist unz röðullinn hár

það lífgar um ljómandi morgna.
Þú deyrð ei, þú kemur frá draumanna reit,
þú dáðríka kynslóð, er namst þessa sveit,
með lifanda fjörhugann forna!

Hve margt hefur kætt, ó hve margt hefur grætt!
um margt hefir reynslan í þúsund ár frætt
og neytt þig, ó lýður, að læra.
Þín fávizka vakti þér fjölda-mörg tár,
þín fávizka hjó þér hin skæðustu sár,
og þó skal þér þakklæti færa.

Þitt stríð hefir kent oss að standast það vel,
er sterkustu köppum jók þrautir og hel;
hver villa þín veginn oss kendi.
En jafnframt vér minnumst, að listin er löng,
en lífið svo fljótt, og svo torveld og ströng
vor farleið und forlaga hendi.

Ó, feður og mæður, nú helgum vér heit,
að hefja með samhug þá kynstóru sveit,
þar menning og minning vor lifir.
Kom drengskapar, vísdóms og dáðrekkis-öld;
Far dvínandi sundrung og fávizku gjöld!
Það heyri þú himinn oss yfir!

## VII. FORNMANNA-MINNI EYFIRÐINGA.

Lag: Kung Karl.

Vor sterka, frjálsa, forna,
vor fræga sögu þjóð,
þú kant oss en að orna
og yngja hvers manns blóð!
þótt eldist allar sögur
og alda streymi sær,
þín frægð er ung og fögur,
sem fæddist hún í gær.

Og fjörður þessi fríði
í fornöld kappa ól,
er skreyta land og lýði
sem ljómi vordags sól,
þá hræddist lævís lýgi
er ljónið reis úr kró,
og Glúmur vanur vígi
hann Vítazgjafa sló.

Þá sungu sverð af magni
við Svold og Hjörungsvog,
mót voðasnörum Vagni
bar Vigfús hnikars log;
og reginskáldið rama
úr ríkum Svarfaðsdal,
sér græddi firna frama
er fræðin þuldi' í sal.

Í kyrð sem branda braki,
hér bjó þá stórfeld þjóð.
Þinn orðstír, Einar spaki,
skal aldrei vanta ljóð;
Og Ketill[1] prestur kunni
þá kristnu tignarment,
er grimma svæfa gunni
hann goðum lands fékk kent.

Þú móðir mestu sona,
þín minnumst vér í dag;
þér forna kynlandskona,
skal kveðið sama lag.
Svo beygjum, systur, bræður,
með bljúgri lundu kné:
þér, feður mæru' og mæður,
það minning yðar sé!

---

1) Ketill Þorsteinsson, er síðar varð biskup, leiddi fyrstur til sætta þá Hafliða Márssön og Þorgils Oddsson 1120 með merkilegum fortölum.

# FERÐAVÍSUR.

**Úr skemtiferð um Þingeyjarsýslu [sbr. „Lýð“ 1888].**

---

## I. KELDUHVERFI.

Sæl í sumargerfi,
signuð fósturjörð,
þar sem Kelduhverfi
krýnir Axarfjörð!
Hvar er hraun og klungur,
hvar er ís og hjarn?
Nú er ég nýr og ungur,
nú er ég Íslands barn!

Hér er holt að anda,
hér er frítt að sjá,
hlær til beggja handa
heiðin skóga blá!
angar birkibaðmur,
brosa túnin hlý,
myndar fjallafaðmur
fram að hafi kví.

---

## II. ÁSBYRGI.

Hvað er hér að líta?
hef ég aldrei fyr,
feðrafoldin hvíta,
fundið slíkar dyr!
Hafa Sigtýs sigið
salar máttug gólf?
sjáum veldisvígið:
Valhöll ása tólf!

Eða undirheimur?
á hann þennan sal?
Eru álfa geimar
inn í þessum dal?

Miklar vísdómsvættir
virkið hafa bygt.
Ríðum goða-gættir,
gott mun alt og trygt.

Heill þér, borgin bjarta,
Byrgi kent við Ás!
Hrifið slær mitt hjarta,
Hulda ljúf og svás!
Létt sem lauf í vindi
líður stundin sæt,
alt mitt horfið yndi
út hjá þér ég græt.

Mikli skemtiskáli,
skrautlegt er að sjá:
eins og steypt úr stáli
standa björgin há,
breiðir lystilundur
limið móti sól;
alskyns blómstra undur
á hér friðarskjól.

Dýri sumardalur,
dýrðleg þigðu ljóð;
svari fjallasalur,
syngi dvergahljóð!
Lifðu sælt í ljóði,
ljúfa bjarkaskjól:
Upp, og vígjum óði
Íslands Kapitól!

---

III. JÖKULSÁ.

Gegnum gljúfurheiðar
geisar Jökulsá;
hækka brekkur breiðar,
breikkar ferleg gjá.
Teygjast trjónur grettar,
tröllin standa þykt.
Hermið Hljóðaklettar:
hver hefur þetta bygt?

Norður sér til Núpa,
nyrzt við Sléttubygð,
austur, dali djúpa,
dimmblá fellin skygð;
suður sést til jökla,
silfurhjálmað tröll,
vestur hefja hökla
hraunótt Mývatnsfjöll.

Sé ég svala geyma:
Sæl þú Herðubreið!
Yfir eyðiheima
enginn vísar leið;
burt er blómstur, víðir,
búið lækja val;
lækka lundar fríðir
langt frá Svínadal.

Sé ég fyrsta sinni
svalan risavöll:
Festist mér í minni,
minnisstæðu Fjöll!
Hér hefir Grettir gengið,
glímt við fár og nótt,
og Fjalla-skáldið[1] fengið
fornan bragarþrótt.

1) ɔ: Kristján skáld Jónsson. Stöku setning er vikið við frá því sem prentað var í „Lýð“. — Höf.

Hér hafa björgin brunnið,
bylt um allri slóð,
rauðar elfur runnið,
rignt í myrkri glóð,
náhljóð sungið neðan
norna ferleg skjól,
horfið hrædd á meðan
himintungl og sól.

Nú er blásvöl blíða
breidd um þennan geim.
Ó, að engin stríða
ógni framar þeim!
Og ef síðsta sinni
svíf ég þessa leið,
geymdu gest í minni,
gamla Herðubreið!

---

## IV. DETTIFOSS.

Beint af hengilbergi
byltast geysiföll,
flyksufax með ergi
fossa- hristir -tröll;
hendist hádunandi
hamslaus iðu-feikn.
Undrast þig minn andi,
almættisins teikn!

Geisa, fossinn forni,
findu loks þitt haf,
þó ei tárin þorni
þarftu' ei betra traf!
Þó af þínum skalla
þessi dynji sjár,
finst mér meir, ef falla
fáein ungbarns tár.

Skjálfa fjallsins fætur,
flýr alt veikt og kvikt;
tröllið, trú' eg, grætur,
tárin falla þykt!
Fimbulgröf sér grefur
gýgur römm og djúp,
öldnum Ægi vefur
örlaga sinna hjúp.

Hert þig, Heljar-bleikur,
hræða skalt' ei mig:
guðdómsgeislinn leikur
gegnum sjálfan þig.
Fagri friðarbogi
feldu storm og bál!
Lýstu, sólarlogi,
lyftu minni sál!

---

## BISMARK.

(1899).

---

Nōtrar vinda nornin rōm,
Niflheims spáir falli,
legst ei gott í gamla hōm —
gengið er Bismark karli.

Allir dagar eiga kvōld
undir tímans merki,
kveður nú sín víga-vōld
voða-jarlinn sterki.

Ógnar bákn í orra gný
ægði lengi foldu,
jōrðin skalf, en járn og b
jafnaði flest við moldu.

Járni varði járnuð vōld
„járn“ í stjórnar glammi,
járni' og stáli jafnaði' ōld
járnkanslarinn rammi.

Lítur ōldin unga til
ímunleiks með glotti
og á Hrúgnis hroðaspil
horfir nú með spotti.

Þrumir skalli þegi frýnn
þúsund yfir haugum
gneypur mjög og gnapa brýnn,
geispar í móti draugum.

Yfirlítur æfileik
ofinn heiftarblóði,
heyrir nærri Heljarbleik
hneggja' í jötunmóði:

Dybböl syngur Dana morð,
dynur í Bæheims fjöllum;
bautasteinar bana-orð
belja' á Sedans völlum.

Fyr en stígur blakki' á bak
búast hygst í tómi,
trúir enn á blóð og brak,
bundinn Heljar dómi. —

Blindu valda börn og fól,
brott með styrjar-æði!
Flýt þér, bleika böðvarsól,
bak við hrannarflæði!

---

## BÓLU-HJÁLMAR.

Bólu-Hjálmar Braga ættar
birti rússneskt aldarfar:
skólasálma sundurtættrar,
sálar hússgangs prísundar!

Bólu-Hjálmars hyggjan forna
hataði tímans flærðar spaug,
hjólin tálma nepju-norna
nuddaði hroll í hverja taug.

Bólu-Hjálmar baldinn risti
blóðgar rúnir heimskum lýð;
ól úr málmi hnýtta hristi
hjartalausri nirfils-tíð.

Bólu-Hjálmar virða vilti
vesaldóms við kalda brík;
sólarmálmur Guðs þó gylti
göfga sál í þrældóms flík.

Bólu-Hjálmar bjó í skugga,
böls og gremju kveljur saup;
skjól í hálmi, skarn og frugga
skáldmæringur fékk í kaup.

Bólu-Hjálmars beiskja lengi
birti, þrumi refsimál,

góli, jálmi, meðan mengi
myrðir slíka kraftasál!

Bólu-Hjálmars leiðið lága
liggur falið vetrar snjó;
sólar pálma heiðið háa
hörpuna geymir. Sof í ró!

---

## SKAGAFJÖRÐUR.
(1890.)

Skín við sólu Skagafjörður,
skrauti búinn, fagurgjörður:
Bragi, ljóðalagavörður,
ljá mér orku, snild og skjól!
Kenn mér andans óró stilla;
ótal sjónir ginna, villa,
dilla, blinda, töfra, trylla,
truflar augað máttug sól.
Hvar skal byrja? hvar skal standa?
hátt til fjalla? lágt til stranda?
Bragi leysir brátt úr vanda,
bendir mér á Tindastól!

Lengst í fjarska sindra svalir:
sælir, fornu landnámsdalir,

Eiríks[1] göfgu goðasalir,
gamla, hlýja kostabygð!
Þar í hýru höfuðbóli
hersir sat á friðarstóli,
blektur tímans hvika hjóli,
hof sitt vígði sátt og dygð;
frægur varð í fornum sögum,
festi grið með stiltum lögum,
auðnuríkur æfidögum,
undi svo við spekt og trygð.

Mælihnúkur himinhái,
héraðs-jöfur fagurblái,
er ei, sem mín augu sjái
alt, sem blasti móti þér:
fjörðinn, vötnin, Hólmann, hlíðar,
hamra, tún og elfur stríðar,
vetrargljár og grundir fríðar,
gullna svani, hrafnager,
förukonur, hrausta hali,
helgar kirkjur, blóðga vali.
bjartar meyjar, brúðarsali,
brennuvarga grimman her?

Heill þér, gamli Glóðafeykir!
gleðstu nú, er stíga reykir,

---

1) Eiríkur í Goðdölum.

friðarmildir, bláir, bleikir
beint í loft um sumarstund.
Manstu Sturlusona sennu?
sífelt dráp og morð í rennu,
Flugumýrar fólskubrennu,[1]
fölvan jarl með heift í lund?
Sástú Odd[2] hinn vaska veginn?
veikan biskup[3] hrakinn, dreginn?
blóð og ófrið öllu megin —
Örlýgsstaði,[4] Haugsnessfund?[5]

Saga lands á breiðum blöðum
blasir hér við sjónum glöðum
ung og forn á öllum stöðum
út og fram um héraðs-reit:
Reynistaður rausnardýri,
ríki Glaumbær, Víðimýri,
fákum kunni Hólmur hýri
Hlíðarbygð og Tungusveit.

---

1) Þar brann inni hálfur 3. tugur manna, þ. á. m. Gró kona Gizurar Þorvaldssonar og allir þrír synir þeirra, 1253.

2) c: Oddur Þórarinsson, kappinn, féll fyrir þeim Hrafni Oddssyni og Eyúlfi ofsa 1255 í Geldingaholti.

3) c: Guðmundur góði.

4) Þar féllu Sighvatur Sturluson og synir hans fjórir 1238.

5) Þar stóð 1244 mesti bardagi á Íslandi; þar feldi Þórður kakali Brand Kolbeinsson, en nær hálfu öðru hundraði manna létust á Haugsnesi.

Hver einn bær á sína sögu,
sigurljóð og raunabögu,
tíminn langa dregur drögu
dauða' og lífs, sem enginn veit!

Sé ég Höfða bygðir breiðar,
Borgarsand, þar Kráku-Hreiðar
hét á Þór til lands og leiðar,
lending tók við Hegra barð.
Enn þá lengra augun líða
yfir mörkin rúms og tíða:
sögugyðjan seinni lýða
settu mark við Bjarnar Skarð.[1]
Og þar gegnt er annað merki:
afrekskappinn sálarsterki,
aldrei deyr þinn andans verki:
Espólín, ég sé þinn garð!

Ó, þér mörgu alda hlynir,
Ásbirningar, Hjaltasynir![2]
hvern skal nefna, hróðrarvinir?
hvar skal byrja? nær skal hætt?
Þar bjó hreysti, þar bjó fræði,
þarna vonzka, hérna gæði:
Hrólfur sterki, kom í kvæði;

1) Björn á Skarðsá, sagnfræðingur mestur á 17. öld.

2) Ásbirningar hétu höfðingjar Skagfirðinga á 12. og 13 öld. Hjaltasynir eru kunnir af Landnámu.

Konráðs, Skúla, Péturs ætt![1]
Sigurðs[2] einnig sæmd skal rista;
síðast tel ég þó hinn fyrsta:
Albert[3], jöfur allra lista,
er ei þarna kyn þitt fætt?

Heill þér, Drangey, djúpt und fótum,
dunar þér frá hjartarótum
harður gnýr af heiftar-spjótum,
hér var það, sem Grettir bjó.
Örlög kappans æfi-slóðar
eru myndir vorrar þjóðar,
heiftum slungnar hreystifróðar,
hamingjulitlar, frægar þó.
Og með Grettis alla daga
Illuga skal hljóma saga,
enginn fegri óð má laga,
en er dauðann kaus og hló!

Stendur ógn af augum fránum
enn þar Grettir verst á knjánum,
hlutar mann með hjaltaljánum,
Helju seldur meðan lá;
átta maki enn í dauða,
eftir kynstur sárra nauða

---

1) Konráð Gíslason prófessor, Skúli landfógeti og Pétur biskup og hans ættmenn.

2) Sigurður málari.

3) Albert Thorvaldsen. Hrólfur sterki sýslumaður lifði á 17. öld.

æfidagsins dapurrauða,
drauginn Glám og voðaspá;
saxi heldur heljartaki,
heggur dauðan níðings maki. –
Frægðin enn með beinu baki
bræðra vígi starir frá. –

Þaðan frá til friðarskjóla:
forni mikli staður Hóla!
Þar sem stoltan stól og skóla
stofna lét hinn helgi Jón.
Þá var snilli, þá var prýði,
þegar söng hinn íturfríði,
kendi norðurlandsins lýði
litaníu' og hymnatón –
gnæfði há með helgum dómi
höfuðkirkjan landsins sómi;
dýrð og yndi einum rómi
endurkvað um loft og frón.

Ekkja stendur, aldin kirkja,
ein á túni fornra virkja,
hver vill syngja, hver vill yill yrkja,
Hóladýrð, þinn erfisöng?
skoðag raðir skörunganna,
skín á mítrin biskupanna,
„haleluja — hósíanna!"
hljómi fyllir kirkjugöng.
Hver er instur ellihvítur?

aldinn Guðbrand sál mín lítur.
Arason með ægimítur
yztur hringir Líkaböng!

Ó, þú breyting auðnutíða,
ó, þú draumur veikra lýða,
ó, þú tímans elfan stríða,
ógnarmyndir, líf og hel!
Hvar eru verkin höfðingjanna,
húsin sterku meistaranna,
listamerkin lærdóms-anna
lofað eins og fagra-hvel?
Hvað skal harma? hvað skal ræða?
Hvað er skamtur lífsins gæða?
Flestra líf er fánýt mæða:
fornu Hólar, lifið vel!

Kveð ég fagra fjörðinn Skaga,
farðu vel um alla daga;
blessuð sé þín bygð og saga,
bæir, kot og höfuðból!
Heyr mig, göfgi, glaði lýður,
gæt þess vel sem mest á ríður:
meðan tíminn tæpi líður,
trúðu þeim er skapti sól!
Þá skal sólin sælu' og friðar,
sú er löngum gekk til viðar,
fegra bygðir fagrar yðar,
fóðra gulli Tindastól!

## TIL PÉTURS BISKUPS PÉTURSSONAR

Á 80 ÁRA AFMÆLI HANS.

[Orkt eftir gamalli sögu].

---

Á móðurskauti sjúkur sonur lá
er sólin rann og horfði ljórann á,

Og signdi snótar sorgartárin skær,
hún sá það ei, en starði' á perlur tvær.

Hún sá þar brotna bárur fjörs og hels
með blysi lífs og draumi fagrahvels.

„Þú lífs míns Guð, ég lyfti sál til þín,
ó, lát ei deyja þessi blysin mín.“

Og rétt í sama rekkur stóð hjá henni,
rammlega vaxinn, höndu strauk um enni.

Þau stóðu bæði. Sorgarhelga sjón!
Ei sáust víða skörulegri hjón.

En kaldur sveiti kom á sveinsins brá
og kyr á brjósti höndin smáa lá.

Þá mælti svanni sorgarekka lostin:
„æ, sjáðu augun brostin — því nær brostin“.

En bliki andans brá á mannsins hvarm;
hann brosti rótt og mælti: „Still þinn harm.

Und Drottins hönd vér eigum oss að beygja;
en ekki munu biskupsaugun deyja."

Minn góði biskup, þú ert þessi sveinn,
við þessa frásögn kannast margur einn.

Svo mildilega móðursorgin bættist,
svo merkilega föðurspáin rættist.

Með stiltri hógværð, styrk og elju stakri,
þú stríddir hálfa öld á Drottins akri.

Við sæld og þraut, við sorg og eftirlæti
með sæmd og æru fyltir þú þitt sæti.

Nú veiti, sá er gefur náðargjöld,
þér, góði biskup, fagurt æfikvöld.

Og þegar síðast sól á fjöll þér skin
og síga taka stiltu ljósin þin:

Í föður þíns trú þú æðra ljós munt eygja,
því „ekki munu biskups augun deyja".

---

## TIL TRYGGVA GUNNARSSONAR.

]1889].

Yfir kalda Íslands dröfn
alvalds höndin dyggva
leiði beint í hlýja höfn
hreystimanninn Tryggva.

Láttu ekki storm og stríð
sturla neitt þitt hjarta,
hugsa þú um land og lýð
og lofa þeim að narta.

Meðan sigla vetrarver
vaskir menn á gnoðum
fleirum munu fylgja' en þér
fyrirsát af boðum.

Leys því kátur bárubjörn,
beztu drengja jafni.
Gamla Péturs[1] ungi örn,
út í Drottins nafni!

---

1) ɔ: **Gránu-Petersen. Hann þótti þrautseigastur í förum. Þegar hafísar voru við land.**

## TIL SAMA.

þegar brúnni á Ölfusá var lokið.

„Gekk á gljúfrið dökka
gein veltiflug steina“,
greitt er grimma sótti
Grettir forðum kettu,
En gildara galdri
Gunnarsson hefur unnið
Hrönn, og Hrúgnis innu
hryggspent. Lifi Tryggvi!

---

## TIL ÁSGEIRS BLÖNDALS, 1886.

Þú biður mig, vinur, um vísu
og vísuna sendi ég nú.
En ég er þó hættur að yrkja
í embættis nafni og -trú.

Ég hef sungið fjölda af sálmum,
en söngröddin var ekki hrein;
nú forðast ég falskar nótur
um framliðins vinar bein.

Við höfum hvern handraða troðinn
já, hús og útibú full,

af arfgengnu andans „torfi“,
sem er ei, en selst eins og gull.

Sem prestur ég á af því poka,
sem póeti, fullan skáp, –
það gull eiga læknarnir líka,
og lofa sinn Æskuláp.

Af alskonar óláns-arfi
er auður á hverjum bæ,
af arfi, sem tímgast sem arfi
og etur hin beztu fræ.

Guð náði' okkur póeta' og presta
með pokann og bjöllu-hatt,
og breyti' okkur heldur í hesta,
sem hneggja' ekki neitt nema satt.

---

Nú hef ég svarið að segja satt
og sendi af hendi minn bjöllu-hatt.

Því er ég séður og senn farinn heim
og safna ekki framar auði og seim,

og lána ekki neins manns lit eða skraut
þá legg ég á stað hina dimmu braut.

---

Í eymd og sorg, þegar ástvinir deyja,
er einna bezt með Davíð að þegja.

Við tækifæri sem það hjá þér
eitt þegjandi tár mitt kvæði er.

Þú hefir nærri þér sannan söng
um sorg og stríð við vötnin ströng.

Stormur og sjór og stórvatna flug
stilli þér ekka, kyrri þinn hug!

Ég veit ei betri í sorgum söng
en Zíons ljóð við vötnin ströng.

Í dúr þau túlka vort dauða stríð,
en dilla í moll þegar léttir hríð.

Þú harpa Guðs, þú heilaga mál,
helga vort stríð og lyft vorri sál!

---

„Sofðu sætt, mín blíða,
sorgin var svo löng,
hvíldu hjartað þýða
hér við vötnin ströng.

„Lengsta nótt skal líða,
linast þraut við söng,

hart þú hlauzt að stríða
hér við vötnin ströng.

„Hægist hugarkvíða
helgau Guðs við söng,
hún er hætt að stríða
hér við vötnin ströng.

„Vært þér verði, blíða,
vakna glöð við söng.
Lengsta nótt skal líða
loks við vötnin ströng."

---

## TIL B. Á. LAXDALS,

7. júní 1891.

---

Nú er búið, Bernharð kæri,
bernsku þinnar skeið;
náðarhönd þig flytji 'og færi
fram á þroskans leið.

Brekkan vex og brautin hækkar,
brosir grund og tún,
sveitin rís og sjónin stækkar,
sólin gyllir brún.

Lífið hlær og lofar fögru;
lát þér skiljast þó:

lukkan skamtar líka mögru,
líttu' á alt með ró.

Vertu snemma hennar herra,
hlauptu' ei eftir lit,
hafðu þrent, sem heimtar snerra:
hóf og táp og vit.

Lífið alt er ofið lögum,
ekki stoðar tál;
blessun öll með breyttum högum
býr í vorri sál.

Tak nú arf þinn, ungi maður:
æru' og manndóms lund;
kvíð þú eigi, gríp þú glaður
góðan staf í mund:

Trúðu' á sigur sannleiksljóða,
sólar gegnum hvel;
trúðu' á alt hið göfga, góða
gegnum líf og hel.

Höfðingsföður hreystivilja
hafðu fyrir stál;
móðurhjartans hvíta lilja
helgi þína sál!

Einkabarn og arfi tveggja,
eflist höfuð þitt:

Drottinn yfir blessan beggja
breiði nafnið sitt!

---

## TIL EKKJU SÉRA STEFÁNS THORARENSENS.

Slá tóninn djúpt, svo ómi húsið hreina
og hjartað svari: Tómleiksstundu þessa
þú þektir oft, á meðan framfór messa,
og ljúfurinn þinn lét þig eftir eina.

Slá vonartóninn, hugann láttu hressa,
það hymnalag, sem nær til instu meina.
Nú hallast sól að sölum öldureima:
Guðs söfnuð er nú vinur þinn að blessa.

Slá trúartóninn, líftón allra lýða,
þá lýsir stjarna, hverri sólu skærri,
á meðan nóttin nöpur er að líða.

Slá elskutóninn, djúpa, himnum hærri,
sem helið vorrar jarðar á að þíða:
og þá er ávalt einkavin þinn nærri.

---

## ÞINN SONUR LIFIR.

(TIL SÉRA VALDIMARS BRIEMS.)

„„Þinn sonur lifir““, sagði Jesús forðum.“
Svo söngstu fyrri, kæri vinur minn,
og með þeim dýru Drottins líknarorðum,
þó deyi margur, lifir andi þinn,
já, lifir, svellur, svífur yfir foldu
með sigurkrafti, meðan geisar stríð;
en hvað þá h a n n, sem hafinn yfir moldu
á hvergi skylt við dauða, rúm né tíð?

Þín göfga harpa fanst mér aldrei fegri
né fyllri helgri andans gift en nú,
er góða soninn gulli vegsamlegri
með Guði vígðu tári kveður þú.
Svo reyndi Drottinn Davíð konung forðum,
er dauðans engill tók hans ástarjóð,
en gæddi' hann sínum guðdóms kraftar orðum,
sem gjörðu Ísrael heimsins mestu þjóð.

Þinn sonur lifir! Synir þínir lifa
í söng — í söng um Drottins vald og náð;
á meðan helgir munarstrengir bifa
og málið skilst, þig blessar þetta láð.
Og hvar sem ljósið lýsir grafir yfir
og lífsins orðið stillir mannleg tár,
mun landið óma: „Son þinn lifir — lifir!“
Því lífið á ei skylt við fáein ár!

## TIL FRÚ FRÍÐU SHARPE Í CHICAGO, 1892

**(þá er hún sendi mér bréf og kvæði).**

---

Ég sé þig, barn, með bjarta lokka
á bak við langa tímans hrönn,
með augu blá og yndisþokka,
vor ættlands dóttir hrein og sönn!

Ei kyssir sól og sumarandi
á sumardegi kalda grund
svo yndislega upplífgandi,
sem orð þín, svanni, mína lund.

Og aldrei fósturfold þín teigar
er fyrsti morgungeislinn skín
eins glatt og lystugt ljóssins veigar
og ljóðin yðar sálin mín.

Ég fann þar líf sem fjöri gæddi,
ég fann þar yl, sem vermdi mig,
ég fann þar auð, sem gulli glæddi
minn grýtta, svala vetrarstig.

Ég fann þar mína fornu drauma
hinn fagurhvelfda dísarsal
og unaðsskæra Edens strauma
í æsku minnar sumardal.

Þú ert af segulbergi brotin,
frá bragningum er kyns þíns rót,
og því er guðvefsgulli skotin
þín göfga sál, mín bjarta snót.

Ég syng ei hér um Sjafnar funa,
en satt er enn – ég votta það –:
um eilífð dregur mannsins muna
hin milda snót, sem Goethe kvað.

Ó, þigðu, mær, í þessu stefi
frá þinnar móður aringlóð
eitt guðlegt skar, sem geymt ég hefi
og gaf hún mér í bróðurlóð!

Og blessi Guð þig, svási svanni,
með systra þinna dýrum krans
með föður, bróður, frændum, manni,
í frægð og dýrð hins nýja lands!

---

## TIL FRU G. MACKINNON

**(fyrsta sumardag 1895).**

---

Þú kalda landsins liljurós,
því leggur þú á braut?
sem dugi þér ei dagsins ljós
við dýrrar móður skaut.

Nú mælir hún og horfir hljóð
á Hrannar svalan veg:
„Ó, mætti Bretans blómsturslóð
þér betri verða' en ég!

„Því ég er fátæk, forn og köld
af frosti norðurgeims
og þekki hvorki veg né völd
né varma suðurheims.
En blómann þinn, mín blíða mær,
við brjóstin mín ég ól,
og hlýrri barm ei hafa þær,
sem hrósa meiri sól.

„Sem brosir þér hin bjarta grund.
Þar Burns[1] hinn fríði söng,
svo enn má heyra hjúfra lund
og hvísla skógargöng;
þar kveður Scott sín fræðin fróð[1]
um frægðarstóra tíð,
um riddaraskap og lofnarljóð
og listasprundin blíð.

„Í nafni Guðs þar gakk á strönd
í góðri von og trú,
að ný og fegri fósturlönd
þar finna megir þú,

---

1) Skáldin Robert Burns og Walter Scott.

er heilsa þér hin frægu fell
og fagurmynduð torg,
en glóir eins og gull og pell
hin glæsta Edinborg.

„Öll gleði blessi brjóstið þitt
og blóm þín skreyti spor,
svo dreymi þig þú hafir hitt
og hlotið sífelt vor.
En gæt þín samt, þú góða barn,
þig glepji' ei villuraust:
þar getur líka legið hjarn
og lífið breyzt í haust.

„Hið eina blóm, sem aldrei deyr,
þó öll oss blekki vor,
er hjartans-rós, ef hjá oss þreyr
um hverful æfispor.
hið góða' og fagra' í göfgri sál
oss grær í frosti kífs,
og syngur æ um sumarmál
og sigur betra lífs.

„Og þetta frækorn fer þú með
frá fóstru þinnar knjám,
og þá ég híg að Hrannar beð
og hylst í ægi blám,
þá seg þú: Ljúfa móðir mín,
ég muna skal þá rós,

sem drakk af blíðum brjóstum þín
sitt bezta gleðiljós!"

---

## MEÐ GULLPENINGI TIL GÁFAÐRAR STÚLKU.

Á afmælisdegi hennar.

---

Gull sendag—
emk gullskati—
gullhlaðsgná
með gullstefi.
Gæfugull
þinn gullaldr
ok gullsálu
gulli krýni!

Gefi þér glómjöll
göfuglyndis
vetr hverr milli
vors ok hausts;
en sumur öll,
svanni, þína
Rínar sunnu
sálu skreyti.

Vermi æ
vcr þíns anda
Freyju-tár
ok Fafnis arfr,
Fróða-fræ
ok Fýrisvalla,
glóð ok gim
Gautreks brautar.

Ok salnæfrar
Sviðris hallar,
Sifjar hár
ok Suttungs birti,
hjarta þíns
helgikrafta
blessi fullum
brúðarmundi!

Gömul ok ung
vér gull eigum,
sálargull.
Þótt séim snauð,

ef andi vor
á ok hirðir
vermireit
vits ok gæzku.

Svá kvað hinn nefstóri
naðelds boði
„með grunlaust
grepps um æði";
þeims æ mun
meðan öld varir
ljóða lén
laust í hendi.

---

## SUMARVÍSUR TIL UNGFRÚ M. ST.

Nú kveður gamli Kári
sinn kalda vetrar-stól;
í garð með gullnu hári
nú gengur drotning Sól.
Frá hlýjum himin-sölum
nú hlær hin svása dís
og breytir bleikum dölum
í bjarta Paradís.

Því komum, vinan væna,
á vorsins fyrstu stund,
á hýra hólinn græna
og horfum yfir grund,
og syngjum: „Sæla drotning,
þó sjónin þreytist mín,
ég lít með ást og lotning,
hve ljómar ásjón þín.

Svo oft sem geislar glæðast
á gæzku þinnar brá,
úr reifum rósir fæðast
og rísa dauðum frá.
Þú hreifir hörpu bjarta:
við hvern þinn minsta tón,
til hæða lyftist hjarta,
sem helið batt við frón.

Þú ert svo heit, að hitar
hvert hjarn, sem nístir fold,
svo björt, að ljósi litar
hvern legg, sem rís úr mold;
svo góð, að ísinn grætur,
svo glöð, að veðrið hlær,
svo helg, að hörfa nætur,
en hlustar jörð og sær!« —

Svo syngjum við, mín væna,
á vorsins morgunstund
og skoðum skrúðann græna,
er skreytir kalda grund.
Sjá, hvorki' er dautt né dofið
hið dýra fyrirvaf,
það lín er ljósi ofið,
en lífið Drottinn gaf!

Nú kemur fjöldinn fleygi
með fjaðrablik og söng,

hann finnur forna vegi
um fold og Ránar göng.
Heyr þrasta-ljóð í lundi,
og lóukvak í hlíð,
og svanahljóm á sundi, —
hve sæl er vorsins tíð!

Hve gott á alt hið unga,
sem unir vorsins hag,
og þekkti' ei haustsins þunga
og þreytulega brag.
Hve gott átt þú, hið glaða
og gullna meyjar-blóm,
sem mátt í blíðu baða
þinn bernsku helgidóm!

Mitt vor er löngu liðið,
ó ljúfa, kæra barn,
og nærri svalasviðið
með sút og vetrarhjarn. —
Þú fugl með létta lundu,
sem leitar burt í haust,
að vori mey þá mundu,
þó mín sé dáin raust!

Og syng þá sætt, er finnist,
um sumardagsins ljós,
og ljóða minna minnist
og miklið Drottins hrós!

Því hér í hverju spori
má hitta lífsins göng,
er vonin hlær á vori
í vígðum hjartasöng.

---

## GAMAN OG ALVARA.

### TIL H. H.

Ertu' að hugsa? ertu' að skrifa
undir það þú ferð að lifa?
ertu' að melta andans sáld,
bundinn jötun-ástar armi
áður en hefir lífs frá barmi
arnsúg þinn sem Óðinn skáld?

Lifðu, njóttu, leiktu, kystu,
ljúktu, þráðu, sveltu, þyrstu,
findu aðeins andans brunn.
Annars langt frá ljóssins geimi
lendir þú í Jötunheimi —
eins og birtir Edda kunn.

Heyrðu, kæri, horski, góði,
H . . . . ., gegndu mér í óði
þú, sem átt mitt tungutak.
Sástu' ei yndið augna minna

ástarstjörnu drauma þinna,
brúði lífsins? — Bið og vak.

Hennar orð í máli móður
minnar býr og heitir óður,
hennar mál er málsins sál,
hennar andi, ilmur rósa,
augað brunnur gleðiljósa,
sem mér bættu böl og tár.

Oft ég hefi' í hörmum mínum
hrópað: „Kom með sætleik þínum,
birztu mér í minni neyð!"
Og hún kom — sem hreimur, hending
hræring, lyfting, næring, bending
fróun, svölun, ljós á leið.

Harmi tryltur hefi' ég gengið
hólminn á og sigur fengið,
glímt við Byron Bretatröll;
og í fullum ofurhuga,
eins og ljóni hunangsfluga,
Shakespeare hefi' ég haslað völl!

„Fyrst er minna frægðar-happa,
feldi ég hinn mesta kappa",
Hákon sagði', „á Svíaslóð;"
ungur brá ég Íslands tungu,
íturhvellar þar er sungu
sænskar raddir sverðaljóð.

„Aldrei hefi' ég," Héðinn mælti,
„hjörvi brugðið svo hinn stælti
eigi drykki brandur blóð."
Hvenær brá ég bæsing andans
beint á móti grýlu fjandans
að ei kvæði kraftaljóð?

Það var hún, sú himinbjarta,
hún sem býr í skáldsins hjarta,
sem mér veitti þrótt og þor, —
hún sem býr í Hallgríms máli,
hló í Sonatorreks stáli,
skapar unað, afl og vor.

Ei í prjáli, auði, táli,
ástarbrjáli, gulli, stáli,
býr vor heilög bragardís;
nei: í skáldsins skörungsmáli,
skygðu sálarlogans báli,
himnaríki hún sér kýs!

Þegar stirðnar þessi tunga,
þigðu, taktu, skáldið unga,
arfleifð mína, óðs míns sverð!
Lát með slingum ljóðmæringum
laufann syngja' á vopnaþingum,
veita Sigtýs svönum verð.

---

Innan skamms er öll mín saga
orðin draumur fárra daga;
hvað er mér að hugsa' um heim? –
Jú, sú trú, að tárin sjatni;
trú míns lífs, að jörðin batni,
sættir mig við Guð og geim.

---

## TIL FRÚ VALGERÐAR ÞORSTEINSDÓTTUR.

Í brúðkaupi dóttur hennar 1898.

---

Móður svift og mætum föður,
manni svift, með barn á armi,
fimm og tuttugu fyrir árum
fátæk stóðstu, sjúk og grátin.

Sá var forðum hér í heimi
hagur þinn, vor kæra vina,
alt var húm og hvergi sástu
handaskil á björtum degi.

Út í húmið – heiminn kalda
hélztu þó með barn á armi,
signdir þig og sagðir róleg:
„Sjá, ég fer í Drottins nafni!“

Og sem forðum Ísraels lýður
eldstólpann á nóttu kendi

þóttist þú í þínu myrkri
þekkja Guð, sem fór á undan.

Þó var dýrð hans þoku hulin,
þó var sýnin lítil skíma,
svo þinn engill sagði' og brosti:
„Sannarlega' er trú þín mikil."

Nú það orð þín saga sannar,
sjónlaus voru' ei grátnu augun;
til er sól, þó syrti' í lofti,
sami Guð, þó enginn trúi.

Nú það orð þín saga sannar
sumarljós er enn á himni
götu farna sýnir, signir;
satt var orðið: Guð þig leiddi!

Fyrir plöntur fimm, sem áður
fölnuðu' upp á brjósti þínu,
færði Guð þér fullan akur,
fagran garð að yrkja' og vakta.

Fyrir móður, mann og föður
mæddri ekkju Drottinn veitti
vit og lán og vald og krafta
vel að stýra garði' og skóla.

Gegnum heiminn geislar stafa,
guðdómlegir huliðs kraftar
gegnum hjörtun, grjót og kletta –,
geislar — heita Drottins englar.

Þessir englar okkur leiða,
örfa, hugga, styrkja, fræða.
Þeirra bros – hve blítt þau skína
barna þíns, móðir, nú í augum!

Þú ert ein með einkadóttur,
ótal samt þig móður kalla
þeim, sem lengi ljós og fegurð
léðir þú í ríkum mæli.

Þetta bjarta barn þitt sýnir
blessun Drottins fyrirheita:
„Láni svift“ — það sagði' hinn spaki —
„sá ég hvergi barn hins góða.“

Drottinn blessi brúði góða,
brúði vinar míns hins dýra!
Drottinn blessi börnin þeirra –
barnabörn í þúsund liðu!

---

## HAUSTKVEÐJA, FYRSTA VETRARDAG 1897.

Til séra Jóns Bjarnasonar í Winnipeg.

---

Hausts á kveldi sígur sunna,
senn er eftir þumal-spönn;
óðum kólnar, bliknar, breytist
bæði loft og jörð og hrönn;
inn á hugans hundrað strengi
hreimar streyma, tóna slá
þá, er bráðu bankahruni
blómsins sumar hokri spá.

Lífs á kveldi sígur sunna,
sýnilega bregður lit;
vestur á feigðar furðuströndum
falinn móðu einn ég sit —
einn með slitna æfi-drauma
örlagabundinn leynivað;
mæðast taka andans augu,
eins og Byron forðum kvað.

Þú, sem fyr til furðustranda
fluttir ungur hrausta sál,
þú sem lífsins þrengri leiðir
þræða bjóst og flýa tál:
seg mér, hvar er hönd þín, hlýri,
heyrir þú minn vinar-róm?

hvar er ég, og hvar er leiðin?
hefirðu skilið lífsins dóm?

Situr þú mér sjálfur nærri
sveyptur þoku líkt og ég?
sérðu kanske sama brimið,
sömu hrjóstrin ægileg?
Gekk þér líka sama sólin
sama hringinn — þér sem mér? —
sama hringinn — sama hringinn
sannleikstýran mörgum fer.

Veit ég þú ert, vinur, nærri —
vötnin þagna, kyrrist þeyr —
er nú sem í rauða-rökkri
ræði' í næði vinir tveir:
Þú sem forðum sterkur, stiltur,
stöðugur sem gróin björk,
ég sem pálma villi viður,
vaxinn fram á eyðimörk.

Svör þín heyri' ég — heyrði fyrri —,
hressist ég og sönsum tek,
já, með ástar hlýju hjarta
hluttekning í lund mér vek.
Hafísköldum heljarrúnum
hugans vísa skal á bug;
hjartað spyr ei hót um rúnir,
heldur kærleikstrú og dug. —

Færist ljós að furðuströndum,
fjörgast augu, hressist lund,
sé ég yfir feikna flæmi,
fjöll og dali, sæ og grund,
sé á ótal alda raða
orustuvöll og Héðins víg:
eina falla, aðra rísa –
okkur sýnist — fyrir gýg.

Fyrir gýg? nei, förum hægan;
fjarri slíkt er mínum grun;
skiftir mjög hver vopni veldur,
vopna líka sé ég mun.
Þarna fellir fylking heila
Filisteans asna bein;
þarna bregða bitrum hjörfum
bleyðimenn og – höggva í stein!

Ekki vopnið, heldur höndin
Hildar gildir mest í þraut,
undir flestum ytri kjörum
andinn má sér ryðja braut.
Það er vitið, hjartað, höndin
heimi sem að vinnur bót;
eitt þó veit ég vopnið bezta:
viljann brýndan kærleiks rót!

Leyndardóma læt ég kyrra,
lúnum nægir minni þraut,

hygg og æðsta himnaspeki
hér að velja rétta braut.
Dómur Krists á degi hinsta
dæmir ei um fræði, vit,
heldur um hinn hreina vilja,
hjartans rót og trúar nyt.

Sé ég þína stöð í stríði,
stærra leit ég margra svið,
en að hreinum hug og vilja
hefir fár þig jafnast við.
Hver er mannsins huggun æðsta
hausti að og lækki sól? –
Hugsjón þá að hafa varið,
hjartans sem er bezta skjól.

Blessan þér og bræðrum þínum;
Blessan yfir lífs þíns starf!
Það mun verða sagt um síðir:
„Sá fór vel með föðurarf."
Þökk fyrir alla þessa smáu,
þú sem hélzt við föðurgarð.
Þar eru feður þeirra stóru,
þegar verk þín bera arð. –

Hvað er nú? mér sýnist sólin
sýnu hærri nú en fyr.
Er ég ekki aftur heima,
aftur barn við lífsins dyr? —

Svo er það; þó sjónir fölni,
sé ég fögur tímamót,
því hið sanna, göfga, góða
geisla slær á lífs míns rót.

Hver mun fyr, hver síðar sofna?
Syrgjum það ei, bróðir kær,
gaf oss ekki gæðin beztu
Guð og faðir náðarskær?
mér eitt lítið stef að stama
stundu lífs í háum kór,
þér með hraustri hönd að rækta
helgan reit, sem verður stór.

Hræðumst aldrei haust né vetur,
hræðumst enga furðuströnd,
aldrei kemur sólar setur
sannleikans við himinrönd;
ljóssins son því lítils metur
líkams þó að trosni bönd,
ávalt séð hinn góði getur
Guðs hin dýru sumarlönd

## HRINGSJÁ.

(Hrynhenda send Valdimari Briem 11. nóv. 1895).

Valdi Hamar vizku' og snildar!
Vertu, bróðir, kvaddur í óði;
Gæðavetur úr glöðu heiði,
guðleg jól og nýárs sólu!
Dægur hvert, þó sjöfalt syrti,
sé þér bjart og létt í hjarta;
hellist sjór af glóanda gulli,
Greppur, enn yfir þína Hreppa! —

Tigu sex hef ég fylt á flugi
fljótra ára lífs á bárum;
ferðin lá yfir frera harða,
furðugljúfur og margar urðir.
Full af sól og fegurð allri
fjöllin sýnast af Bernskuvöllum,
En—hvar hættir—hjálpi' oss drottinn!—
(Hrópað er síðan) ljóta hlíðin! —

Hvorki skal þó kvarta um hörku
heims i raun og blása í kaunin,
né mitt gæfugengi lofa,
get ég það fáir stórum meti.
Hitt er vert að herma í fréttum,
hvað ég merkast sjái þaðan,
sem ég stend á sjónartindi,
sextíu ára, þulurinn hári.

Sé ég fyrst, í sama fjarska
synda ódauðleikans myndir –
tindagnípur Gimlés stranda
Glýjaðar sömu rósaskýjum.
Þó hefir brekkan stórum stækkað,
stríð ég finn og sáran kvíða,
hversu lítið gat ég og gætir
gjörða minna hér á jörðu.

Þess er von, ég sá um seinan
sannleik þann, sem er lífið manna,
það er sigur sjálfs og huga
sinn frá blekking læra' að hnekkja,
taktu, gríptu himininn heima,
hlauptu' ei brott frá lögum Drottins;
hér þú hittir heiminn rétta,
hættu' að sníkja' á draumaríkin.

Tvennar sveitir sé ég státa,
sannlega báðar valtar í ráði;
önnur hlær að heimsku manna
hæðum frá og lýði smáir;
hin má lúta lágt og strita,
láta flá sig drotna háa;
þó, ef fjöldinn vex til valda,
verri fá menn sjaldan herra.

Heiminn trúi' ég hleypidómar
hryggilega ennþá byggi;

heili vor (eða heldur sálin)
hlýtur að erfð með kostum lýti.
Þóttú sannir sumum mönnum:
sex og tveir eru átta', ei meira,
sex og tveir? — það er svikaskýring,
svara þeir, það er einum fleira.

Heimskan enn er hjáguð manna,
höfuðprestur, er lúta flestir,
lagaboð sín lifanda Guði
lánar enn, þó hætti brennum;
leysir knúta lífsins gátu,
lyklana geymir enn, þá miklu,
(hver sem eyru hefir, sá heyri!)
himnaríkis og neðsta díkis.

Kóngar allir hana hylla,
hennar af náð þeir ríkin þáðu,
erfa lönd, þó ekkert starfi,
arfa-signet fjöldans tignar.
Hernum gefur hún heiður ærnan,
hjúpi dúðar apaskrúða,
slyngan girðir slíðurtungu,
slepptu' ei — segir hún — skerðu, dreptu!

Fer á þing með fólknárungum
fléttar lög og slær þau blettum;
blinda gjörir beztu anda,
böndum vefur mál og höndur;

sundrung veldur, hófi hrindir,
hreykir bokkum, skapar flokka,
telur öllum tómum sálum
trú um, þær sé beztu hjúin.

Lyfjabúðum lygaseyði
lánar hún enn við kvalaspennum,
hrönnum lýði glepur og ginnir
Galeni hrat og Hippokratis.
Gaman er að þér, húmbúgs-heimur!
Hamalt fylkir glösum „Brahminn“;
biblían seld fyrir bækur fífla,
Brönurímur og „gal úr hönum“.

Fer í kringum flugvitringa,
fær sér vist með aþeistum,
sýnir kosti sósíalista,
setur þing með stjórnleysingjum:
Reynir kosti realista,
ristir torf hjá idealistum;
brennir þang með búfræðingum,
blessar í hverri staupamessu.

Sízt hún vægir mildum meyjum,
mittin spennir viðjum þrennum,
farfar kinn og feygir tennur,
fyllir búðir glysi trúða.
Hún á bróður, heitir Vani,
hennar boð sem trúast kennir,

sér ei löst, en lýtur systur
lotning með, því hún er drotning.

„Gengur hún samt“ – svo greindi fanginn
Galilei, um jarðardalinn;
vil ég enn þá sögu sanna,
synd er að neita því og blindni.
Omagaháls á foldarfrelsi
finst oss langur og skrykkjótt ganga,
sjá má þó og sífelt trúa
sigurmerkjum Drottins sterku.

Reynsluvitið vex og hreinsast,
Vitinu fylgir ljós og hiti,
hitinn vekur kærleiks hvatir,
hvatir þær oss kenna að rata;
hatri linnir, heimsku slotar,
heimurinn náðarkrafta geymir;
Yfir er Guð, en enginn djöfull,
utan stríð, sem lögum hlýðir.

Yfir er Guð, sem einn er lífið,
„uppi, niðri og þar í miðju“,
í honum lifum, erum, hrærumst,
eins og forðum Páll nam orða.
Hvað er sál og hugsun égsins?
himinsól á vatnsins bólu,
sjálfleiksgráð, unz sól þá hylur,
sjónarvillur og draumahylling.

Gef oss, Guð, í ljósi' að lifa,
lifa sem þinn vilji skrifar;
skrifuð leiftra himinhöfin
höfuðletri þínu stöfuð.
Þorsti vor og lifandi lysting
lögin séu þín dýrðarfögru.
Gæzkan há og guðleg vizka
Giftan er, sem heiminum lyftir!

Valdimar, oss vantar eldinn!
Valdimar, hann blæs svo kaldan;
kuldi dauðans kallar: skáldi,
kvölda tekur, ég hef völdin! –
Þyldi Guð, að tvisvar tjaldi
tildra mætti lífs, ef vildi,
skyldi ég varhug glæpskugjöldum
gjalda betur. En – það fæst aldrei! –

Kvíði ég þó ei kör né dauða,
kæri bróðir, og sízt í óði:
Lífið er gott, þó vel ég viti
veturinn kominn — aldrei betra.
Neista gaf mér Guð hinn hæsti
gæzku sinnar í öndu minni,
náðin hans eru gnógleg gæði.
göfug ljóð og trú á hið góða.

Eigingirni' að ala' á hjarni
Elli sinnar, margan fellir;

kennum þjóð af alhug unna
annars hag og lífinu sanna.
Rjúfum þessa kotungs kofa,
kveykjum í þeim, brennum, steikjum,
reisum hallir hærri fjöllum
hetjuþjóð með lifanda óði! –

Jólasöng með sál og tungu
syngið nýjan, bragmæringar!
Hringið inn í hjörtun ungu
hundrað sinnum Drottins undrum!
Slöngvið burtu deyfð og drunga;
drengskap nýjan læri mengi;
lundin frjáls og lífsins yndi
landið blessi sígróanda!

---

Hringsjá mín er hulin drunga, –
Huggaðu mig og prýddu glugga
Arnarfell, svo ofin gulli
eygi' ég lönd á Sólarströndum! –
Myrkur hylja himinhvolfin,
hálfar sofa veraldar álfur;
„Tólf“ mér dynur tímans elfa:
tali hættum, bróðir, vale!

---

# TIL VESTUR-ÍSLENDINGA.

## I. BRAGA-MÁL.

„Sitjið heilir, börn og brúðir, bræður, systur!“
– segir Bragi, sendur vestur –
„sé ég yður heillagestur!

Heima þar sem hníga vötn af himinfjöllum
ofan á græna Iðavelli
á ég bygð í silfurhelli.

Gný ég þar minn gullna streng og grundu blessa,
syngja hundrað svalir fossar,
suða' í lundi þúsund kossar.

Söng minn lærði sveinn og mær af sinni móður.
Enginn Hómer yrkir kvæði
yndislegri' en hennar fræði.

Söng minn lærði hetjan hraust, er hríðin dundi,
báran þegar brimlöðrandi
braut hans far á malarsandi.

Söng minn lærði Sjöfn á milli sætra dúra,
meðan sólin svaf á bárum,
og sumarengið flaut í tárum.

Söng minn skilur skáldið bezt, hann skynjar andann,
eygir hjartans leynilindir
lífsins gegnum skuggamyndir.

Sé ég fólk, að yðar augu óðum hýrna;
lengi vara ljóðin barna
lífsins eftir daga farna.

Fé þér hafið flestir mist á fláum græði;
minnar hörpu hjartaljóði
hafið þér ekki týnt úr sjóði.

Leynilega — lít ég — yðar langa hugi:
aftur heim til æskuhaga,
yndislegra bernskudaga.

Þess er von, en þó skal yður þetta kenna:
Bernsku yðar björtu kynni
búa ei nema' í vitundinni!

Gott er að hyggja heim, en stopul heima-sælan;
margir fundu fent í skjólin
fagran kring um bernsku-hólinn.

Það eru lífsins lög, þó verði létt á metum
hverjum þeim sem þreyttur grætur
þunga sekt með bundna fætur.

Þó skal stundum þessum líka þokan birta;
föðurlandið fagurbjarta
fylgir lengi trúu hjarta.

Hvað er helzt sem eftir áttu Íss- á -láði,
hafirðu' með þér lífsins ljóðin,
lögð sem gull í hjartasjóðinn?

Enginn ræna annan má því allra bezta,
geymdu dyggur gullin smæstu,
gæðin fylgja þá hin stærstu.

Fólska' er víst að flýja sína fósturströndu,
nema mannsins insti andi
eftir sé þó skift sé landi.

Hvað er landið? – Sál þín, saga, siðir, tunga;
vötn og grjót þig varðar öngu;
vitrir kendu svo fyrir löngu.

Veröld öll er óðal þess sem orkan styður;
hverjum sem er heiðursmaður,
heimull er hver samastaður.

---

### II. BRAGA-BÖGUR.

Nú skal Bragi börnin sín og bræður telja,
Fjölnis — sem á fróni þylja
– fræðin þeim, sem heyra vilja.

Enn þá veldur Gröndal gamli Grímnis staupi,
kveður enn, svo klettar hrópa
kvæði er ná til Manitoba.

Steingrímur, sem stoltan lærði streng að benda,
gígjuna ber nú báðum mundum –
Bragi sjálfur dottar stundum.

Svo er mín gamla keypakind, sá karlinn bratti,
sá er ljóðin gól um Gretti,
og galdrabraginn kongi rétti! — –

Eldast menn, en yngist þjóð með önd og tungu,
þessir gömlu þrímenningar
þykja nú orðnir hálfdrættingar.

Völdin hefir Valdimar með virkt og prýði,
fram af Núpi flæða ljóðin,
fossinum undir stendur þjóðin!

Vestur á Horni Hannes situr hermannlegur,
bæði hár og herðadigur,
hlífist þó að beita vigur.

Fyrir því víst, að flestir vestra fást við þorska;
komi þar út kvæða-vizka
kostar vættin tíu fiska!

Austur á Horni Þorsteinn þylur þyrni-raunir,
gæðaljóð um Garðarseyna,
guðsóttann og trúna hreina.

Honum fylgir kýminn karl, er kunni snilli,
„sankti“ Páll í söngva helli,
situr nú hjá gömlu Elli.

Ástar þökk fyrir Ólafsson frá ykkar torgum,
skröltir enn í „Skuldar“ hörgum,
„skrum — rum — rum — rum“ segir í björgum.

Þá eru nafnar þreknir tveir hans Þambaskelfis:
annar efar, annar skilur
alt — nema það, sem myrkrið hylur.

Ótalið er „Íslands“ tröllið, Uxafótar
nafninn snjall, sem blöðin bætir
og bændadætrum lífið sætir.

Blöndal syndir sónar hyl sem silungsbranda,
Friðrik, Páll og fjórir Gvendar,
og fleiri „stærðir“ himinsendar.

Svo eru' að lokum Siggar tveir og sextán Jónar,
Birnir, Árnar, Ari, Sveinar,
Ólar, Mangar, Þórðar, Steinar.

Ekki ræ ég einn á bát á Ísavengi,
eða mundi Ormurinn langi
öllu betri stýra gangi?

Sáu fleiri' á sólar öld að sínu leyti
grísku fjöllin greppa nýta,
en Garðarseyjan silfurhvíta?

Gefið hljóð, með hærri tón ég hætti skifti,
hjörtun vil ég hvetja' og tyfta,
hugans sjón og fjöri lyfta!

### III. BRAGAR-BÓT.

Sé ég hendur manna mynda
megin-þráð yfir höfin bráðu,
þann er lönd og lýður bindur
lifanda orði suð'r og norður.
Meira tákn og miklu stærra
megin-band hefir guðinn dregið,
sveiflað og fest með sólar-afli
sálu fylt og guða-máli. –

Máli, sem hefir mátt að þola
meinin flest, er skyn má greina:
ís og hungur, eld og kulda,
áþján, nauðir, svartadauða;
málið fræga söngs og sögu
sýnu betra guðavíni, –
mál er fyllir svimandi sælu
sál og æð þótt hjartanu blæði.

Það hefir voða-þungar tíðir
þjóðinni verið guðleg móðir
hennar brjóst við hungri' og þorsta,
hjartaskjól þegar burt var sólin,
hennar ljós í lágu hreysi,
langra kvelda jóla-eldur,
fréttaþráð'r af fjarrum þjóðum,
frægðargaldur liðinna alda.

Stóð það fast, þegar storðin hristist,
stóð það fast fyrir járni' og basti,
stóð það fast, og fjör og hreysti
fékk hvað mest við stríð og hnekki.
Lof þitt, Frón! sé ljóðum skrifað,
lof fyrir hrundinn sálardoða,
víkingslund og brýnda branda
bráðeggjaðra hreysti-dáða!

„Undrast fögur öglis landa
eik hví vér 'rom fölir ok bleikir?“
— spurði skáld, og grafljóð gerði
geymileg meðan byggjast heimar.
Héðinn söng, meðan hyrjar-tungur
heljar-váða stefin kváðu,
Þórir, Jökull, og þaðan af fleiri
þuldu ljóð, meðan öxin buldi.

Sturla kvað yfir styrjar-hjarli,
Snorri sjálfur á feigðar-þorra;
ljóð frá auði lyfti Lofti,
Lilja spratt í villi-kyljum.
Arason mót exi sneri
andans sterka vígabrandi;
Hallgrímur kvað í heljar nauðum
heilaga glóð í freðnar þjóðir. —

Hvað er nú tungan? — Ætli enginn
orðin tóm séu lífsins forði, —
hún er list, sem logar af hreysti,

lifandi sál í greyptu stáli,
andans form í mjúkum myndum,
minnissaga farinna daga,
flaumar lífs, í farveg komnir
fleygrar aldar, er stryki halda.

Tungan geymir í tímans straumi
trú og vonir landsins sona,
dauðastunur og dýpstu raunir,
Darraðarljóð frá elztu þjóðum;
heiftar-eym og ástar-bríma,
örlaga-hljóm og refsidóma,
land og stund í lifandi myndum
ljóði vígðum — geymir í sjóði.

Tungan mögnuð sögu' og signing
söngvaljóða kallast óður.
Því eru ungir óðmæringar
aðalsblóm og þjóðarsómi. —
Heyrið, skáld, á Fimbulfoldu:
Frelsið deyr ef vantar helsi!
væri eigi' í lofi lýgi
landsins gæða — mættu þér hræðast!

Þakkið mein og megin raunir,
Mammons-ríkis Ameríku!
Þakkið slyppir kaupin kröppu,
kepni er betri' en stundarhepni.
Hvað er frelsi? — Hjóm og þvaður,
hjörinn þinn nema sigurinn vinni!

Þrælajörð þér veröldin verður,
verk þín sjálfs nema geri þig frjálsan.

Fá mér tind af Garðars-grundu —
guðastól á sjónar hóli!
Sjá, ég eygi alla vegu
ógnar-land, fæ glóð í anda!
Vei þér fjöldi viltrar aldar:
veldis-orð hér liggur í storðu!
Sæk þú hart, en varkár vertu:
voðafull eru' lönd úr gulli!

Heyrið, skáld á Fimbulfoldu:
fram í stafn í Drottins nafni!
Yður eg fel — það sjái sólin! —
sverð, er dýrast fengið verður!
það er harpan, hert og orpin
Hekluglóð og jökulflóði,
vígð í Dvalins voða-bygðum
vöggu-óð og föðurblóði!

Særi' eg yður við sól og báru,
særi yður við líf og æru:
yðrar tungu (orð þó yngist)
aldrei gleyma' í Vesturheimi!
Munið að skrifa meginstöfum
manna-vit og stórhug sannan!
Andans sigur er æfistundar
eilífa lífið. Farið heilir! —

---

## TIL KONU EINARS BENEDIKTSSONAR.

(17. september 1899 )

Ungri ásthýrri óskabrúður
bróður míns að Bragarfulli
flyt ég og færi festarminni,
sem dýrstu myndi dóttur bjóða.

Unni snót til aldurdaga,
arfa eldfimum Apollínis
svo síhýrt við sínum vini
brosi sem myrkviði Morginskæra,

Og Artemis við Endymion,
eða við apald aftanstjarna,
eða sem ljósmóðir lífs og gleði,
Áróra ann eyrarrósu!

Hana skyldu allar aldir blessa
í sæng og sal, sessi og göngu;
megi svanni sér og öðrum
safna sól fyrir sál og hjarta!

Njóti frægðar næstu aldar,
svanni og sveinn, í sjötíu ár:
hann í öndvegi óðsnillinga,
hún eins og dís hans dýrstu ljóða.

## ALDAR-HVÖT.

Flýjum ekki, flýjum ekki,
flýjum ekki þetta land!
það er að batna, böl að sjatna;
báran enn þó knýi sand!
Bölvan öll er blessun hulin;
bíðum meðan þverrar grand.
Flýjum ekki, flýjum ekki,
flýjum ekki þetta land!

Neytum kapps að nema' í tíma,
nauðsyn vor sem heimtar kent;
nýjan búnað, nýja verzlun,
nýjan iðnað, list og ment.
Fyrir alt, sem bregzt og bilar,
býðst oss aftur tvent og þrent.
Neytum kapps að nema' í tíma,
nauðsyn vor sem heimtar kent!

Hafa' ei ótal hundrað raddir
heillar aldar fram oss hvatt?
ótal spáný öfl og meðul
anda mannsins goldið skatt?
Hvað er það, þó margur missi
margt sem hefir stutt og glatt,
reynist eða bjóðist betra —
bara vari rétt og satt!

Flytjum saman, byggjum bæi;
bæir skópu hverja þjóð;
einangrið er auðnu-voði,
etur líf og merg og blóð.
Strjálbygðin er stjórnarleysi,
steypir lýð á feigðarslóð.
Flytjum saman, byggjum bæi,
bæir skópu hverja þjóð.

Fjölmennið er fóstra þjóða,
færum saman kotin strjál!
Borgalíf er brunnur dáða,
borgir kveykja líf og sál,
leysa fólk úr deyfðar dróma,
dumbum gefa heyrn og mál.
Fjölmennið er fóstra þjóða,
færum saman kotin strjál.

Flýjum ekki, flýjum ekki,
fóstru vora Garðarsmey:
aldrei sólu sigurvænni
sá né heyrði Snælandsey!
Hver sem móður sína svíkur
sífelt er og verður grey.
Flýjum ekki, flýjum ekki,
fóstru vora Garðarsey!

Lofum Guð, vér héldum heila, —
heila þeirra' er voru menn:

Vart mun gamall kraftur köggla
klakalandsins bila senn.
Meðalmanni meiri þjóða
mæta frónskur þorir enn.
Lofum Guð, vér héldum hreysti, —
hreysti þeirra' er voru menn,

Vonarglöð hin mikla móðir
mælir nú sitt hinzta kvöld:
„Gefðu færin, gefðu færin,
góða dóttir, nýja öld!“
Færin gefast, fólkið þiggur
frelsi, þekking, dáð og völd.
Þökkum Guði skarpan skóla,
skömm er að flýja býlin köld!

Fast við merkið, fast við merkið,
frjálsir sveinar, leggjum bein!
Fram til sigurs, sveitir Íslands, —
sveitir Íslands, hver og ein!
Ef vér landið sjálfir svíkjum,
sveltum vér við skömm og mein.
Undir merkjum, undir merkjum,
undir merkjum hvílum bein!

Flýjum ekki, flýjum ekki,
flýjum ekki þetta land!
Flóttinn, óttinn, einmitt sannar
afturför og þrældómsband.

Mesta lán og lífsins yndi
landsins er að hefja stand:
Flýjum því ei fóstru vora;
flýjum ekki þetta land!

## ÍSLANDS MINNI.

Eitt er landið ægi girt
yzt á Ránar slóðum.
fyrir löngu lítils virt
langt frá öðrum þjóðum.
Um þess kjör og aldarfar
aðrir hægt sér láta,
sykki það í myrkan mar
mundu fáir gráta.

Eitt er landið, ein vor þjóð,
auðnan sama beggja;
eina tungu, anda, blóð,
aldir spunnu tveggja:
Saga þín er saga vor,
sómi þinn vor æra,
tár þín líka tárin vor,
tignar landið kæra!

Þú ert alt, sem eigum vér,
ábyrgð vorri falið.

Margir segja: sjá, það er
svikið, bert og kalið!
Það er satt: með sárri blygð
sjá þín börn þess vottinn,
fyrir svikna sátt og trygð
sorg þín öll er sprottin.

Fóstra, móðir, veröld vor,
von og framtíð gæða,
svíði oss þín sáraspor,
svívirðing og mæða!
Burt með lýgi, hlekk og hjúp,
hvað sem blindar andann;
sendum út á sextugt djúp
sundurlyndis fjandann!

Græðum saman mein og mein,
metumst ei við grannann.
fellum saman stein við stein,
styðjum hverjir annan;
plöntum, vökvum rein við rein,
ræktin skapar framan.
Hvað má höndin ein og ein?
allir leggi saman!

Líkt og allar landsins ár
leið til sjávar þreyta,
eins skal fólksins hugur hár-
hafnar sömu leita.

Höfnin sú er sómi vor,
sögufoldin bjarta!
Lifni vilji, vit og þor,
vaxi trú hvers hjarta!

---

## EITT.

Enn er lítil lands vors saga,
lengi ramman við að draga,
mun ei þjóð vor þreytt?
mun hún orðin aldin, mæðin,
eða veldur landið, fæðin,
fátækt vor og fáu gæðin,
eða viljum vér ei neitt
eitt —
allir eitt, eitt?

Nei, vér kunnum einhug aldri,
enda hlaut í mæðu kaldri
frelsis þjóðin þreytt.
Grátur varð vor gleðisaga,
gígjan féll úr hendi Braga,
þjóðin lifði daufa daga;
allir vildu ei vinna neitt
eitt —
allir eitt, eitt.

Enn skín sól á Íslands hæðir,
enn þá rauða gulli klæðir
landið langt og breitt.
Svo skín menta sólin nýja,
sú er kom oss hugar frýja,
unga gjöra oss og nýja, —
nema viljum vér ei neitt
eitt —
allir eitt, eitt.

Heyri þjóð í eyrum óminn,
aldarloka klukkna hljóminn;
veri' ei þung og þreytt!
Hvað hefir tíðin talað, klifað,
til hvers Magnús gamli skrifað,
til hvers Jón og Jónas lifað? —
Til þess vera vildum eitt,
eitt —
allir eitt, eitt.

Vakna þetta verk að reyna —
vilja þetta eina — eina;
alt skal bætt og breytt!
Þekkirðu' ekki andans óminn,
anda gegnum sögu dóminn, —
finnurðu' ekki hreysti hljóminn
hrynja, dynja: Vertu eitt,
eitt —
allir eitt, eitt!

Sé ég fell og grundir gyllast,
gilin hverfa dali fyllast,
landið skrúði skreytt.
Sjáarans það syngur spáin,
sama birtir hjarta þráin;
sjá þess fylling nú er náin,
ef vér vildum yfirleitt
    eitt —
    allir eitt, eitt.

Þetta eina er að skilja
andans lögmál, Drottins vilja;
einn er ekki neitt.
Lærðu heimsins laga meining;
lífið, þó að sýnist greining,
visnar, ef það vantar eining,
vöxtur þess er yfirleitt
    eitt —
    allir eitt, eitt.

Fylgi þjóðir frjálsu merki,
fylgist þær að einu verki,
gengur alt svo greitt. —
Sýnum nú að sögu þjóðin,
sú er orkti hreysti ljóðin,
enn þá hafi hetju móðinn,
hug og táp sem legst á eitt,
    eitt —
    verum eitt, eitt!

# HÓLASTIFTI.

(1900).

SÖNGLJÓÐ [CANTATE].

## I. FORÐUM.

Recitativ.

Þjóðin var ung, því að æskunnar kraftur
í æðunum brann –
hundrað ár eftir að heilagi siðurinn
heiðnina vann.
Aldreigi lögum í landinu stýrðu svo
lýðfrægir menn:
Gizur hinn mikli og Markús með Jóni
og Sæmundi[1] í senn.
Aldrei var glaðari öld, eða snjallara
alþingi háð;
þá voru goðar, sem gættu síns lands
fyrir guðlega „náð“.
Aldreigi gáfu menn göfgara nýmæli
glaðari róm,
en Norðurland bauð, þegar biskup því gaf
heilan biskupsdóm.
Og aldrei skein glaðara góðs manns tár
við glóandi sól,
en þegar menn hófu þann heilaga Jón
á Hólastól.

---

1) Gizur biskup Ísleifsson, Markús Skeggjason, Jón Ögmundsson og Sæmundur hinn fróði lifðu allir samtímis á öndverðri 12. öld.

Söngur.

Á Hólum klukkurnar hringja
mót hlæjandi júní-sól,
og djáknar dillandi syngja,
svo dunar í hverjum hól.
  Alt er á ferð og iði
  af andans og hjartans friði,
og horfir á Hólastól.

Frá Guði kemur sú gáfa,
sem gleður þig, norður-sjót,
hún kom ei frá Kúríu' og páfa,
hún er kvistur á frjálsri rót.
  Sitt fólk vill nú biskup blessa,
  nú byrjar hans fyrsta messa,
með sigur og siðabót!

Kór.

  Cantemus, oremus,
  Deum laudemus![1]

  Klukkurnar klingi;
  klerkarnir syngi.
Fagna þú, Norðurlands frón!
  Gröfin er unnin,
  Guðs ljómi runninn:
Christe, Kyrje-eleysón! —

---

1) Þ. e.: Syngjum, biðjum, lofum Guð!

Heilögu hljómar!
himnesku dómar!
Alt viknar,
alt stiknar . . .
Hver talar svo himneskan tón?
Hann syngur, svellin renna,
hann svarar, hjörtun brenna.
Eja, sancte!
Sancte, eja!
vor biskup, hinn blessaði Jón!

2. Kór.

Hrifinn skari
að háaltari
horfir og þegir,
en hljómurinn deyr . . .
Heyr, heyr!
nú syngnr hann og segir:

Salva sedem,
Sancte Domine!
Salva templum,
Sancte Pater!
Salva Hólas,
Sancta Mater!

---

1) Helga stól þinn, Drottinn! Helga kirkjuna, heilagi Faðir! Helgaðu Hóla, heilaga Móðir! Helga land og lýð, heilagi Guðs sonur, eilífur og eingetinn! o. s. frv.

Salva patriam,
Salva populum,
Sancte Fili,
æterne unigenite!
Eja, eja,
Christe, Kyrje-eleysón!

Svo heilsar hinn heilagi Jón!

Sóló.

Hólastóll með hefð og sóma
hafinn stóð,
biskup nýr með listaljóma
lýsti þjóð.
Postullega prýddi Hóla,
presta lærði, vígði skóla,
lék á hörpu hymnaljóð.

Iðja prýddi, dáð og dugur
dýran stól;
fegurð, kapp og fremdarhugur
fjörið ól;
sumir kenna, sumir smíða,
syngja, nema, rita, þýða;
einn er biskup allra sól.

Aldrei Hólar áttu síðan
yfirmann

engilmæran, íturfríðan
eins og hann.
Fólkið þusti heim að Hólum,
hjörtun brunnu sem á jólum.
Aldrei dýrri dagur rann.

Recitativ.

Nei, því sem elding hið andlega kemur,
og óðara fer,
um augnablik skín, og Guðs eilífu
dýrð í örmum sér ber;
sem magn það, er sést ei, það mjög er oss
nærri, eins mér eins og þér,
en birtist sem Röntgens röðlarnir fyrst
við reynslunnar gler.
Og birtist það bezt, þá breytist það mest,
eða bliknar og þver;
svo svarið er einatt: „Það aldrei var til,
því að enginn það sér.“

Og veröldin vill hafa stríðin,
því vantrúin, heimskan og tíðin —
sá hópur var sjaldan hlýðinn
á heilagri kirkjugrund
í frá hinni fyrstu stund.
Sjálfur Jón helgi fór heldur strangt
að hefta það, sem hann dæmdi rangt,
með kreddur sínar hann komst svo langt,
að kastaði nöfnum daga:

heiðin varð Huld og Saga.
Alþýðusiðir og alþýðuljóð,
alt var tekið af fáráðri þjóð,
og kyrkt af kirkjunnar frosti.
Meistari Ovíd og mansöngsprjál
meinað var hverri lifandi sál;
alt hét það lausung og losti.
En fólkið var breyzkt og blótaði' á laun,
og bjó hinum „heilaga“ þunga raun.

En Sæmundur Sigfússon brosti.

Og næstu öld harðnaði hríðin.
Því heimurinn, þrjózkan og tíðin, —
sá hópur var sjaldan hlýðinn.
Þá harðnaði' á Íslands grund,
er Sturlungar stefndu fund.

Og „Guðslög“ mót landslögum gengu á hólm,
svo geysandi styrjöldin trylt og ólm
jós eitri og glóð yfir ættlands Bólm,
og ataði kirkjuna blóði. —
Á Hólum sat Guðmundur góði.
Þeir hröktu hann svipum og hnúum og klóm,
þá hét hann á föðurinn suður í Róm,
en hinir á föðurinn Fjanda.
Og kirkjan stundi svo karar-snauð,
öll kristnin var orðin lifandi dauð.
Hve mátti sú menning standa?

Sem syndanna fórn og glæpanna gjald
þeir gáfu sig páfa og konungi' á vald.

En höfnuðu heilögum anda.

Kór.

Og andinn kvaddi vor frægu flet
og frelsið í dauðans vanda.
Í fjöllunum glotti við hel og hret;
og hraun og jökull og bára grét:

„Nú hafnið þér heilögum anda!"

Recitativ.

Og svo líða þrjú hundruð andvana-ár
með ánauð og drepsóttir, skelfing og fár.
Hver megnar vorn skapadóm skilja?
Hver skilur, að alt fer í aldanna sjó,
en alt saman – alt saman lifir þó,
og rís upp með vitund og vilja?
Á Hólum fór vaxandi valdið og prakt,
en visnandi Guðs ríkis eilífa makt,
meðan klerkarnir kreddurnar þylja.
Með harðstjórnar kúgun þeir hjörðina flá,
sem horaðist dýrðlingabeinunum á,
og hrjáðist í hjátrúar klungri.
Á Hólastól Gottskálk hinn grimmi býr;

sú „Guðsnáð“ varð Norðlingum heldur dýr,
sem fitnaði' á feiknum og hungri.

Sóló.

En þótt jörðin sé löt og sem fjalagólf flöt,
— eins og fólkið trúði, —
hún rumskaði þó, og fram á við fló,
hvert farbann sem lúði.
Með önd og með sál sló eld við stál
Jón Arason sterki,
en kappinn feigur að foldu hneig
fyrir framtímans merki.

Hnígin var sól
yfir Hólastól
og hamingjan forna.
En hollara skjól
vann höfuðból,
sem hjörtunum orna.

---

## II. SIÐABÓTIN KEMUR.

Sóló, eða víxlsöngur.

Til vígs, til vígs, því vöknuð dunar veröld öll!
Með Æsum ganga Einherjar á Iðavöll.

Nú þora menn um þvera jörð að þeyta skeið,
til Ameríku' og Indíalands er opin leið.

Mót hringabrynjum bændur setja byssuhlaup,
og ránsherranna „borgir“ bjóða beztu kaup.

Sem drífa fljúga fáséð rit með frjálsa ment,
sjálf börnin kunna lærdómslist og lesa **prent**.

Og skáldin kveða kerskinn óð um klerk og múk,
sjálf kirkjan þykir orðin ær og ellisjúk.

Hann Leó[1] kvað það barnabrek, og brosti' í ró.
En Lúther kom, og „ljónið“ ei að lambi hló.

Sú fólkorusta frægust kvað við fold og dal,
og rammara söng, en Rollant kvað við Ronceval.

Því Lúther sterki hjó svo hart, að heyrist enn:
„Í Kristi Guðs er foldin frí og frjálsir menn!“

Hann hjó svo stórt, að höfuðið fauk af Hólastól.
Og föl og blóðug féll í mar hin forna sól!

Kór.

En ljósið færði líka reyk,
og langt var enn að bíða,
því konginum, fyr en Kristi, varð að hlýða!

---

1) ɔ: Leo hinn 10, páfi [Leo þýðir ljón].

Og fólkið draup og kongi kraup,
þótt kirkjan þess ei biðji:
„Frelsi' oss Kristján Friðriksson hinn þriðji!“

Recitativ.

Norðurland við sæinn svala,
sett við heimsins jökulskaut:
Undrast ei, þótt sjálfri seinki
sólu Guðs á þinni braut.
Sunnanátt og sumri fylgja
suddaél og þokutíð;
lengi fram á vorin varir
vetrarkuldans dauðastríð.

Vonum fyrri líf og ljómi
lýsti þó hinn forna stól,
þegar Brandur[1] biskup þriðji
bygðir nam og höfuðból.
Hóf frá stofni stól og skóla,
stiftið endurskóp og lýð;
prentlist hans og Heilög Ritning
hóf vort nýja frelsisstríð.

Aldrei fyrri áttu Hólar
afreksmeiri listamann –
aldrei fyrri, aldrei síðar,
afreksskörung meiri' en hann.

1) Guðbrandur Þorláksson, [biskup á Hólum 1570–1627].

Guðs orð talar, hjörtun hitna,
hugir vakna, titrar sál,
gamlar þokur hlaupa' í hnykla,
heljar-ógnir, brennumál.

Þess á milli' er heiður himinn,
hugsun skörp og vörm og djúp:
frelsið rumskar, fræði lifna,
fólkið sér sinn dapra hjúp.
Arngríms fræði, Hallgríms harpa,
hugvit Gísla, Brynjólfs stjórn[1]:
sýndist þó í sandinn hverfa
svo sem ónýt dreypifórn.

Aldir tvær, sem kappi' á knjánum,
kúgað fólk á hólmi stóð,
meðan sífeld ólög eltu
okur-svikum pínda þjóð.
Lagaspilling, óstjórn, ofsi
eftir galdrafárið hvín,
mátti lítt þau meinin sigra
mælskukempan Vídalín.

Svo er fargið þungt á þjóðum,
þung hin fornu heimskugjöld.

---

1) ɔ: Arngrímur lærði, Hallgrímnr Pétursson, Gísli (Vísi-Gísli) Magnússon og Brynjólfur biskup Sveinsson.

Þannig seinkar synd og vani
siðabót á nýrri öld.
Loksins milli bleikra bólstra
birtu sló á gamla Frón,
þar sem ungir orku neyttu
Eggert, Bjarni, Skúli, Jón.

Og þér Hólar! Hvílík hnignun,
hnignun í frá Guðbrands tíð!
Það er reynd og segin saga:
sífeld hnignun, dauðastríð!
Aldir sjö þú stýrðir stifti,
stóli' og skóla, Norðurland;
þessa öld þú af því áttir
ekkert — nema flag og sand!

Rödd.

Hátt yfir Hólabyrðu
hlymur af dimmum söng,
þrymur og þungan stynur,
það er hún Líkaböng:
Fjöllin jafnast við foldu,
fara skal alt í moldu
gegnum hin svörtu göng!
Klukkan drynur:
„kirkjan hrynur!“ —
Líkaböng! Líkaböng! Líkaböng!

Önnur rödd.

„Vivos voco,
mortuos plango,
fulgura frango!“[1]

Kór í lofti.

Peribunt gentes,
templa delentur
sublimæ turres
ventis frangentur;
dogmata sacra,
mundana quæque
Commutabuntur:
Verba divina
numquam perduntur![2])

Sóló.

Dauðlegt er alt
og deyja hlýtur,
sé það hold af holdi.
En von er til
sú, er vængja ljær
sál til betri sala.

---

### III. NÚ.

Recitativ

Öldin síð'sta, öldin stóra!
einnig þú til viðar snýrð.

---

1) c: Ég kalla lifendur, harma liðna, sundurríf þrumurnar! (Fornt)

2) Efnið samsvarar þessari stöku:

Þjóðir deyja, detta hof,
dýrstu turnar falla;

Hetjumóðir, hver fær metið
hamingju þína, rausn og dýrð?
Þú hef'r fjörgað foldu alla,
farið eldi tíð og rúm,
vakið alt, og listaljóma
lífgað — nema dauðans húm!

Orð þín voru: „Endurfæðist!
Eining verði sérhver þjóð;
fólkið vakni, fjötrin bresti,
frelsið kveði sigurljóð!“
Og til flýtis boði' og bótum
bál þú tókst og járn og eim,
furðumögn, og funaleiftrin
fest sem net um þveran heim!

Mikla öld, þitt móðurhjarta
mundi líka vora storð;
því við vorar vöggur kvaðstu
vonarmál og frýjuorð.
Margir heyrðu, margir stríddu,
margur vaskur hneig í val,
meðan lífsins ljóð þín hrundu,
líkt sem vötn um sumardal.

---

valdboð manns er van sem of;
veraldar í gegnum rof.
Drottins orðið dagana lifir alla.

Mun þó enn af knjánum komin
klakalandsins veika þjóð?
Sollin mein er seint að græða, –
seint að yngja gamalt blóð.
Hvað þá? Yfir tún og tinda
talar ný og máttug sól, –
skín og leiftrar yfir öllu –
öllu – nema Hólastól!

Sóló.

Kall er komið, heyr:
Koma tveir og tveir,
fáir eins og forðum Jesú sveinar;
bera' ei stolu' og staf,
stolza' ei neinu af;
þurrar standa grænar trésins greinar.

Kall er komið, heyr:
„Komi allir þeir,
sem þá nýju náðarköllun skilja!
Byrjið siðabót,
birtið aldamót!
Setjið þing með sigursterkum vilja!“

Kór.

Heilagur andi,
hógværu bræður,
hylli' yður heillum
hringinn í kring;
leiði til Lögbergs,
Lögréttu helgi,
Véböndin vígi,
verndi' yðar þing!

Ei hefir buðlung,
bagall né silfur,
lög eða landstjórn
lagt yður mót. –
Þriðja sinn kveður
kraftarins lúður:
„Sannleiki, sigur,
siðanna bót!“ –

Dagur er uppi,
dynur í lofti,
niðar mót nýöld
nútímans hjól.
Þriðja sinn þjóðu
þráir að lýsa
náðarsól ný yfir
Norðurlands stól!

Sóló með Kóri.

Trúna' ei lengur bækur bindi,
boð og völdin manns.
Þing er sett, að lögin lýsi
lífs og kærleikans.
Sannleiksandinn, sjálfur Drottinn,
semji Kristinrétt
Hólastifti hinu nýja,
hér sem verður sett,
– verður sett!

Köld og mörg eru' kirkjuboðin,
Krists eru' létt og fá.
Lærðu, barn, hans lög að elska,
letruð hjörtun á!
Dómur lífs og Drottins vilji
dylst í sálu þér, –
dylst í þessum syndasolli,
sem þú berst við hér,
– berst við hér!

Hér er ríkið, hér er Kristur!
Hann er þetta barn,
offur, selt í synd og voða,
sett á eyðihjarn!
Hér er ríkið, hér er Kristur.
Hann er fallin þjóð,
sú er gegnum syndir feðra
seldi líf og blóð,
— líf og blóð!

Frelsum hana, frelsum barnið,
fyrst að það er hann!
Sýnum: Kristur sé á jörðu;
sýnum Guð og mann! —
Komi Jesú kærleiksríki!
Komi glaða-sól!
Náðin Guðs hin nýja vígi
nýjan Hólastól,
— Hólastól!

Kvenna-raddir.

Heilög og stór er hjartans þrá
að hefta vor meinin stríðu;
en varið yður að brjóta bág
við björkina Drottins fríðu!

Tíminn með brugðin brand og sög
bíður á aldamótum,

en kirkjan setur í síð'stu lög
sverðið að fornum rótum.

Lengi' er að vaxa vegleg björk,
sem vermir um aldir hólinn;
en kalt er að byggja bera mörk,
þá burt eru gömlu skjólin!

Karlmanna-raddir.

Hið aldna' og feyskna fer sem má,
það fellur, ef getur ei lifað;
eldur og sverð því sigrast á, —
en sólunni fær ei bifað.

Sé viljinn sannur og hjartað hreint,
vér hræðumst ei ógnir neinar.
Guð er í oss. Vér göngum beint; —
svo gjörðu þeir Jesú sveinar. —

Kór og Finale:

Fögur er foldin!
Fram með Drottins merki!
Tindra daggir af trú og von.
Nýfædd í norðri
náðarsól ljómar.
Christe, kyrje-eleyson!

---

## TIL BJÖRNSTJERNE BJÖRNSON.

**Kveðja til skáldsins frá Íslandi, þegar hann varð sjötugur.**

---

Haukr réttr ertu, Hörðadrottinn;
Hverr gramr er þér stórum verri;
meirri verði þinn en þeirra
þrifnaðr allr unz himininn rifnar.
Arnórr jarlaskáld.

Noregs frægi, nýi skáldaspillir!
Norðurlöndin sýnast eitt í dag:
meðan skáldið gjörvall heimur hyllir,
heiðra son sinn þau með einum brag!
Haukur ertu, Hörðadrottinn fríður;
hvass á brún, sem fyrrum ern og frjáls!
Dofrafóstri, frændi kær, þér býður
frægðarkveðju land þíns gamla máls.

Enginn síðan aldinn Skáldaspillir
orkti ljóð um þann, sem féll á Storð,—
enginn síðan sannleiks hörpustillir
söng og kendi drengilegri orð;
enginn kappi hjó svo hart og svifti
heillar þjóðar dauðri vanatrú;
enginn svanur landsins hjarta lyfti
lista-snjalt og kröftugt — eins og þú!

Ei var þitt í dverga gil að grafa,
gullið skein í sjálfs þíns hjartarót;
yfir Raumsdal, ríki þinna afa,
röðlar hlógu vöggu þinni mót.

Þrændir forðum feldu kyngi styrkri
fræknan gram — en það var blindingsverk:
aldrei vega mundir þú í myrkri,
margir þó að reiddu vopnin sterk.

„Ei skal höggva!“ hrópar feigur Snorri,
hjarta lands vors þegar sverðið beit;
„Nú skal höggva!“ gellur Eysteinn Orri,
æru Noregs þegar hníga leit.
Óður þinn á Orra tungu mælti,
andi þinn er vígður stórri tíð;
Orra hreysti strengi þína stælti,
stríð þíns lífs var sannleiks Orrahríð!

Þjóðmæringur, þökk af hjartans grunni;
þér var gefin lífsins stóra trú!
Aldrei féll þér orð frá sjúkum munni,
efans, dauðans hrakspá smáðir þú.
Vorrar þjóðar tign og afli treystir,
tímans meðan dæmdir syndagjöld.
Hjartans þökk, að þú í ljósi leystir
lífsins draum, og fægðir Noregs skjöld!

Það er satt, að sjón hins rétta, góða,
sigrar óðum forna myrkratíð;
óðum síga saman býlin þjóða,
sama nauðsyn jafnar heift og stríð.
Og þótt, meðan dróttir dufti klæðast,
dynji stöðugt ramur heljarfoss:

betur, betur guðlegt vit mun glæðast:
Guð er sá, er lifir, býr í oss!"

Njót því heiðurs, Noregs skáldaspillir!
Norðurlöndin verða bráðum eitt.
Dofrafjöllin fegri roði gyllir:
Fylgjumst vel og hræðumst ekki neitt. —
Hróðrardrottinn, sterki boga-bendir,
Braga niður, sit þú ern og frjáls!
Dofrafóstri, frændi kær, þér sendir
frægðarkveðju landið Heklu báls!

# IV. ÚR LEIKRITUM.

## ÚR SKUGGASVEINI.

### I. SÖNGUR ÁSTU.

Hver vill sitja' og sauma
sumar-nóttu á?
Burt með deyfð og drauma,
dag og líf að sjá
fram um heiðrík heiðardrög;
syngja þar við sólargætt
svanir himnalög.

Gyllir síblíð sunna
silfurhökluð fell,
hlær við heislubrunna
heiðbjart jökulsvell;
en um hlíðar, holt og börð

unir sæl við sumardýrð
sauða fögur hjörð.

En ef eg þár fyndi
æskuprúðan svein,
svo við sjafnar yndi
sitja mættum ein
sumar-nótt við svalan foss:
Hver mun siðug silkirein
synja þá um koss?

---

II. SÖNGUR GRÍMS OG HELGA.

Látum af hárri heiðarbrún
ljóshraða svífa sjón
sviptigið yfir frón!

Og sigri efldur andi vor
profanum prophetam
prettvísan Bíleam.

Signandi þig, vor fósturfold!
sannleikans sigur-spár,
sendi þér Drottinn hár!

Blessaða land, á brjóstum þér
þiggjum vér þrótt og líf,
þægindi, skjól og hlíf.

Hvað er svo frítt, sem faldur þinn
heiðskærum himni mót
hlægjandi, jökulsnót!

Mjúklega fer um móðurbrjóst
grænleitur, gullofinn
guðvefjar-möttullinn!

Líf þér í æðum örvi hver
rún, sem að röðullinn
ristir á faldinn þinn.

Drjúpi þér náð af himinhæð,
glitblóma gullin-tár
gráti þér friðsælt ár!

Fossar þér lesi forna rún
um Þór, er þussa lið
þrymjandi hamast við.

Brotnandi unn þér bendi hver
hverflyndi heimsins á,
hræði þér svefn af brá.

En hverja helga himinrún
börnum þín um fram alt
ætíð þú kenna skalt.

---

### III. VÍSUR SKUGGASVEINS.

Býsna marga hildi háð
hefi ég, og þetta láð
víða kannað, kalt með þel,
kólgu þolað, frost og él.

Útskúfaður öllum frá
út ég lagðist fjöllum á;
við mér taka vildi' ei neinn,
var svo nefndur Skugga-Sveinn.

Gekk ég norður kaldan Kjöl,
kosta fárra átti völ;
bað ég eigi' um brauð né frið,
bauð ei heldur neinum grið.

Vini hefi' ég aldrei átt;
enginn bauð mér frið né sátt;
auðarslóð mér unni' ei nein;
allir hræddust Skugga-Svein.

Þú ein bauðst mér trú og trygð,
tröllum helga fjallabygð;
dugur, þrek og dirfskan mín
drjúgum óx við brjóstin þín.

Niðri' í sveitum kúrir köld
kveifarskapar horuð öld,

og frjálsra manna haugum hjá
hunda-þúfum sefur á.

Þeirri hefnd og heift ég sór,
og hvar sem yfir storðu fór,
barði, stal og beitti hníf,
bændur meiddi, skemdi víf.

Svo hefi' ég aldur alið minn,
elligjöldin nú ég finn,
fætur stirðna, fjörið þver,
förlast sjónin hvassa mér.

Skuggavaldur, skjólið þitt
skal hið hinzta athvarf mitt,
þegar feigðar-þokan mig
þrotinn villir lífs frá stig.

---

### IV. SÖNGUR MARGRÉTAR.

„Og flýt þér nú, snót mín,
og fylgdu mér á braut;
svo fríð ert þú og brosleit
og snjóhvítt þitt skaut."

Kór.

:|: Margt býr :|: í þokunni,
þig mun kanske iðra.

Þá svaraði mærin:
„Ég vil ei væta fót.“ –
„Ei væta þarftu skó þinn,
né stíga á grjót.“

Kór.

:|Margt býr :|: í þokunni,
þig mun kanske iðra.

„Nei, úti' á víðavangi
ég villast kann á fjöll.“ –
„Ei villu skaltu hræðast,
ég særi frá þér tröll!“

Kór.

:|: En margt býr :|: í þokunni,
þig mun kanske iðra.

Svo gengu þau frá garði.
Þá heyrðist henni hljóð.
„Þér hringir fyrir eyrum
þitt saklausa blóð.“

Kór.

:|: En margt býr :|: í þokunni,
þig mun kanske iðra.

Þau komu fram að Seljum,
hún heyrir aftur hljóm;
en höfði lutu kvöldsvæf
hin gullfögru blóm.

Kór.

:|: En margt býr :|: í þokunni,
þig mun kanske iðra.

„Því hræðist mín hýreyg,
þú heyrir fossins róm.“
„Guð hjálpi mér, þú skrökvar,
ég þekki klukkna hljóm!“

Kór.

:|: En margt býr :|: í þokunni,
þig mun kanske iðra.

Svo hrópaði mærin.
Þá hvarf hinn flái sveinn,
og heim komst snót með nauðum,
en faldurinn var hreinn.

Kór.

:|: En margt býr :|: í þokunni,
þig mun kanske iðra.

---

### V. ÚTILEGUMANNAVÍSUR.

Blundar lúinn
bygðarmúgur
beðjum á,
fjallabúinn
fer á stjá;
saman í hrúgum
sauðagrúann
sér hann til og frá,
sízt þá sofa má.

Því um nætur
fer á fætur,
fjalla-sal
kveða lætur
„hó“ og „hal“;
nú skal kætast,
gálgi græta
garpa þeygi skal,
sundrum sauðaval.

Látum hnífa
hvassa stýfa
haus frá bol,
síðan rífum
sauði' á hol,
kinda lífi
lengi hlífa
léð oss ei er þol;
hverfi handaskol.

---

### VI. HJARTA, ÞVÍ SLÆRÐU?

Hjarta, því slærðu svo hart og svo ótt!
heyrðu mig, þögula, friðsæla nótt!
heyrðu mig, himinn, svo heiður og blár,
:|: heyrið mig, dalir og fossar og ár! :|:

Heyrðu mig, Hulda und hrynjandi foss,
sem harmana þekkir og ástir og koss,
og heilagar vættir um hamranna geim,
:|: sem háskanum bægið frá mannanna heim. :|:

Einasta vininn minn yður ég fel,
annist hann fyrir mig, gætið hans vel;
á yður ég heiti og hrópa og bið:
:|: Haraldi veitið þér trygðir og grið! :|:

---

### VII. FRAM Á REGIN-FJALLA SLÓÐ.

Fram á regin-fjalla slóð
firðar ljótir búa;
þeirra bygð er þeygi góð,
þyrstir mjög í sauðablóð
eru þeir, og engan guð á trúa.

Kunna þeir með kænsku sið
kvikfé ná í haga,
kveykja eld við kletta-rið,
kjötið steykja logann við,
síðan stolnar sauðahnútur naga.

Þegar bóndi burtu frá
býli fer og vífi,
koma fram úr fylgsnum þá
fólin leið, og bæjum á
æra fljóð og ota löngum hnífi.

---

### VIII. HARALDUR OG ÁSTA.

Haraldur.

Geng ég fram á gnýpur og geigvæna brún,
:|: djúpan lít ég dalinn og dáfögur tún. :|:

Kveður lítil lóa, en leiti gyllir sól,
:|: í hlíðum smalar hóa, en hjarðir renna' á ból. :|:

Bær í björtum hvammi mér brosir á mót,
:|: manstu vin þinn, mæra, munblíða snót! :|:

Ásta.

Hrædd ég heiman stari á helþrungin fjöll;
:|: frost býr þar og fannir og forynjur og tröll. :|:

Brjóst mitt bifast trega, ég bið fyrir þann
:|: heiðarsveininn hýra, sem hjarta mitt ann. :|:

Haraldur.

Sástu' fríði svanni, hin sumarblíðu kvöld
:|: fagra fljúga svani með fjaðra gullintjöld. :|:

Ásta.

Sá ég svani fljúga með söng og vængjadyn.

Haraldur.

:|: Þeir þér kváðu kveðju frá kærustum vin. :|:

Ásta.

Gott á fuglinn fleygi, sem fjötra engin bönd;

Haraldur.

:|: en fótur vor er fastur, er fljúga vill önd. – :|:

Bæði.

Þó fótur vor sé fastur, er fljúga vill önd,
:|: ástin vor er eilíf og aldrei þekti bönd. :|:

## IX. OG BLINDNI' OG HATUR HÉLDU RÁÐ.

Og Blindni' og Hatur héldu ráð –
Herrann ræður einn –
Þá grét í böndum guðleg Náð. —
Ó, geym vor, Maríu-sveinn!

Til dauða Hatur dæmdi Náð, –
Drottinn ræður einn!
og Blindni félst á bana-ráð, –
Ó, bjarg oss, Maríu-sveinn!

Og himinborin hné þar Náð, –
Herrann ræður einn! –
Og vel var dulið véla-ráð –
Ó, væg oss, Maríu-sveinn!

Og Blindni glotti, Hatur hló, –
Herrann ræður einn!
Þau grófu Náð í grafar-þró. —
Ó, gæt vor, Maríu-sveinn!

Frá gröfinni spratt upp geislarós,
Guð, þú ræður einn!
Hún bar of heiminn himneskt ljós,
O, hjálp oss, Maríu-sveinn!

## X. LOKASÖNGUR.

Lárenzíus.

Nú hressi menn og huggi
sinn hug á landi hér,
hinn gamli grimmi Skuggi
í Gullfoss steypti sér.

Allir.

Nú reynir fossinn róminn
við raman Skugga-Svein,
og þylur dauðadóminn
við dáin víkings bein.

Lárenzíus.

Nú friðarfaðm ég breiði
þér, fagri systurson,
í frjálsra félag leiði
með fylstu gleðivon.

Haraldur og Ogmundur.

Nú kvíði' ég ei né kvarta
nú kem ég til mín sjálfs,
af gleði hlær mitt hjarta,
því héðan af er ég frjáls.

Ásta.

Mér sýndi þokan svarta
hve sviplegt lífið er;
en blessuð sólin bjarta
á bak við myrkrið fer.

Lárenzíus og Sigurður.

En fyrst þú fjötur leystir
af fjallasveinsins hönd,
þér, Ásta! einni' ég treysti
hann aftur setja' í bönd!

Allir.

Og fyrst hún fjötur leysti
af fjallasveinsins hönd,
sér Ásta einni treystir
hann aftur setja' í bönd.

---

## ÚR VESTURFÖRUNUM.

---

### I. ÉG Á MÉR VIN.

Ása.

Ég á mér vin, ég undi löngum heima,
þó æfibrautin sjaldan væri slétt;
og hvað er mér um líf og lán að dreyma,
fyrst lukkan gaf mér þennan kæra blett.
Ég læt mér nægja mína heima-haga,
þar heilög minning vígir sérhvern stein;
á munarstöðvum minna beztu daga
hjá manni' og börnum hvíli ég mín bein.

Helga.

Þín fortíð er þín lukka, ljós og heimur,
þitt líf er minning, friður, ást og trygð,

en framtið mín er valtur voða-geimur,
ef vinarlaus ég færði héðan bygð.
En hvar sem hann er, vil ég vera heima,.
þó veröld alla legðum undir fót.
Já, æskan líður létt um alla geima,
en lukkan bíður þó í hjartans rót!

---

### II. KOM, SONUR MINN.

Kom, sonur minn, sjáðu þar, kæri,.
hvar snót á óðal sitt:
und sonar Guðs signuðum krossi,
þar sefur lífið mitt.

Öll veröld með Vesturheims sælu
mér veitir ei betra hnoss
en hjá mínum saknaða sofa,
þar sérðu Drottins kross!

---

### III. BOÐSKAPUR GABRÍELS.

Gabríel.

Með góðum boðskap Gabríel
nú gleður svein og píku;
ég heim til Íslands synti' á sel
frá Suður-Ameríku!

Fólkið.

Hvað er að heyra!
Hvað segir hann meira?
Höfuðengli hlýðum, og bíðum!

Gabríel.

Ég kominn er til klakalands
að kasta' af fólki helsi,
og leiða alla utan stanz
í Ameríku frelsi.

Fólkið.

Laglega' hann syngur,
leikur við hvern fingur.
Hlusti hver og hlýði með prýði!

Gabríel.

Ég heiti nú á hvern þann mann,
sem hefir réttan kollinn,
að kveðja þennan kvalarann
og koma' út yfir pollinn!

Fólkið.

Sjáið, hvað hann segir,
sælu brosa vegir,
hætta rauna hríðir um síðir.

Gabríel.

Ef nokkur hefir sút og sorg
og sára þröng í búi,
þá sigli' hann upp þá Síonsborg
og sultar grenið flúi.

Fólkið.

Leyfist að svara?
Lofið mér að fara
burt frá kulda kaunum og raunum.

Gabríel.

Ef sveitaþyngsli, skort og skatt
og skuldir þarf að flýja,
þá komið, komið, komið hratt
til kostalandsins nýja!

Fólkið.

Þey, hvaða skratti,
þar kemst ég úr skatti,
skuldasúpu, svalli og bralli!

Gabríel.

Hér vaða allir aur og elg
og eru skuldum kafðir,
þar kasta allir ellibelg
og eru gulli vafðir.

Fólkið.

Sjáið þið bara!
Sjálfsagt er að fara
út úr okkar vafsi og krafsi.

Gabríel.

Hér lifir bóndinn þurfa-þræll
og þjónar dönskum milding,
í Ameríku' er sérhver sæll,
og svarar þó ei skilding.

Fólkið.

Drottinn minn dýri!
dragðu' oss upp úr mýri!
Flýtum oss sem fljótast og skjótast.

Gabríel.

Hér kvelur alla frost og fár
og frekur hafís-skolli,
en þar er hlýtt um öld og ár
svo aldrei frýs á polli.

Fólkið.

Blessaða blíða!
burt með allan kvíða!
Komum, far oss kaupum, og hlaupum!

Gabríel.

Hér fæðist alt með Adams synd
og óláns tötrum vafið,
en þar er alt með Edens mynd
og engilhvítt sem trafið.

Fólkið.

Háleitt er að heyra,
helgur, eða meira,
verður hver þar vestur, og prestur!

Gabríel.

Sem kongar lífsins gegn um göng
þar ganga allir jafnir,
og verða loks með sigursöng
í silfurkistum grafnir.

Fólkið.

Drottinn minn dýri!
dragðu' oss upp úr mýri!
Komum, far oss kaupum, og hlaupum!

— — — — — — — — — — —

Auðunn.

Þey, þey, hér heyrist ei hundsins mál
fyrir horngrýtis gelti —

Jón á Gili.

Þín nirfils sál!
vilt þú fara' að prédika, púkinn leiði,
sem prakkaðir út úr mér jörðina Skeiði.

Auðunn.

Hjálpið mér, hjálpið mér!

Ari.

Hægðu' á þér, Jónsi,
heyrum, hvað hann fer með, þó hann sé dónsi.

Auðunn.

Hættið að æra mig, öfundar fjandar!
Það er upphaf ræðunnar, heiðruðu landar,
að hingað er kominn, sem vitið þið vel,
þessi Vesturheimsmaður, hann Gabríel —

Jón á Gili.

Í gapastokk með hann Gabríel,
og Golíat taki þinn húðarsel!

Auðunn.

Ef ég fæ orðið, ég ætlaði' að segja —

Jón á Gili.

Það ætti að gefa' honum jörð til að þegja!

Auðunn.

— að ég álít að landið sé óbrúkandi,
hér var aldreigi klifberi' í lögmætu standi;
því hér er alt bramlað og brotið um þvert;
við bindum nautin í tagl og stert;
við reiðum þorskhausa þriðjung úr ári,
og þrískerum niður úr kláðafári,
við lifum við kvalir og kúgunar nauð
og kuldi og gigt er vort daglega brauð.
Mig skal ei undra, þótt allir reisi—
hvern enda fær þetta peningaleysi?
Hvað mig snertir, tek ég ei einskilding inn,
en út frá mér gengur straumurinn,
í landssjóð, sveitarsjóð, sýslumann, tolla,
og svo fær presturinn reiðinnar skolla,
í dýratoll, ljóstoll, í legkaup og meir
ég læt, held ég, sjötíu krónur —

Bjarni.

Heyr!
Já, einhverja ögn má hann Auðunn minn borga,
hann á ekki heldur fyrir mörgum að sorga.

Auðunn.

Það var furða og mildi, ég fór ekki' á hreppinn,
og fyrir því tel ég mig næsta heppinn
að leggja til hafs frá landi slíku,
og lenda skuldlaus í Ameríku.

Jón á Gili.

Gefið mér nú orðið að gamni mínu! —
Grefillinn vorkenni rausi þínu,
þú, sem átt hundrað hundruð í jörðu,
og hleður úr spesíum Babels-vörðu,
sem þegjandi hrópar í himininn;
þú hugsar að kaupa sálina inn,
en þar er, svei mér, ein syndaskjóða,
sem sæmra væri þeim gamla að bjóða.

Auðunn.

Þegi þú, húsgangur, hylkið þitt lyga!

Jón á Gili.

Þú hlóðst úr smjörbelgjum feikna stiga,
en stiginn bráðnaði' í signaðri sól
og súrsmjörselgurinn himininn fól,
en meiri var ljóssins en Mammons kraftur,
í moldöskurokum kom smjörið þitt aftur,
mér fer ei úr minni sú feitmetis signing,
það var fánaleg úrkoma, skelfileg rigning.

Auðunn.

Hann dárar mig, afglapinn, berjið hann burt!

Bjarni.

Nei, blessaðir verið þið, látið nú kjurt!

Auðunn.

Þið haldið að ég, sem er heiðursmaður,
hreppstjóri gamall og forframaður,
þoli slík hrakyrði' og haugalýgi. —
Hvar er minn smjörbelgja Jakobs stigi?

Jón á Gili.

Slærðu mig! Slóstu mig? Sleppið mér burt!

Bjarni.

Þeir slást! verið hægir, og látið þið kjurt!

Jón á Gili.

Að fá svona á hann á frjálsum fundi!
Það er fádæma hart, vera sveiað sem hundi.
Æ, lofið mér betur að blessa' yfir karlinn! —
Þú byggir þér laglegan sálarpallinn;
með hálfstolinn ágirndar hrísgrjónagraut
þú heldur þú komist í Abrahams skaut,
en Belíal steypir þér stólinum frá
og stingur þér beint nið'r í Kötlugjá.
Að svo mæltu kveð ég þig, súrmjólkur-jarl!
Sjóskrímslin hafi' ykkar Vesturheims brall.

Auðunn.

Þar lötrar hann burt, það var landhreinsun góð,
nú liggur á piltar, að gefið þið hljóð!
Hér hefir gengið hávaði um sinn,
heyrðuð þér sönginn, Gabríel minn?

Gabríel.

Þið haldið mér bjóði við harki slíku,
Þið hugsið við þegjum í Ameríku!
Nei, þar er málfrelsi mikið og breytt,
þó menn tali í snoppungum, gerir ei neitt.

Bjarni.

Seg oss nú, góðasti Gabríel minn,
oss gleður að heyra talandann þinn,

um Ameríku. Er hún nú stór?
Er hún umflotið land? Er þar heitið á Þór?
Er þar sykur og brauð? Er þar kindur og kýr?
Er þar kaupstaður, hreppstjóri, vegir og brýr?

Gabríel.

Hún Ameríka er umflotið land,
þar er alstaðar lending við sléttan sand,
sem er gulgrár að sjá, líkur syrjóttri rýju,
sér í lagi' að vestan, í Kaliforníu.
Ég þarf ekki að segja' ykkur, það er gull,
þar sem öll hús eru' af slíku full.
Menn tönglast ei þar um eitt túmark með gati,
menn taka nafar, sem heitir rati,
og bora' inn í fjöllin braut og göng,
og bera' út í vættum jötnasöng.

Auðunn.

Meinar hann gull?

Gabríel.

Já, gull ég meina,
Getirðu' ei trúað því, skaltu reyna;
menn hafa þann málm þar í húsaþök,
sem hestastein, vörður og Grettistök.

Bjarni.

Hver fádæmis-undur og endaleysa!
Auðunn minn, heyrirðu?

Auðuun.

Látum hann geysa.
Eg fyrirgef vel, þó hann ýki ögn.

Gabríel.

Ég hef séð gullbúin handar gögn,
heymeisa, torfhrip og tönnur í mönnum,
já, turnar og kirkjur þar sjást í hrönnum
úr logandi gullinu, alt, já alt —

Bjarni.

Er þar útigangs peningur, heitt eða kalt?

Gabríel.

Já, vetur og sumar, sem vor og haust
þar velta skepnurnar endalaust
í selengja grasinu, sex feta háu,
sauðir, ær, hrútar og lömbin smáu;
og svo er þar kjarngott, að kvartel af sméri
þar kemur undan á, þó um höfuðdag beri;
og síðan af tvævetrum sauð, ég sver,
er sex sinnum þykkari en nautsbringa hér,
og kýrnar þar mjólka svo miskunarlaust;
ein málnyta fyllir heilt langskipsnaust.

Bjarni.

Er þar hlýtt eða kalt, ég er kulvís maður?

Gabríel.

Þar er kakalofnshlýindi, — ertu þá glaður?

Bjarni.

Er uppskeran mikil?

Gabríel.

Já, ekki sjaldan.
Þeir arðinn fá meira en sexhundraðfaldan
af hrísgrjónum, hveitinu, himnabrauði,
af hvers kyns gæðum og rúsínu-auði.

Bjarni.

Vex þar ekki í staupinu?

Gabríel.

Sterkasta vín
þar streymir fram sjálft eins og áin Rín;
sem mjöður er fljótið hún Missisippi,
það messuvin drekkur hvert flókatryppi.
Og síróp úr trjánum þar síast sem tjara,
en sjampavín ólgar í Níagara —
það er foss, sem þrumar með óminnis ekka,
svo að ekkert lifandi þorir að drekka.
Þar vellur í grjótinu ljóstært lýsi,
þar leiftra eplin á hverju hrísi,
en sykurinn liggur í háum haugum.
Úr hunangi' og mjólk við kroppinn laugum.
Þar uppsker fólkið, þó enginn sái,
því ódáins smjör er á hverju strái.

Auðunn.

Er kyn þó hann gumi af Gósen slíku?
Gott er undir búið í Ameríku!

Gabríel.

Og innréttinga undurin þá,
þau yfirgengur að heyra og sjá:
þar fer alt í lofti sem logi' yfir rein,
alt landið má heita sé maskína ein;
menn ferðast í maskínum, leika sér, lifa,
menn lauga sig, klæða sig, tala og skrifa,
talast við og skrifa, þótt skilji leiðir,
og skutlast á orðunum þingmannaleiðir,
menn drekka, menn borða, menn dansa, menn ljúga,
menn deyða, menn lífga, menn ganga, menn fljúga,
og meyjanna biðja með maskínukrafti. –

Jón á Gili.

Þinn maskínu-trantur skal lokast með rafti!

Bjarni.

Er hann ekki Jón kominn ösku-blindur!

Jón á Gili.

Þið amlóðar, sjáið ei, Jón er hyrndur:
Þú gapi þarna, þú Gabríel,
þú gefur ei fólkinu' í krákuskel
þína kjaftæðis-olíu' úr Ameríku,
það fer ólukka' og slys í magann af slíku.
Því þó ég sé ölvaður, elska ég landið,
sem ól mig og nærði; ég fer ekki grandið,
þó fengi ég allan hann Auðunn í kaup,
á Íslandi drekk ég mitt síðasta staup,
því það sver ég, brynjaður þessum rafti,
að þar hæfði aldreigi skel betur kjafti.

Gabríel:

Well! Ég hefi orðið. Út með hann Jón!

Jón á Gili.

Þú öslar um landið sem gráðugt ljón,
glefsandi' og hrifsandi sál eftir sál,
með syngjandi maskínu-húmbúk og prjál;
þín Bileams asna, þinn Belíals þjón,
ég ber þig með raftinum –

Margir.

Burt með hann Jón!

Gabríel.

Well – yes – hér er útsæði, Ameríka.
Það má eitthvað gera við maskinu slíka.

Auðunn.

Þegar þeir drógu' út þann dólg og sel,
þá datt af mér steinn, séra Gabríel.
En segið oss enn meir um þjóðir og þing.

Gabríel.

Ég þar um heldur eitt kvæði syng.

---

## III. VESTURHEIMUR ER HERLEGT LAND.

Vesturheimur er herlegt land,
herrar góðir,
eilíft geymir þar ástarband
allar þjóðir!

þar er bjart fólk og þar er grátt,
þar er bröndótt;
þar er svart fólk og þar er blátt,
þar er röndótt.

Þar er franskur með fjörugt blóð,
Finnur, Prússi,
þar er danskur með Dofra þjóð,
digur Rússi.
Hval og ljón fá þar lýðir séð,
lamb og kola,
þar er Jónatan jafnan með
Jóni bola.

Þar er húmbúkið þétt og ótt
þæft í myllum,
yfir rúmsjúka rekka skjótt
rignir „pillum“,
þar er báglega breytin trú,
Brahmín, kristinn,
vinur Mahómeds, Mormons hjú,
Mat'ríalistinn.

Þar er daglega þingstríð háð,
þar er fjörið,
þar er haglega höndum kljáð
hvert eitt kjörið.
Margur gleymir við glæpa kró,
Guði og Liscó.

þar sem dreymir við syndasjó
San Fransisco.

Þar er alt saman sætt og súrt,
sem má hugsa,
þar er falt gaman, alt, já alt,
utan slugsa.
Komið, grannar, of svalan sjá,
siglið vestur,
brúðir manna með börnin smá,
bóndi' og prestur!

---

## ÚR JÓNI ARASYNI.

### I. MARÍA, MEYJAN SKÆRA.

„María, meyjan skæra,
minning þín og æra!
verðugt væri' að færa
vegsemd þér og sóma,
soddan sólarljóma.

Kór.

:|: Þú varst ein, ein, ein, :|:
þú varst ein svo helg og hrein
hæstum vafin blóma!

Blessun meðal manna,
matróna englanna,
fæddir frelsarann sanna,
frið gemona pólórum[1]
gloria sanctórum.[2]

Kór.

:|: Þú ert blóm, blóm, blóm, :|:
þú ert blóm með blíðan dóm
og björgin miserórum![3]

María, móðir skæra,
meyja blóm og æra
mestu mærð skal stæra,
mater gloriósa[4]
drotning allra drósa!

Kór.

:|: Fanstu náð, náð, náð :|:
fanstu náð yfir lög og láð,
lifandi Drottins rósa!«

---

1) Gimsteinn himinsins.
2) Sómi dýrðlinga.
3) Nauðstaddra.
4) Móðirin dýrðlega.

## II. ÞEIR TÓKU HANN BLINDAN.

Þeir tóku hann blindan í sinni sæng,
og sögðu hann kóngsins fanga;
í síðri skyrtu hann settu á bak;
þá svall honum tár á vanga,
áttræður hlaut í útlegð sína ganga.

„Takið þér jarðir, takið gull,
takið mín ígangsklæði,
minn biskupsstól og mín blindu tár,
og berið þér alt að græði:
en beinum mínum bið ég um grið og næði.“

„Því síðan mér blessuð sólin hvarf,
sárast mitt land ég þreyi, —
Kristur mun ráða kirkju sín,
en kalt er á heljarvegi,
mín gömlu bein í burtu flytjið eigi.“ —

Hún Ásdís bað fyrir undir Krists
með agnus-dei[1] í hendi.
Þeir gripu það „lamb“, og glottu um tönn;
en grátlegast til hún kendi,
er upp á Kambinn augunum síðast rendi.

„Farðu vel, sól og sumarljós,
og sigur þinn, kristnin fríða!

---

1) Guðslamb (ɔ: nisti.)

Ef enginn hefnir, er enginn guð,
og ei er til neins að stríða:
Dunar á söndum dómur vorra lýða.“ —

---

### III. SÖNGUR JÓNS ARASONAR.

Frá Horni til Horns lá vor feðra fold
í fjötrum og ánauð og lýgi;
vor kirkja var sliguð og krept í mold
af kúgarans útlenda þýi;
öll þjóðin kvalin frá kjarki og von —
nema karlinn, sem heitir Jón Arason.

Kór.

Oll þjóðin kvalin o. s. frv.

Hann sór við sitt höfuð að hefja rögg,
og heimti sinn trúlynda skara,
Og lýgin og frekjan fékk liðmannleg högg,
og Lassi varð sneyptur að fara.
Nú liggur brotin hún Babylon.
nema Bösewicht og hann kotungsson.

Kór.

Nú liggur brotin o. s. frv.

Vér Norðlingar sýndum, hvort aldauða er
hinn íslenski fornkappa dugur.
Ránfuglasægurinn rauk út í ver,

sem rjúki' undan hauststormi flugur.
Nú fagnar alt Ísland með auðnu-von,
utan einn, og sá hálfgildi kotungsson.

Kór.

Nú fagnar alt Ísland o. s. frv.

Með sverð yfir höfði ég sigraði' í dag,
og sælustu stund hef ég lifað.
Og gugnir þú, land mitt, við lífskjara hag,
þá lít, hvað í dag ég hef skrifað.
Og dofni þér kjarkur, og kólni von,
þá kallaðu' á gamla Jón Arason!

Kór.

Og dofni þér kjarkur o. s. frv.

---

### IV. HAFIÐ RAUÐA, HYLINN DAUÐA.

Hafið rauða, hylinn dauða
horfi ég á, en lækkar sól.
hálfnuð er öldin,
húmar að kvöldi,
húmar að kvöldi, en fækka skjól.
Hafið rauða, hylinn dauða
hyllir undir við Tindastól.

Sólin stígur, sólin flýgur
svimandi hátt á ljóssins braut;

eftir það hnígur, — gín þá við gígur, —
gín þá við gígur með blóðugt skaut:
maðurinn stígur, maðurinn hnígur,
móður og sár af lífs síns þraut.

Mest þá viljum minst vér viljum,
máttug er sál, en breysk er hönd;
hlaupandi' á hjóli, hnígum af stóli —
hnígum af stóli, er vendir rönd. —
Hleyp ég á hjóli; hvað mun að skjóli? —
Hjálparskjólið er Drottins hönd.

---

## ÚR HELGA MAGRA.

---

### HELGA-FLOKKUR.

Geiri skáld.

Hér skal stef stæra,
stilli brag færa,
háttu hljómskæra
hinum vegmæra.
Herjans hásyngi
hróðrar glymkyngi,
rík at rómþingi,
Ragnars afspringi!

Heilsar hregg-njörðum
Hnikars malgjörðum,
Sjöfn og seimjörðum
sveinn af Vestfjörðum.
Hefik Hjörs kundi
(hrósak vígþundi)
fylgt at fjarðsundi,
frægstum Hámundi.

Sit þú heill, sjóli,
sæll í týskjóli,
Grettis glæbóli
gæddr á vegstóli,

rekkr hinn ráðvandi,
rétt lög setjandi,
bygðar blómgandi
beztr á Íslandi!

Hrósak hrynslætti
hildings kynþætti
óska' at slíkt ætti
jöfra fjöld mætti.
Menn hafa í minni
með móðurætt þinni
réðstu' hinn ráðsvinni
ríki' í Dýflinni.

Ungr á Irlandi
út frá glósandi
léztu beitt brandi
búinn stálgandi.
Réðstu róg meyjar
ríki Græneyjar,
græðir geirþeyjar,
gæðir hafleygjar!

Frák at glym glæddu
gumnar hervæddu,
ríkri gjöf gæddu
gögl hin svartklæddu.
Gekk at geirþingi,
glatt var dögglingi,
hátt við hlymringi
hvein í bæsingi.

Brann þér brámáni
bjart hinn haukfráni,
örn hinn gran-gráni
gall of valráni.
Buðu boð Snerri,
ben gjörðist verri,
laugst þá logn knerri,
hjá Londonderri.

Hjóstu þá, Helgi,
Herjans várbelgi
(Fráka varg velgi
við þótt ná svelgi).
Fram í stafn stefndi
stillir afremdi,
frák hann frægð efndi,
þá er föður hefndi.

Hrannir hereyja
hlýri valmeyja
(sá lét glamm geyja)
girti mergð fleyja.
Skein þá skozkt veldi
Sköglar hræeldi.
Getka grið seldi,
sá er Gjómal feldi.

Drúptu dýrgotar,
drupu brár votar,
sárt er sáttbrotar
sviku Rauð, Skotar.
Gall þá Hárs hani,
hló þá Niðgrani;
féll sá fjörvani
er varð fimtán bani.

Stóðstu ógn stranga
stundu fár-langa,
lézt svá lið ganga
loks á biftanga;
harðr ok hreggsleginn
hleyptir brimveginn,
glaðr ok friðfeginn;
fylgdi þrymregin.

Skein í byr blíðum
bragning herfríðum
land með haghlíðum
hátt at tveim síðum.
Sungu hljómhættir,
hrinu strengþættir,
léku landvættir
láðs við dyrgættir!

Friðar frægð byrjar,
fölnar iðn styrjar,
rosti randþyrjar,
reykr ok glóð hyrjar.
Fékk sér bólfestu
fylkir hagmestu,
fylgdu langflestu
forsagnir beztu.

Fór frækinn eldi
fjarðar námveldi,
gaf svá ok seldi
seggjum landspeldi:
Þengli þjóðhaga
þú bauðst átthaga,
þín sótti saga
Svarfað og Saga.

Frægðarmenn fleiri
(fyrðar enn heyri)
gyrta ramgeiri
gædduð landeyri.
Örn ok Túnhana,
aldri févana,
Þursa þrábana,
Þorvald ok Hrana.

(Til Hámundar.)

Stóð hinn styrkunni
stáls hjá gnýrunni,

heitinn Hörgunni,
Helga knérunni;
hrósak Hjörs megi,
honum finst eigi
maðr á marteigi
meiri' á hervegi!

(Til Þórunnar.)

Þik skal þá mæra,
þú hin bráskæra
fríða, frábæra
faldagná kæra.
Kantu bezt binda,
brúðr hin torfynda,
giftu gull-linda,
grandi brott hrinda!

Sék í hóp hýrum,
horskum, svipskýrum,
svanna' í sal dýrum
sex með tveim hlýrum.
Sem þá blys Braga
blikna' um sólhaga,
sýnist kynsaga
Snælands hér daga.

Sit nú heill, svanni!
sanngöfgum manni
sé ek með sanni
sól ertu' í ranni!
Þér skal, faldfreyja,
fremd ok lof segja;
fylli fjörð eyja
frægð Ketils meyja.

Sit nú heill, Helgi!
Hrós ek fast telgi,
þótt við bjarg belgi
brim, ok jörð svelgi!
Þúsund ár inni
á hjá þjóð sinni
(mín þótt ljóð linni)
þitt landnámsminni!

Lifi svá lengi
láns í byrgengi
Helga hróðvengi,
hús ok afsprengi,
meðan lands mengi
meta kann drengi. –
Stöðvak lofstrengi;
slíta skal þá engi!

---

Auðólfr.

Sigldum vér lengi
svalar brautir.
Hefik aldrei sét
höfn svo fagra.

Þórhildr.

Þér vil ek þreyttum
með þýðri hendi
bekki strá
og bólstr reiða!

Þorgeirr.

Betra tel ek þik,
brúðr at vinna,
en gullhauga
á Galdralandi.

Hlíf.

Þér vil ek, Þorgeirr,
þrávalt unna,
og gæfuþráð
úr gulli tvinna!

Gunnarr.

Nú hefik Borgarhjört,
brúðr, unnið;
tel ek þá giftu
gulli betri!

Þóra.

En sem lyngormr
ljúfar ástir
skulu búr okkart
beggja verja!

Hrólfr.

Gróa mun Grund
at Gnúpufelli;
halda munu hlut sínum
Hrólfs kynrunnar!

Kona Hrólfs.

Kenna mun ek dætrum ok sonum mínum
dygð at rækja sanna hreysti!

Ingjaldr.

Þróast mun Þverá óðals öndvegi
ok þykja frægast Eyjafjarðar.

Kona Ingjaldar.

Frami fróðleikr eiga mun þar skjól,
ok fræði guða, meðan aldir renna!

Hámundr.

Hafin er Hálfsrekka auðr ok óðul
heill at nýju, at Espihóli!

Ingunn.

Þar munu lengi vorir kynkvistir,
með limi gróa Krists í skjóli.

Auðnnn.

Vorar munu, Helga, fyrstar ok fremstar
verða ættir í firði þessum!

Helga.

Ok Auðuns kyn hróðr ok heill
Íslands bera á herðum sínum!

Þórunn.

Signdu nú sjálfr,
sólarjöfurr
börn vor ok buru
ok bygðir allar!

Helgi.

Nú tel ek unnit,
en aldir meti
hlutverk Helga ens magra;
lagt höfum vér hornstein
sem oss heill til vanst
ókominna alda.

Sjálfum sér vinnr
sá er vinnr öðrum, –
orðheill nemi niðjar! –
Dyggvir niðjar
ok dætur horskar,
eftir er nú yðvarr hluti! –

Litlu orka
ýta synir,
nema framsýni fylgi;
hóf ok hagspeki
skyldi hverr sá kunna,
er starfa vill landi ok lýð!

Æðri öfl
en eigin máttr
fylgja réttu ráði;
þúshundruð ár
veita þingfylgi
hveim er heimslögum hlýðir.

Fjörð minn hinn fagra
kveð ek svo fullnuminn
ok landnámi lokit.
Bæti nú vort starf
ok blessan krýni
hæstr himnaguð!

# V. ÞÝÐINGAR OG STÆLD KVÆÐI.

## LARS KRÚSE.[1]

Eftir Holger Drachmann.

Hann var knálegur maður, kyr í lund
og karlmenni' í sjón og raun;
þú átt fáa sem hann, mín fósturjörð,
en fleiri sem blása í kaun.

Hinir fá lof fyrir háa trú,
sem hefir hjá prestum gildi,
en trúin hans Krúsa veri þau verk,
sem vann hann og eftirskildi.

---

1) Lars Krúse var nafnkunnur sægarpur og formaður á Jótlandsskaga. Hann drukknaði í marz 1894.

Og settu' ekki' upp hattinn, séra minn,
þótt síginn sé kappinn í gröf, —
hann galt sinn skatt í hann Skagasjó
í skuld fyrir marga gjöf. –

Minn vinur og hetja, sof nú sætt
á sandbalans hörðu dýnu,
og Gýmir kveði þér gamanljóð
með gamla laginu sínu!

Þá dreymir þig síður dagsins klið
um dáðlitla vanaþjóð,
þar „Náð“ og „Ráð“ eru mörg sem mý,
en merginn skortir og blóð.

Þar eins er fátt um forustu menn
og frjóu túnin á Skaga,
en Drottinn á nóg af feitu fé
með fullan og drembinn maga.

Þar maðurinn hefir sitt meðalverð
og meira þýðir ei grandið,
og fólkið er alt eins fallega jafnt
og flatt eins og blessað landið.

Og frelsið er sett í fuglabúr,
og flónið skín eins og sólin,
og dvergar komast í dæmissess
og dulur í hæsta stólinn.

Hvað varðar um það? hvað varðar hann Lars
þó vildum vér allir drafna,
hann sem lagði fram líf og blóð
að láta menn ekki kafna?

Hann kærði sig lítt um kirkjulög,
en kreddu þá lét sér gilda,
að hjálpa eins fúslega hafri og sauð,
ef heimtaði hvers manns skylda.

Hann lamdi brimið og tók sitt tak
í Tyrkjann alt eins og kristinn,
og þegar það tókst, ei þuldi hann bæn,
og þar við endaði listin.

En lík hins dána hafði hann heim,
svo hér kæmist alt til skila,
og sjálfur hann horfði á söng og gröft, —
og svo gekk hann heim að spila.

Nú sefur hann Krúse kyrt og rótt
hjá kumpánum sínum völdu,
hin stinnasta hönd og sterkasta sál,
sem stríddi við Rán hina köldu.

Svo sígur hún á hin seiga Hel
unz sundur er lífsins þráður;
nú sefur hann Krúse kyrt og rótt,
en Kólgan vakir sem áður.

En skyldi hún Rán honum gefa grið?
þau greindi svo lengi á,
hann lét hana missa svo marga bráð. —
Hvað murrar frá djúpinu blá? —

Í vetrarhríðum um napra nótt,
er náirnir blunda í ró,
þá vaknar hann Lars við voðahljóð
og veinin frá Skagasjó.

Þá verður í kistunni karli þröngt
og karar- ei hægur- blundur,
upp! hann vill út! og sér lyftir upp lík,
og lokið og gröfin í sundur!

Það er komið við lokur, og kona hans sér
hvar kemur hann hægur og stinnur,
og hettuna bindur á höfuð sem fyr —
til hræðslu hún alls ekki finnur.

Hún átti hans von, og því sér hún hans svip,
í særokið haförnin starir:
hún heyrir til fullhugans: „Hafið alt til,
og hrindum út! Verum nú snarir!“ —

Því sálin hans vekur upp Hjaðningaher
á hrjóstugri Skagverjaslóð,
svo dálítið lyftist hin lággerða storð
og lifnar hin kjarklausa þjóð.

---

## TIL ÍSLANDS.

**Úr leiknum Hallfreður Vandræðaskáld eftir Holger Drachmann.**

---

Í öllum löndum og álfum
er etið við sama borð.
Vér lifum á bókum og blaðri,
og brauðið er merglaus orð.

En kringum oss gnæfa kirkjur
og krær og bankar og þing,
og auður og ógnar kynstur
af örbyrgð og svívirðing.

Vér svitnum og sýtum og dæsum
ef svíkur oss gróðinn beinn;
vér hömumst með heljarstriti,
en hversvegna? það veit ei neinn.

Og flestir vér segjum hið sama:
þú sjóðandi maskínu baks,
ef alt á að enda með skelfing,
því endar það þá ekki strax?

---

Svo greiðið þá seglið, sveinar,
nú set ég út miðjan fjörð,
því flatari' og flatari gjörist
nú foldin, vor gamla jörð.

Upp voðir og vindið á húna,
ég völinn tek sjálfur í hönd
og látum svo Gamminn geisa.
Ég gista vil Íslands-strönd.

Þar situr hún gamla Saga
og syngur um fornan þrótt;
þar lýsir hin logandi Hekla
svo ljómar hin þrúðuga nótt.

Við eld sinn í öndvegi situr
alein hin göfuga snót;
um hvarmana geislar glitra
sem gnesti við hjálm og spjót.

En sjáirðu djarft í setið,
er sjón hennar hvöss og stygg,
þá finst þér hann Geysir gjósi,
í gegnum þinn bilaða hrygg.

Hún bregður upp hörðum höndum,
þá hýrnar á arni glóð,
en höllin dunar af hergný
og hamrömum jötunmóð.

Á hjarni til húss er gengið;
á hvítu sjást dreyrug spor,
þar marrar í harðri heiðni
og hlunkar við grimdar þor.

Þar ýrir úr drífunni dreyri,
og djúpunum rísa frá
þær kempur, sem gátu kappa,
og konur, sem ólu þá.

Þar vörðust þeir Vanir og Æsir
og vildu' ekki ganga úr kór.
Hver svanni var Sjöfn eða Freyja,
hver sjafni var Freyr eða Þór.

Þar skiftist á högg og hending
og hlátur í þraut og neyð,
þar hatast þeir menn, sem hata,
og halda trúnað að deyð.

Þar greru þær gömlu frægðir,
sem geymt hefir norrænt kyn,
að fella með rögg sinn fjandmann,
og falsa' ekki góðan vin.

Því komum, oss kallar Saga,
og kveykjum vorn hreystiþrótt,
þar hverinn hvæsir um daga,
og Hekla logar um nótt.

---

## RÓBERT BURNS.

Eftir Holger Drachmann.

---

Sá gjögurkarl, sem gnæfir yzt
með gráan þokumöttul sinn
og hálands svip og hrím á kinn
sem hafnar-„lóss“, sem erkidjákn,
  sem aldinn methóðist:
hann heilsar mér með glettið geð
og glaumur rís í fuglaþröng,
ég heyri fornan Hálands söng,
og hafið raular með.
Og það er lista-þjóðarlag,
svo þýtt og ljúft og næmt og skýrt.
Og Robert Burns þann bjó til brag,
sá bragur er hans líf og sál
og dáðar afrek dýrt.

Hin fríða miss, er tifar teit
um tízkufágað Prinsess-street,
svo grönn og há og hörundshvít,
með hýru-bros, en með það fas,
  er fegra hvergi' ég leit:
hún kveður oft í systra sveit
með svanarómi dýran óð,
og það er Hálands ljóða-ljóð,
sem ljúfari' enginn veit,
þar hrynur Skotlands hjartaslag

og „Hálands-stúlkan“ kallast það.
Þann orkti Róbert ástarbrag
er önd hans brann og sárast fann
þann hreim, sem hjartað kvað.

Ég lotinn verkmann sveima sé,
nú sezt hann inst í mjaðarkrá,
og hristir fargið herðum frá
og heimtar ljós, og máske meir
en holt er heilsu' og fé.
Hann stillir raust við stefjamál,
og staupasveitin þekkir brag,
og það er Hálands ljóðalag,
sem leysir bundna sál.
Þar hrynur lýðsins hjartablóð
sem heilsulind frá bjargsins rót;
og Robert Burns þann orti óð
með eld og fjör. Um auðnukjör
sá kappinn hirti' ei hót.

Þú minnisbákn, sem bendir lýð
frá breiðu torgi' í stoltum bý!
þar nemur Valtari Skott við ský, —
en stafinn steinn, þó fagur sé,
hann fölnar þó um síð.
Það merkið hlaut ei svanur sá,
er söng hinn bezta Skotlands óð,
en það eru' fólksins ljúflings ljóð,
sem lengstum hróðri ná.

Og þjóðarandans eigið lag,
sem engin mentun sá né fann,
það lagið setti Burns við brag;
að byrla' í óði lífs og blóð,
gat enginn einn sem hann.

Minn hjartans-Robert, hér og þar,
í höll, í sveit, í drykkjukrá,
í dölum fjalls, á heiðum há,
ég hitti þig, ég leik við þig
sem lagsmann alstaðar:
Um morgunskeið á skipsins fjöl,
er skerjabúar lífga ál,
ég raula Skotlands munarmál,
og með mér aldan svöl.
Og það eru' fólks þíns ljúflings-lög
svo lipur, djúp og næm og sterk;
þau kendi, Burns, þín harpan hög.
Og heill þeim lýð, sem átti mann,
er vann það afreksverk!

Ég senda vil þann söng i land, —
þar situr karl við stýris-ár,
með veðurbitnar víkingsbrár
og volkað hár, sem freyði hrönn
og falli' á bleikan sand:
Hann raular stef úr sjómanns söng
og söngsins undir tek ég lag,
þá hýrnar karl við Hálands brag

og herðir raddar göng.
En þá hann kvaddi knarrar stafn
og kveðju mína fékk af skeið,
og Burns mér varð að nefna nafn:
mér nálega' sýndist renna' upp sól,
því skin yfir landið leið!

---

## VÍKINGA-LJÓÐ.

Eftir Holger Drachmann.

---

Dimt hér í Orkneyjum rymur hún Rán
við rjúkandi brimsuðu-gjár,
hún stynur og drynur um aldir og ár
hvert Ægir sefur með feldinn blá'n
eða hamast hann hvítur og grár.
Hræfuglinn glymur um sjóðandi sogin,
sveiflar sér niður, og burt er svo floginn
til hafs eða hátt inn til lands.
Ó, hver sem ætti sér skjaldaða skeið,
og á skeiðinni stórthundrað manns!

Sem Skarphéðinn skyldi hver garpur minn ger
og sem genginn þeim hömrunum úr;
þeirra rödd yrði hergnýr í hrakviðra skúr,
cg um hafið sem máfar þeir léki sér,
sem ernir við meitilbergs múr;

þeir berðist sem hetjan frá Hlíðarenda
og hlypi' eftir árunum skipið á enda,
og leiftruðu' í bálviðri brands.
O, hver sem ætti sér skjaldaða skeið,
og á skeiðinni stórthundrað manns!

Þá skyldum við drekanum stefna frá storð
og strandhöggin hlífast ei víð,
þó að bleyðan og sælkerinn bæði' oss um grið;
en þeim bændunum þyldum við frjálsmannleg orð,
meðan stórlaxinn fengi' engan frið.
Þá kongana hérna, sem vasast í völdum,
við víkingar spyrðum með rómi köldum:
Eru þið eða við yfir lögum lands?
Ó! hver sem ætti sér skjaldaða skeið
og á skeiðinni stórt hundrað manns!

Þá skyldu þeir blessaðir blása í kaun,
sem belja' um þá „eilífu pest",
og einurð og frjálslyndi misbjóða mest,
þá mundi' ekki vanta sín skaplegu laun
neinn helvítis-hótunar-prest.
Yfir heimskunnar sauðum að hringja til tíða
til Hvergemlis skyldi' hann í loftinu ríða;
en við upp í valkyrju-dans!
Ó, hver sem ætti sér skjaldaða skeið
og á skeiðinni stórthundrað manns!

Dimt hér í Orkneyjum rymur hún Rán
við rjúkandi brimsuðu-gjár;
hún stynur og drynur um aldir og ár,
hvort Ægir sefur með feldinn blá'n
eða hamast hann hvítur og grár.
Þér Frónbúar, Svíar, þér Doframenn, Danir,
því dóu' ykkar skínandi herfara-svanir?
Nú þrotinn er þróttur hvers lands. –
Ó, hver sem ætti sér skjaldaða skeið
og á skeiðinni stórthundrað manns!

---

## ÚR „RITOURNELLER“

Eftir **Emil Aarestrup.**

---

Í viku var á virkið sótt og skotið;
en vikuna' eftir sýndist liðið þrotið,
þá hleypti' hann inn, – en hliðið var þá brotið.

Í kirkju heyrði' ég hrúta suma skera,
og heldur fanst mér daufur Jón minn, séra,
en hjá þér, snót, var himnaríki' að vera.

Að finna lítinn látúns hnapp
er langtum meira sæmdarhapp
en sætið hjá honum svika-Hrapp.

Yfir mér látnum stillið hörpustrengi,
en stein á leiðið velti maður engi,
stein fyrir brjósti bar ég nógu lengi.

Nei, bíddu hæg! Í birkirjóðri þessu
ég breiði þér úr föllnu laufi sessu,
á meðan við Lofnar syngjum sálumessu.

„Ekki' er hann fríður, fauskurinn sá arna,
en faðir er hann minna veslings-barna,
því satt er það, að engum alls má varna.

Og sakir þess er enn þá hjá mér ylur,
þó annað sé sem brjóstið – hjartað – dylur:
Æ, þungt er lífið, — þeim er nóg sem skilur,

Því milli okkar – hérna' að segja' – er hylur;
ég hugsa fleira' en tungugreyið þylur.
Ég vil, en má ei, – veit, að þú mig skilur.“

Svo greindi sú, er gaf mér undir fótinn,
en gylti meir en þurfti vegamótin,
ég þagði við -- og þáði' ei blíðuhótin.

Þú segir: „Þessi mælgi má sig missa.“
Er manni nær að þegja' og standa hissa?
Ég hélt þú værir kominn til að kyssa?

Ellefu börn þú ólst á hjónadýnum
og ekkert þeirra líktist manni þínum,
þó svipinn hafi flest af föður sínum.

Nei, sleptu vinur, vertu' ekki' að því arna,
þú veizt, hvað sæmir ekkju' og móður barna. —
En — vildirðu' ekki skoða skóginn þarna?

Að kalla' hann fríðan! hann sem hefir vörtu
á hægri kinn, á miðju nefi körtu,
og var svo lengi lofaður henni Mörtu!

---

Ég þekki' ei tál í þinni sál
þó þegir löngum;
mér svarar bál á báðum vöngum
með blómsturmáli' og ljúflingssöngum.

---

## KVENNA-LJÓÐ.

Sbr. Frauen-Liebe und Leben eftir A. von Chamissó.

---

I.

Sá ég sveininn prúða,
síðan er ég blind,
hvar sem augað eygir
eina sé ég mynd.

Dag og nótt mér dillar
draumur logaskær,
sem í mesta myrkri
mesta birtu ljær.

Annað alt í heimi
er sem vafið reyk,
ei ég sé né sinni
systra minna leik.

Helzt ég heima þreyi
hljóð við táralind;
sveininn sá ég prúða,
síðan er ég blind.

---

II.

Hann, það mikla yndis yndi,
ó svo fríður, stór og hár,
fagurmyntur, fránn í sjónum,
frjáls í lund og hreystiknár.

Þarna stafar hæst í hæðum
heilög stjarna blíðuskær;
eins á mínum hjartans himni
hann er stjarna, dufti fjær.

Líð þú brautu, ljúfi, þína,
ljómi þinn er meir en nóg,
alla lotning áttu mína,
yndisþrá og sorgarró.

Heyr ei mínar hljóðu bænir,
heilla þó að árni þér,
auðvirð mær ég á þig mæni,
undurljós! og feiminn er.

Einungis hin allra bezta
er þess verð að njóta þín;
hana sæla segja skyldi
sífeldlega tungan mín.

Hátt ég skyldi hlægja' og gráta
henni gefin þá þú ert,
þó af harmi hjartað springi, —
hjartað mitt er einskis vert.

---

III.

Ég skil ei, það tekur ei tali,
mig töfrar víst draumur einn:
að mig vilji eina eiga
sá unaðarmæri sveinn.

En hefir hann samt ei sagt það:
„þú sérð' ég er orðinn þinn.“
Það var! Nei, ég veit þó eigi,
því viltur er hugur minn.

Ó, að ég dæi í draumi
við dýrasta brjóstið hans,
og óminnis ölið tæmdi
í örmunum þessa manns!

---

IV.

Þú hringurinn hjarta kæri,
á hönd minni sem ég ber,
ég bregð þér að bifandi vörum
og ber þig að hjarta mér.

Minn bernsku draumur var búinn,
sú blíðasta lífsins tíð,
og hugsjúk ég horfði í bláinn
á heimsins logandi stríð.

Þú hringur minn hjartakæri,
þú hefur mér fyrstur kent,
og fyrstur opnað mín augu
fyrir alheimsins lifandi ment.

Með hugást ég héðanaf lifi
við hjarta míns eigin manns,
ég fel honum alt mitt frelsi
og fyllist af ljósi hans.

Þú hringur minn hjartakæri,
á hönd minni sem ég ber,
ég bregð þér að bifandi vörum
og ber þig að hjarta mér.

---

Heiðrið hann, systur,
hýrustu blómum,
dýrstu rósum, sem Drottinn skóp.
Svanmæru systur,
sorgblíðri lundu
kveð eg elskandi yðar hóp.

---

VI.

Elskan mín, með undri
á mig starir þú;
þér má ekki þykja
þó ég tárist nú.
Lát þær litlu perlur
líka sóma þér,
langar þær að leika
ljúft um hvarma mér.

Hví er hrætt mitt hjarta?
hví svo gleðiríkt?
Ef ég aðeins gæti
orði málað slíkt!
Kom og höfði halla
hér að brjósti mér,
alt mitt dular-yndi
eg vil hvísla' að þér.

Vissum merkjum manna
mig hef'r eftir spurt,
síðan int frá öllu,
ekkert látið kjurt;
hvíslað mér í hljóði,
hvað nú standi til:
alt um — alt um vöggu
eftir nokkurt bil!

Því er hægt að þýða
þögul tárin mín;
lofa þú mér, ljúfi,
líka' að horfa' á þín.
Hallast við mitt hjarta,
heyr þess leynispil,
enn þá meira yndis
eg svo finni til.

Hér við höfðalagið
hef ég vöggurúm,
þar má hjóna hnossið
hýrast dag sem húm.

V.

Búið nú brúði,
brosmildu systur,
nú skal fagnaðar faldinn kljá;
hóglega hnýtið
hreinmeyja kransinn
myrtus-laufanna mér um brá.

Brosti ég bundin
blíðvinar örmum
heyrði' ég ástanna yndislag.
Elskhugans hjarta
heyrðist mér stynja,
sífelt þráandi þennan dag.

Hjálpið mér, systur,
hjálpið að lóga
þessum kvíðandi brúðarbeig;
skal ei með björtum,
brosandi hvarmi
heilsa gleðinnar guðaveig?

Líti' eg minn ljúfvin,
lifnar mitt hjarta;
brostu, sól mín, og send þitt skin!
Eg vil í auðmýkt
undrandi hneigja —
öll þér hneigja, minn hjartans vin.

Senn er Drottins dagur, þegar báðum brosir
draumsins mark þá skín, blessuð myndin þín.

---

VII.

Að hjarta mínu, ljúfa ljós,
þú lífs míns sól, og munar-rós!

Vort líf er elska, elskan líf,
vort æðsta hnoss, vor bezta hlíf.

Ég þóttist áður eiga gott,
en æðri sælu nú hef vott.

Sú ein það finnur fult og ljóst,
er fyrsta sinn á jóð við brjóst.

Hvað elska sé, og að eiga gott,
veit ein sú snót, sem þess ber vott.

Ég aumka hlýt hvern menskan mann,
að móðurgleði' ei njóta kann.

Það brosir, sko! sem babbi sinn;
ó, blíði hjartans engillinn!

Að hjarta mínu, ljúfa ljós,
þú lífs míns sól og munar-rós!

---

VIII.

Að horfa' á þig, að hylja þig,
minn hjartans-ver!
Í fyrsta sinn þú særir mig
og sundursker.

Ég stari ein á auðan geim,
og ógnar-tóm.
Nú sé ég genginn gleðiheim
og græt minn dóm.

Í öndu mína inst ég flý
við auðarþrot;
þar lífa kolum lífs míns í
mín lukku-brot.

---

IX.

Dagar minna drauma.,
dóttir kæra mín,
flýja mig, en finna
fósturhúsin þín.
Enn þá sumarsólin
signir þig, mín snót;
fyr en fölna skjólin,
fjörs og yndis njót.

Horf á silfurhárin,
hausts er byrjuð tíð;
þín ég átti árin,
ung og glöð og fríð;
eins og þú ég unni,
átti þýðan svein;
að sama berstu brunni,
breytt og hreld og ein.

Láttu tímann líða
lagða skeiðið sitt,
geymdu, barn mitt blíða,
bezta gullið þitt.
Hvað sem kostar kífið –
kvað ég alla tið –
elskan ljúf er lífið,
lífið elskan blíð.

Ann ég þeim ég unni,
aldin þó sé nú,
hjarta, hug og munni
honum var ég trú.

Sárt þó sorgin félli,
sálar fékk ég ró,
nú er nálæg elli,
neistinn lifir þó.

Enn þá sumarsólin
signir þig, mín snót,
fyr en fölna skjólin,
fjörs og yndis njót.
Komi síðan sárin,
sértu þolinmóð,
góðu trygðatárin
treyna lífsins glóð.

---

## ÖRVINGLAÐI MAÐURINN.

Eftir A. Tennyson.

Ert það þú, sem bál og bruna
boðar hér við sandana,
eltir mig, sem aldrei skyldi,
og upp mig dróst við grandana?

Hvað ég hugsi —? hvort ég viti —?
hver er von ég fræði þig?,
Ótilkvaddur, ófyrirsynju
upp frá blundi reifst þú mig.

Þrjá hefi' ég síðan setið daga
sólarlaus og beðið hels,
allri værð og elju sviftur
undir tjaldi fagrahvels.

Drottinn Guð! sú nóttin, nóttin —
nóttin út á granda þeim!
Vitaturnsins glyrnur glórðu
græðis út í næturheim;
út við stefndum, út til vitans —
oss er sagt, hann gefi líf
ótal sálum, voða-villa,
að vilja lengja þetta kíf!
Þetta bjó mér hljótt í huga.
Hver er bót að taka land:
„Þóttú ótal þúsund frelsir,
þeir fara' allir samt í strand!"
„Hikar þú?" mér heyrðist óma
hægt og dimt við sundin breið,
„ég er hjá þér, hræðstú eigi,
hræðstú líf en ekki deyð!"

Milt frá stjörnu björtum boga
brosti himinljósa fjöld,
vonarljósin — löngu orðin
lygatákn á vorri öld.
Hitt mun satt, að sólir kringum
sjónlaus reiki þeirra jóð,
bundin ógn og auðnuleysi,

eins og vér á heljarslóð;
engin sál og ekkert hjarta;
ó, þú blinda regindjúp!
heljar-skrá með logans letri,
lífsins sorg og dauðans hjúp!

Fræðin mín frá æskuárum
orðin voru köld og þröng,
og ég þráði þetta nýja,
þennan frjálsa vizkusöng.
Þar sem unga sannleikssólin
svæfði gömul næturflögð,
þar sem trúin elliærða
yrði bráðum kistulögð.
Kristi, vorum bezta bróður,
beiskast var að hverfa frá;
en hafi' hann kent það heljar-víti,
honum enginn trúa má.

Dagur rann, — ef dag skal kalla, —
dagur, sá er líktist hefnd:
hvergi minna húm og rökkur,
heitin voru' ei betur efnd!
Eldstólpinn var orðinn þoka
eiturköld í brjósti manns,
Drottinn gáta maðks í moldu,
magur skuggi drauma hans.
Maðkur segi' ég, sem hinn sterki,
sundrar, mer og ber á glóð,

maðkur einn, og víst hans veröld,
veröld full með kvöl og blóð.

Ó, vér feigu, föðurlausu,
flækingsbörn við reginhaf,
sjónlaus ól oss allra-móðir
og í draumi sál oss gaf.
Vonin um að eilíf aldin
yrðu jarðar hrakin blóm,
hún er dauð og öllu orpið
undir blindan skapadóm.
Aumkvið þér mig? Kals og kuldi!
Kenning þína heyrði' ég fyr:
man ég yðar miskunnleysi,
man ég yðar þröngu dyr;
man ég söng um bál og bræði,
bölvan Guðs og vítisheift,
sem í trúlaust heljarhungur
hefir mér og öðrum steypt!

Aumkun, sú er heiðnin hatar,
hún var rík hjá okkur tveim.
Hver vill stilla storm og kvalir
stjórni Guð ei þessum heim?
Aumkva verður alt, svo mýkist
eitthvað þetta heljarstríð,
aumka verðum vér oss sjálfa,
viti fjær er rúm og tíð;

aumka hvað sem anda dregur
auðnu svift um jörð og sjó,
manninn, manninn mest af öllu
meðan vantar frið og ró. –

„Beint í sjóinn!“ svanni mælti,
„suðar frammi lónið kalt;
þetta líf er voðans voði,
vélar, hörmung, – burt með alt!“
Höndu lagði hrund í mína,
hún var ávalt gæða-snót,
gekk svo fram, unz lagar löðrið
lék sér hvítt um okkar fót.
„Guð“, ég sagði, glögt þó vissi
gálaust væri' að nefna það,
„Guð“, og kystumst grátin lengi –
gátum varla skilist að;
því við vissum, ástin er ei
eilíf, þó að segið þér,
okkur kunn var efaspekin –
og hver dauði lífið er. –
„Guð“, en ef við hann svo hittum
hinumegin? — Jörðu á
aldrei Guð sá okkur mætti
eða gegndi himni frá.
Enginn bætir okkar trega:
út því, út, þó dimm sé Hel:
„Vertu sæll um eilífð, eilífð,
eilífð, eilífð; sofðu vel!“

Aldrei heyrðist óp svo napurt
  í frá byrjun foldar-ranns,
aldrei koss, sem dó svo dapurt
  degi frá hins elzta manns.

Þig bar að, er báran blinda
  bar á land mitt hrjáða líf;
engar þakkir þú skalt hafa,
  þú hef'r skilið mann og víf.
Aleinn hrekst ég hér á þurru,
  henni skolar kaldur ver,
væri vit að blóta' í bræði,
  bölva sáran skyldi' ég þér!

Æskan mín, — því upp til heilans
  óðar streymdu vötnin blá, —
æskan min kom aftur, fanst mér,
  andann gladdi sælu-dá.
Stutt og létt var kvöl að kafna,
  kom ei nærri þeirri raun,
sem ég leið er lífið, vitið,
  lífgaði' aftur sár og kaun.
„Lífið?" — Eftir son minn sekan,
  son, er tók mitt nafn og stal!
Guði' sé lof (ef Guð er til),
  að gröfin yngri dreng minn fal.
Bezt fór þó um barnið yngsta,
  burt sem hvarf og leit ei sól,
því það fór úr myrkri' í myrkur
  meðan fóstrið brúður ól.

Glæpur (sé til glæpur) okkar
glaða, röskva, elzta sveins,
hann var meiri' en mætti bera
móðirin þess augnasteins.
Hitt mér skilst, að skömm og heiður
skifti minstu lífsins rök,
mun ei jafnt að hefjast hátt,
og hengjast fyrir vissa sök?

En að hann, að hann mig feldi,
hörmung sú gekk fram af mér.
Átti' ég krenktur brauðs að biðja
böðla fjárins þar og hér?
Verða fífl með vitfirringum
vildi' ég forðast eins og morð;
og svo hún; en hún var búin,
hún var kjörin fyrir borð.

„Bíða?“ Til hvers? Þola, þreyja;
þar sem alt er svarta húm,
ekkert líf til eftir þetta,
eilíft bæði tíð og rúm?
Jörðin kólnar, rambar, reikar
ráðalaus um heljardjúp,
meðan lífið móðurlausa
mornar upp og fær sinn hjúp!
Unz hinn síðsti – síðsti ormur
sér, hvar teygir frændi hans
trjónu fram úr hinzta hausi
heimsins löngu dauða manns!

Er ég vitlaus? – ært mig hafi
eiturfræðin grimm og ljót?
Eðlilega; er ei tízkan
öll á flugi henni mót?
Uglan vælir öndverð sólu,
efi krunkar haugnum frá,
vizkusólin vitringanna
verpur blóði' á fold og sjá.
Vonin deyr, en „vissuleysan"[1]
villir sturlun hvar sem fer;
þó er „vissan" víst ei betri,
vissa sú, er kennið þér!

„Kalla' á Guð?" á kærleiksguðinn?
Kenninguna man ég vel:
Eilíf elska? eilíf ílska,
ef hann skóp það vítis-hel!
hann sem fyrirfram oss dæmdi,
fyrirsá vor eilíf mein?
Bjóð mér fyr þá blindu móður,
barns er aldrei heyrði kvein!

Gæti öndin aldrei dáið
yrði vítið hugsanlegt,
vonzkan mætti við það una:
völd sín, girndir, skömm og nekt.

---

1) ɔ: Agnosticismus ɔ: óvissuspekin, sem kend er við Huxley.

Eilíft víti, vitlaust þvaður;
væri, maður, Guð þinn til,
hefði elskan aldrei hugsað,
ógnir þær og voðaspil.

„Trúði? áður?“ Ójá, fyrrum,
að mér kom í sorg og neyð
ljós á bak við húm að hugsa,
himneskt skin á dauðans leið.
En Guð **þinn** og elsku-guðinn
aldrei rímast saman vel:
Bölvi, kvelji kærleiksguðinn
kvalaguðinn þinn í hel!

„Guðlast? þetta? Því þá ekki?
Þú vilt sjálfsagt frelsa mig.
Ærða menn þú aldrei frelsar,
eiga sjálfa lát þá sig.
„Guðlast — guðlast!“ Er ég ekki
utan náðar hvort sem er?
Væri' ég nú við hlið á **henni**,
hirti' ég ekki' að storka þér,
Guðlast! Já, þú glottir bleikur,
galinn maður skelfir þig;
en mér sýnist sökin falli
á sjálfan þig, en ekki mig.
Hún er farin, hún er töpuð!
hvernig get ég staðið hér?
Þú mátt hafa hundrað augu,

hamla samt ei skaltu mér.
Dæmið síðan, Drottins vinir,
dauða minn sem helgirán,
innan stundar stenzt ég alla
storkun, lýgi, hróp og smán?"

---

## KOLUMBUS.

Eftir A. Tennyson.

---

Já fjötur, herra, svo er, sem þér sjáið,
þótt sýnast megi kynlegt hallarskrautið:
Þau járn ég bar frá gull-löndunum góðu! —
Veit konungur af heimsókn yðar hingað?
til mín, hins sama, sem hann forðum sjálfur
stóð upp úr sínu sæti til að heilsa,
í augsýn lýðsins, eins og konungmanni?
Og — muni' ég rétt, — þann morgunn sáumst við
í Barselóna. Þér hafið skeggi skift?
Jú víst. Öll borgin lýsti þá í ljóma
til sæmdar mér og allir æptu nafn mitt,
en konungshjónin kvöddu mig til sætis
og báðu mig um fulla, sanna sögu
af sigurförum vorum; fólkið æpti
með ofsagleði: „Heyrið! gefið hljóð!"
Í sögulokin komu konungshjónin
frá hásætunum, krupu bæði' á kné sín
og gáfu Guði dýrð með lyftum lófum
og heitum tárum — honum, sem mig leiddi

um hafsins ógnar-voðaveg, og loksins:
„Laudamus Deum“ svall til hæstu hæða.
Járnfjötur fyrir jöfur hafsins mikla
er nýjan himinn fann og nýja jörð,
er postuli Drottins forðum fyrir spáði, –
járn fyrir þann, sem jöfrum Spánar veitti
af frægð og löndum langt um meir en þeir
til samans unnu! – fjötur handa honum,
er fyrstur inn í sólarlagið sigldi
og breytti vestri' í austur, og sem hleypti
í drekans gin og kleif hin fyrstu fjöll
á hnettinum og sá hin vígðu vötn,
er hrynja björt um hlíðar Paradísar!
Járnfjötur! Vér og allir vorir arfar
vér heitum herrar hafsins. Ferdinand
staðfesti bréfið, hann og drottning hans
katólska, krýnda, göfga, – konungur
Indlands og úthafs, er vor tignartitill.
Hann er ei iðgjöld að eins þess, er gjört er,
nei, einnig þess, er ei var unnið
og sér í lagi átján týndra ára,
sjö hér á Spáni eyddra þrautarára
til þess að sanna dómstólum og drotnum
þann hlut, sem bráðum brjóstmylkingar vita,
að kúla er jörðin. Komu þér ei þangað,
til Salamanka? þar sem saman sátu
vitringar landsins – allir mér á móti,
stælandi enn um stafróf heims, og hnattarfræði.
Getgátur oss þú gefur, kváðu þeir.

Mörg getgátan varð gullin morgunstjarna,
er fer á undan fullvissunnar sólu.
En aðrir vöktu villutrúar þráttan
og verstu dylgjur, heimskar sakargiftir.
Í Davíðs sálmum sagt er himinn Guðs
sé voð, sé tjald, sem hvelfist yfir heiminn;
svo er hún! sögðu þeir, og jörðin flöt,
„eða seg oss eða sýn hvort eik í skógi
má standa' á höfði, regnið rigna upp,
og fólk sem flugur reika neðan rjáfurs!“
En aðrir kváðu Ágústínus segja
að enginn megi anda syðst í heimi.
Er Adam eigi einn og mannkyn alt
af einum stofni? var ég spurður.
Að heilög kirkjan virtist öllu andstæð,
það féll mér þyngst. Eg bjóst svo brott af Spáni,
og leita enn til Englands eða Vallands.
Þá sneri drotning hug og hjarta mínu
og bæði' hin háu hjón sér létu segjast
að vera mætti' að heimurinn væri hnöttur.
Hálofuð veri heilög þrenning Guðs!
hálofuð kirkjan, henni brást ég aldrei,
né viltist minstu vitund brott frá henni.
Svo hef ég unnið áform mitt og afrek.
Nei: en eigi alt! Mig dreymdi hér um daginn
ég væri' að sigla mína fyrstu ferð
og heyrði kurr og ýlfran manna minna;
eldfáninn lýsti yfir Teneriffa,
og leiðarsteinninn líktist trygðavini,

sem reynist flár í raun, svo allir skelfdust;
vindurinn sífelt vestrænn, skýjað hafið,
en loks kom fugl af landi: berjagreininn,
svo rúnasúlan, síðast ljóminn — ljóminn,
hún Ganahani, — Sankte Salvador
ég skírði hana; ljóminn, ljósið óx
fyrir augum mínum eins og roðahvelfing,
sem hverfðist yfir, eigi pálmalöndin,
er fann ég eins og fegri, nýrri jörð,
nei: yfir austrið, ekki vesturlöndin,
og ég sé Jerúsalem, Maríuhæð;
og dýrðarsólin Drottins skein og lýsti
á jaspis, smaragð, hýasint og saffír,
sardonif, beryl, sardíus og topas,
kalsídon, amaþyst og krysolít
og krysofras — ég taldi porthlið tólf,
og vakna við, og minnist dauðans — dauðans.
Ég vissi mig í lambsins lífsins bók,
og við mér blasa Drottins dýrð, þars hann
er sjálfur sól og tungl, tómt ljós — æ nei,
því Herrann hafði aðeins veitt mér vitrun
að minna mig á heiti mitt hið helga,
er vann ég fyr, þá herinn lagði' í hernað
við heiðna-Spán, því ég var einn sem barðist.
Frá Drottins gröf vér daprar raddir heyrðum,
tveir munkar komu, og æptu: ógn og skelfing
og óvæg heitorð soldáns Egyptanna,
að brjóta Herrans helgu gröf, ef Serkjum
ei væri eirt: Þá hóf ég þetta heiti:

að helga allan auð minn, gull og gripi,
er hlyti ég í hinni nýju veröld
til krossfarar og kostnaðar gegn Serkjum
og lausnar Drottins gröf úr heiðnum höndum,
svo fremi spænskir jöfrar slíku játti.
Gull? já, af gulli hafði' ég kynstur heim flutt
en réði engu, eg var Genúingur
og mætti verri meðferð, en þótt hefði' ég
hundheiðinn verið, hefði brotið borgir
hins ríka Khans[1] og Serkjum selt við gulli,
já, gefið Serkjum sigurfánann fræga
hins helga Presbýters[2] á himinfjöllum.
En þótt ég hefði heimflutt Salomons gull
og endurfundið Ófír, hefði mig
ei það gull gylt. Því bláa blóðið Spánar –
þótt skifti' hann mér af skjaldarmerkjum sínum
og konungs síns – hið dökka, bláa blóðið
í Kastilíu, konungsmanna og þræla
smárægði mig frá Hispaníólu og heim!
Þér þekkið mýið, sveiminn þann er suðar
um höfðingjanna höfuð, til að fella
fjarlægan drengskap; vargur þessi vakti
þann beiskju-róg, er blekti loksins konung
og jafnvel hina vitru, dýru drotning;

---

1) „Hinn ríki Khan" kallaðist ráða ríkjum í Mið-Asíu og búa í borginni Kambalú.

2) „Hinn helgi Presbyter" var nefndur Jóhannes og átti ríkjum að ráða einhversstaðar á austurvegum – eftir miðaldatrúnni. Þýð.

og eigi fékk ég, rægður dauðarógi,
í nauðsyn minni nefndardóm, er dæmdi
hlutlaust um alt í milli mín og þeirra.
En Fonseka var fjanda minna verstur
og sendi fífl eitt, fantinn Bovadilla, —
hann sendu þeir, einn sökudólg og naut,
guðlausan, slægan; gróðavarg, sem rændi
hús mitt og skjöl, og setti alt í uppnám,
gaf drottinsvikum líf og lausn, og sendi
og svældi' og bældi' og býtti kongsins eignum
og horfði' í ekkert, nema námur gullsins.
Loks lét hann mig og bræður mína báða
heim fara' í hlekkjum. Með sitt glæpa-gull —
gullspilda ein, svo fréttum vér, var flutt
er fjögur þúsund dali taldist geyma —
sökk hann í hafið — sviftibylur svall
um sædjúp þau, er forðum silgdi ég fyrstur.
Þar lenti hann, en hitt komst heilt til Spánar,
hið veika far, sem flutti mig og mína.
Þar sá ég lýsa leiftur Drottins handar!
Og ljós og leiftur oftar, hef ég, herra,
það sver ég yður, séð, og heyrt hans röddu
í voðanum í Verazíu höfum,
en þruman þrumdi' í þeirra svarta-myrkrum:
„Hví titrar þú, ó trúarveika sál?
hefi' ég ei leitt þitt líf frá móðurkviði
og léð þér sjálfur lykla þessa úthafs,
og hafið þig til heiðursfrægðar þeirrar,
er lifir meðan lönd og borgir byggjast?

Seg, var það eg, og ekki heimur þessi,
sem vélti þig? Ó, statt þig, statt þig fast!
Það afrek vanstu öllum þessum heimi
að allur þessi heimur spyr og segir:
„Var annað boðið einkasyni Guðs?“ –
Já, oftar, oft í myrkri stríðs og storma
er von mín var á hvörfum, hefi' ég heyrt
hans röddu: „Herð þinn hug og óttast ekki;
ég vísa veginn.“ Sömu sannleiks rödd
ég heyri enn þá – heyri alla æfi;
og aldurs vegna má mér enn þá auðnast
að vinna vild hans, nær sem kallið kemur.
En kröpp eru þessi kjör mín, góði herra,
ég kúri hér sem kararmaður, alslaus
og aleinn, rekinn, rægður, smáður, gleymdur
af kongi og hirð hans – farmaðurinn frægi
ég, sem fann löndin, sit við sult og örbygð,
en hinir hafa fullar hendur fjár,
og um fram það, en eg á hvergi hæli
og ekki fé svo kaupi magran málsverð,
en horfi' á allar hurðir standa opnar
þorpara hverjum. Gegnum gullna hliðið
treðst ágirnd, ofsi, lýgi og losti Spánar
að herja þessar fundnu yndis-eyjar,
með varnarlausa fegurð sína' og friðsæld.
Höfðingja þeirra hengja þeir og þrælka
og konur þeirra þjá með frillutaki;
gestrisni þeirra' er drekt í dauðablóði,
þeir svelta suma, suma lemja svipum,

en sumir leggja drápshönd á sig sjálfa
af ofraun kvala; ungar mæður ærast
og slá við brjóst sér börnin. Argi Spánn!
Ó, þú hinn ljúfi lýður, sem oss mættir
á Hispaníólu, bernski, blíði lýður!
Hann fagnaði' oss sem englum æðri heima,
en fagnaði þar féndum heljardíkis!
Ég em ei sjálfur sýkn, og oft mig óar,
að hafa fyrstur fundið þessar eyjar.
Ein er mér ávörð: Ísabella, ljúfa;
þín sæla sál, hún brosir enn, hún brosir:
„Lát huggast!“ seg'r hún, „heiðna fólkið þitt
mun hylla krossinn, og Guðs jarl á jörðu.“
En hver gat hugsað hitt, að hann sem flutti
hinn helga kross þá hafleið, yrði dæmdur
og rekinn heim af rógi vesæls munks
í nafni páfans? Hver má hugsa slíkt,
að fjötrar mínir mundu lengur endast
en allir mínir innanhirðar vinir?
Sjá, þessa hlekki gröfin mín skal geyma!
og vel það verða mætti, góður herra,
þá líður tíð og Drottins dómar birtast,
að Spánn, er verður víðlendasta ríkið
í veröldunni og hreystifrægast, fegurst, djúpauðgasta,
þá minnist mín og leiti til míns leiðis
og flytji þau til hærri helgistaðar;
og maður gangi fram og mæli þannig:
„Er þetta kappinn Kolumbus — hans leifar?
En þessi fjötur? Þarna' er fjötur, sjáið!“

Ég aumka manninn, ali Spánn þann mann,
er svarið verður: „Þessi sterki fjötur
batt þessi bein, er hetjan heim var send
í hlekkjum yfir Atlantshafið – hafið,
hið sama haf hann sigldi, drap úr dróma
og setti opið eftirtíð og heimi!“
Þú himnadrotning sérð að engin sál
í hreinsaneldi' og helju pínist meir
en eg, þá að mér svífur. — Bíðið enn,
því brátt mun son minn koma. Hann mun túlka
betur vort mál. Ég styn og strengist allur
svo bein mín braka, styn og strengist allur.
Þér viljið fara? Heyr þá hinztu orð mín:
Þér kennið höllu konungs; hermið honum
að leiksoppur hans segi – það er ég –
að hann og hans ég hafi aldrei notað
sem leikhnött, seg að líf mitt hafi verið
skipreikar, drepsótt, hungur, ofraun, helstríð,
uppreistir, rógur – gjörvalt nú sem grafið.
Seg að ég aldrei gleymdi trygð né trú
og bíði búinn, þótt hin dýra drotning
er forðum seldi gull sín öll og gripi
er fór ég fyrst til hafs – sú helga frú,
sem unni sömu afreksdáð sem ég,
að boða Drottins elsku öllum þjóðum:
já, segið, þótt hún hvíli nú á himnum
hjá Herrans móður, sem ég elska' án afláts,
seg, þótt ég kvalinn, kraminn sé og strengdur
af striti' og stríði Spánar vísis vegna,

þá sé ég enn þá albúinn til farar.
Því fremur þó ef fólk og jöfur óskar,
í móti Serkjum, krossför, nýja krossför,
að frelsa sjálfan Frelsarann – hans gröf! –
Þér farið. Ég em einskis nýtur nú.
Þér fáið eflaust óþökk, að þér komuð.
Haf mína þökk, þótt hún sé haldin rýr.
Því hver em ég? Ég em ei annað
en útlendingur, gestr, Genúumaður!

---

## HRAFNINN.

Eftir Edgar Poe.

---

Gamla'ársnóttu napurkalda
nam ég letur fræði-spjalda;
fölvar myndir fyrri alda,
fyltu brjóstið leiðslu-ró;
vart þó blund ég festi, fyr enn
felmt mér varð við högg á dyrin –
„einhver kom og drap á dyrin!
Dumpið glögt ég heyrði þó!“
Upp ég hrökk af illum draumi,
um mig kynja-hrollur fló:
Hver er úti? – „Enginn – kró!“

O, það kvöld er mér í minni,
mæðuár með reynslu sinni,

kvaddi fold, svo úti' og inni
angur-þrungnum skugga sló.
Við minn lærdómslestur beið ég,
ljósið nýársdagsins þreyði' ég,
samt við hjartans harmi kveið ég,
hennar nafn mig svifti ró —
ljúfa nafnið Leónóra —
líknin mín, sem frá mér dó.
En — hún lifir.—„Aldrei—kró.“

Ljósið dofnar, lampinn ruggar,
línið skelfur, marra gluggar:
hvaða vofur, hvaða skuggar
herja' á mína sálar-ró?
Aldrei svo við ógn mig hrylti,
aldrei geigur svo mig fylti,
aldrei svo minn anda trylti,
ofboð neitt, sem fyr mig sló;
og ég umla yfirkominn,
anda' á lofti meðan dró:
Hver er úti?—„Aldrei—kró!“

Aftur samt ég hug minn hresti,
hvarmaljós á dyrnar festi,
bjóst að fagna góðum gesti,
greip í lás og hurð upp sló:
„Fyrirgef, svo dátt mig dreymdi,
dyrum mínum sjálfs ég gleymdi,
sjónin mörg að sálu streymdi

svo ég lá í dvalar-ró.—"
Út um fordyr hússins horfi,
hvað var það, sem úti bjó?
Ógn og myrkur.—„Aldrei—kró."

Úti lengi horfði' ég hljóður,
hugsa: skyldi' ég verða óður?
Enn að nýju ofboðs-móður
allt mitt hjarta gegnum smó.
Dauðamyrkur, enginn ómur,
eilíf nótt; en hvaða rómur?
„Leónóra", hvíslar hljómur,
hjarta mitt sem gegn um fló:
„Hvað þá? hver svo tautar talar,
tekur alla lífs míns ró?
svarið, anzið! — „Aldrei—kró."

Inn ég hafði aftur farið,
öllum þar til kröftum varið.
En hvað heyri' ég? aftur barið!
alt með feldu sízt var þó.
„Inst við gluggann, ei frá dyrum
er nú hljóðið, sem ég spyr um;
hvergi vil ég hætta, fyr um
húsið leita', en finn ég ró.
Vertu stilt, mitt hrelda hjarta,
hér eru' enn þá ráðin nóg,—
eflaust súgur."—„Aldrei-kró."

Insta gluggann opna' ég skjótur,
en hvað sé ég? Nauðaljótur
hrafn í salinn flyksast fljótur,
fítonslega við mér hló.
Engar kveðjur vomur vandar,
vængjum þungt og hljótt hann bandar,
dyrnar við til hægri handar
hyllu fann og sezt í ró;
þar stóð mynd af mentagyðju,
maskinn hana spennir kló. —
Umlað heyrðist: „Aldrei—kró!“

Kom nú að mér kuldahlátur:
„Krummi sá er næsta kátur;
kanske það sé lítillátur
lærdómsfugl, sem klakar fró? —
Sendiboði hulins-heima,
hvað ertú í nótt að sveima;
forni vörður grafargeima,
grein mér, hvað þig hingað dró?
Inn þú mér frá undirheimum,
inn mér nafn þitt, krummahró?“
Hrafninn æpti: „Aldrei—kró!“

Um mig aftur fór að fara,
fuglinn er ég heyrði svara:
eitt þó væri orðið bara,
ærið þótti mér það nóg.
Aldrei hefir, vil ég vona,

verið maður til né kona,
úfinn hrafn, er sýndist sona
svífa inn með spekt og ró,
og á mærrar mentagyðju
Mimis-höfuð festa kló,
orga' og svara: „Aldrei—kró!"

„Efst á Pallas' ægishjálmi
unir hann sem bust úr málmi;
með hans rödd sem ör af álmi
öll hans kyngi máske fló? —
Nú er þrotlaus þögn og friður,
prúðgur fugl ei bærir fiður.
Heyrðu! segi' ég hrafninn viður,
horfin er mín sálar-ró:
vinir fóru' og vonir frá mér;
vík þú líka, krummahró!
Hrafninn æpti: „Aldrei—kró!"

Aftur um mig fór að fara,
fuglinn enn ég heyrði svara,
eitt þó væri orðið bara,
er hann máske nam í ró
skáldi hjá, er sköpin hörðu
skáru lengi svo og mörðu,
að hann, fyr en færi' í jörðu,
fastan þennan tóninn sló,
svo hans insti andarstrengur

óma skyldi' um land og sjó
Urðar-orðið: „Aldrei—kró!"

Legubekkinn fram ég færi,
fugli svo ég nærri væri,
vil, að hann mig huggun tæri,
hrafn þó sjaldan bjóði fró.
Og á silkibekknum blunda
býst ég nú og fer að grunda,
hvað hann sé að hugsa' og dunda;
hvílíkt djúp í augans ró!
hvílíkt töfra-tákn er þetta?
til hvers miðar orð hans þó?
eitthvað þýðir: „Aldrei—kró."

Kyr ég bíð og bærist eigi,
bregð mér hvergi, ligg og þegi;
hrafninn starir; — horfir eigi
heljarfeikn úr augans ró?
Höfuð mitt hið hrelda, veika,
hvílist nú við silkið bleika,
meðan lampans röðlar reika
rósavefs á mjúkri ló.
Æ, sú tíð, er höfuð hennar
hýrt á þessum svæfli bjó,
kemur aldrei:—„Aldrei—kró!"

Sætan ilm mér fanst ég finna
færast nú til vita minna:

„Góðir englar eru' að vinna
öndu minni líkn og fró.
komið nú með kraft af hæðum,
komið nú með lausn frá mæðum,
fæ ég ekki frið í æðum?
finn ég hvergi líkn og ró?
hvenær kemur kallið þráða,
kall, sem boðar: Það er nóg?“
Hrafninn æpti: „Aldrei—kró!“

Leiði spáfugl, Levíatan,
lymski dólgur, krummi, satan,
örg er víst þín æfigatan;
inn mér, hvað þig hingað dró;
seg nú minni sál, er kvíðir,
sigruð, þjáð og marin stríðir,
vonarlaus, hvort seint um síðir
sjá hún muni' og finna ró!
er í Gílead enn þá balsam,
enn þá von um nokkra fró?
Hrafninn æpti: „Aldrei—kró!“

Leiði spáfugl, Levíatan,
lymskudólgur, krummi, satan,
seg mér, þér mun gjörkunn gatan,
grein við þann, sem líf oss bjó:
þrýtur aldrei þessi slagur?
þverrar aldrei raunadagur?
opnast aldrei Eden fagur,

er ég hana finn, sem dó —
hana sem í himinsölum
hvílir nú í sælli ró?
Hrafninn æpti: „Aldrei-kró!"

Brottu farðu, fjandans líki,
fljúgðu beint í heljar díki,
út og niður ógn þín víki,
orga þú við storm og sjó!
Skil ei fjöður eftir inni,
ekki grand, sem vekur minni
þinnar komu' í sál og sinni;
sýnist þér ei komið nóg?
Farðu, þú sem níðings nefi
nístir mína hjarta-þró!
Hrafninn æpti: „Aldrei-kró!"

Hrafninn ekki hót sig flytur;
hjá mér enn í dag hann situr;
ávalft samur er hans litur;
augans sama niflheims-ró.
Ljósið enn um bekkinn breiðist,
borð og gólf, en aldrei skreiðist
skugginn burt, og aldrei eyðist,
enn þá dvelur krummahró.
Þessi lífs míns forna fylgja
fylgir mér að grafar þró —
Urðar-orðið: „Aldrei—kró".

## RÖDDIN.

Eftir Matthew Arnold.

---

Ég stóð um nótt við stjórn á völtu fleyi,
er stjörnur lýstu svala vetrardröfn,
og var að harma þessa víðu vegi,
sem vekja þrá, en sýna hvergi höfn.

Svo lengi hef ég hrakist um og hjarað,
og hug minn dreymt um föðurlandið ríkt,
svo lengi horft og hungurmorða starað,
og hjartað sjúkt á náðarmola sníkt.

Þó aðrir gæti, gat ég aldrei ratað
þau grunnu sund, sem horfin kendi þjóð,
og — satt að segja -- liggur gleymt og glatað
hið gamla farbréf yfir þessa slóð.

Ó, leiðarstjarna, ljá mér enn sem forðum
þá lýsu, sem mér gefi stundarfró!
þú dýrðarher, sem skín í föstum skorðum,
ó, skift þú með mér þinni djúpu ró! —

Þá heyrði' ég eins og hvíslað lofts frá sölum,
og hljótt og rótt varð alt um loft og ver:
„Ef viltu ró í þínum djúpu dölum,
þú dauðans barn, þá lifðu eins og vér.

„Sú blíðukyrð, sem býr í sálum vorum
hún bendir þér og kennir sannan frið;
vér stöndum fast í björtum brautarsporum,
og biðjum ekki' um stærra skyldusvið!

„Jafnvægi fyrst! Og þar næst þarf að skilja
að þungamiðjan heitir eilíf lög.
Þú átt, sem vér, að skilja veg þíns vilja;
en veg þann kennir alnáttúran hög.

„Guðsríki' er stórt. En girnstu aldrei annað
en átt' og mátt', og herra ver þín sjálfs,
og lær að sjá, hvað leyft þér er og bannað,
því lögum móti verður enginn frjáls." —

Hver var sú rödd? Ég hygg mér innst í hjarta
ég heyri þetta sama guðamál:
„Þú hættir ei um harma lífs að kvarta,
unz hærra lögmál stillir þína sál."

---

## HEIMSPEKI ÁSTARINNAR.

Eftir Shelley.

---

Lækurinn eltir ána,
áin mænir til sjávar;
léttir í loftinu frána
leika sér þrestir og mávar.

alt er að unnast og mynnast,
örlaga fylgir sið;
frjóvgast og blandast og finnast
og faðmast—nema við!

Himininn faðmar fjöllin,
faðmlögum vefjast skýin,
blómstrin um brosandi völlinn,
bárurnar, vindarnir, slýin;
sólin er klettana' að kyssa
og kyssandi gleður sig,
ekkert vill elskunnar missa, —
ætlarðu' að kyssa mig?

---

## TAK ÞITT—.

Eftir Longfellow.

Tak þitt, tak þitt, og burtu ber,
þú bleika hel, en tak ei meir;
tak skuggann, nær sem þóknast þér,
og þína mynd af köldum leir!

Tak þitt, tak þitt, þú grimma gröf,
og geym það vel, svo hvíli rótt,
því ei skal horfa hels við köf
í hjúpinn', þó hann slitni skjótt.

Tak, eilífð, þitt, og hirtu hitt!
Því hvað er lífið? Það er blær,
sem andar létt á limið þétt,
svo laufin þyrlast nær og fjær.

---

## MANSALS-LJÓÐ.

Eftir Longfellow.

---

### I. TIL W. E. CHANNINGS.[1]

Við sérhvert þinnar bókar blað
svo brann mér hyggjan klökk,
að glaður við ég gall, og kvað:
ó, Guðsbarn, hafðu þökk!

Haf þökk! þitt orð er dýrt og djarft,
sem Drottins lögmáls orð,
sem Lúthers forðum, skýrt og skarpt
að skelfa blinda storð.

Halt áfram! unz sú löggilt lygð,
sem lands vors bölvan er

---

1) Dr. Channing ritaði með hinum fyrstu móti ánauð svertingja — bók með mikilli snild og andríki. Þegar Longfellow kvað erindi þessi, vissi hann ekki, að dr. Channing var þá nýdáinn, en skáldið lifði það, að sjá svertingjum frelsi gefið. Þýð.

og alla mannkyns blettar bygð,
á burt til heljar fer!

Sjá, rödd við hlið þér ávalt er,
sem eykur krapt og trú, –
rödd sjáarans, er svarar þér
og segir: „skrifa þú!“

Ó, skrifa þú! um skuld og blóð,
um skæran lúðurhljóm,
um heimsins fall, um heljar-glóð
og herrans reiði dóm!

---

## II. DRAUMUR ÞRÆLSINS.

Með sigð í hönd hann hniginn lá
við heitan sólar-brand,
með opið brjóst og úfið hár,
sem alt var fult með sand,
en gegn um höfgan svima-svefn
hann sá sitt föðurland.

Um þvert hið dýra draumsins land
hin djúpa Niger fló,
um pálma-lund sem lofðung enn
hann leið á hvítum jó;
í fjöllunum heyrði' hann hringl í lest,
sem heitan sandveg smó.

Þar stóð hans drotning blíð á brá
og barna þeirra krans,
þau flugu' á hann með kæti' og klapp
og kystu andlit hans, —
þá hrukku tár á heitan sand
af hvarmi sofandans.

Og næst um fagra fljótsins strönd
hann fleygðist hart á jó,
og reiðar-glaumi gullinn taum
hann gaf eða' til sín dró;
við sérhvert stökk hans hjör við hrökk,
svo hestsins nára sló.

Í fararbroddi beindi flug
ein blóðrauð flamingo,
þá eltir hann, unz eygló rann
um auðn og tamarind-skóg,
unz sér hann Kaffans styrjar-strönd
og stórhafið móti hló.

Og húmið kom: hann heyrir ljón
og hýenu væl og glaum
í nykra sveim, er svam og blés
þar sefið huldi straum,
og siguróp og gnýr við gall
í gegn um þrælsins draum.

Og skógar glumdu: frelsi' og fjör
kvað fuglinn laus við bönd,

og æðistormur ógnum blés
frá eyðimarkar rönd;
með bros á vör hann hrökk við hart,
svo hló í brjósti önd.

Hann fann ei svíða svipuhögg
né sólar-logans brand,
því dauðinn lýsti landið hans,
og lágt við heitan sand
menn horfðu á hvar laus hann lá
við lífs og þrældóms band!

---

### III. »HIÐ GÓÐA HLUTSKIFTIÐ, SEM EKKI VERÐUR FRÁ HENNI TEKIÐ.«

Við Kenuva-fljót í Fagra-dal
sá frægsti svanni býr;
frá héraðs skólans helga sal
hún hug og sál ei snýr.

Og brúðar sál er blærinn tær,
sem blessar land og sjá,
þótt heima eigi foldu fjær,
hann faðmar sérhvert strá.

Við tállaust fas og trygða-grein
hún temur meyjar smá;
og margan keskinn siðar svein
með sinni engil-brá.

Og löngum eftir liðinn dag
hún les fyrir börnin sæl
um hann, er létti lífs vors hag
og leysti bundinn þræl.

Og fyrir segir fegri stund,
þá frjáls er sérhver þjóð,
þá fjötur hver, sem gnýr við grund,
skal glymja frelsis-ljóð.

Í helgri örbirgð fetar fljóð
í fótspor lausnarans,
og líf sitt gjörir líknar-óð
með lagi kærleikans.

Því hún var stórrík auðlegð af
og átti þræla sveim,
en lausafé og lönd sín gaf
til lausnar öllum þeim.

Fyr löngu við sín löndin hlý
þeir lentu fjarri nauð,
en hún sér vinnur auðmýkt í
sitt afskamtaða brauð.

En þeirra bæn og árnan er
án efa þetta ljós,
sem Drottins sólar-birtu ber
frá brúna-hæð á drós.

## IV. SVERTINGINN Í FENINU.

Í felur inn í fúa-skóg
á flótta negrinn skreið,
hann heyrði dynja hopp og hó
og hófa-þyt í mörgum jó,
og blóðhundanna beið.

Þar glætu-orma grúði her,
þar glórðu hrælog kvik,
þar mosinn skalf um mýrar-hver
og milli trjánna botnlaus ker
með ýldu eiturfnyk.

Þar fótur menskra manna' ei steig,
né mannleg dirfðist sál,
í hroða-fen á fúa-teig
á flótta þrællinn niður hneig
sem illdýr elti bál.

Hann gamall, hrumur, haltur var,
á höfði blóðug ör,
og stroku-mark á brúnum bar,
og blakkar flíkur háðungar
var hver á holdi spjör.

Hann horfði' í loft: hve lék sér dátt
og lifði skepnan frjáls!
þar ótal fuglar kváðu kátt
sín kvæða-lög og hörpu-slátt
hins fagra frelsis-máls.

Hann einan þjáði eymd og böl
frá allra fyrstu stund,
hann einan nísti Kains kvöl
sem kylfan mylur öxin þvöl
unz hneig að grimmri grund!

---

### V. NÆTURSÖNGUR SVERTINGJANS.

Sálma Davíðs söng hinn þjáði,
söng, sem engill negrinn smáði,
söng um Júða sigurhrós,
söng um Drottins frelsis-ljós.

Ísraels-manna söngur sætur
svall í húmi miðrar nætur;
sú var rödd svo hvell cg há,
hlýða mállaus varð ég á:

Sigurljóð með undra-orðum
Egyptanna' um plágur forðum,
þegar drekti drafnar-hver
drotni lands með stoltum her.

Negrans hrifni, helgi rómur
hreif mig eins og lesinn dómur;
skifti' hann sér í angurs eym,
unað, sorg og jötun-heim.

Páll og Sílas sungu' í nauðum
sætt um hann, er reis frá dauðum;
sprungu dyr við Drottins þrótt
dýflissunnar sömu nótt.

Ó, hve nær mun engill boða
aumum þræli lausn úr voða¿
Hve nær dvín við Drottins þrótt
dýflissunnar þrældóms nótt?

---

VI. »SJÁ, HÉR ERU VITNIN.«

Í lagar kaldri lind,
svo langt frá bygðri strönd, –
sem blámanns beina-grind
með bundinn fót og hönd,

Í dýpstu drafnar-gróf
og dýpra' en sökkur blý:
mörg skeið á heljar-hróf
með heilli skipshöfn í.

Þar liggur stirð við stein
hin stóra negra-skeið
með hlekkjuð, holdlaus bein,
sem hæða veðrin reið.

Og þessi þræla-bein,
þau þruma djúpi frá
og hefja heljar-vein:
„hér eru vitnin, sjá!“

Og sjá! um sæ og lönd
þeir selja' og kaupa menn;
um háls og fót og hönd
þeir hafa fjötrin þrenn.

Og höggvin liggja hræ,
sem hröfnum veita bráð;
heyr morð um bygð og bæ
og brenni-varga ráð!

Hver lymsku-flækja ljót,
hver löstur, stuldur, rán,
hver ilsku eitur-rót,
hver æruleysis smán:

Alt þetta' er þrældóms gjöf,
sem þrumar djúpi frá,
úr hafi, hauðri, gröf:
„hér eru vitnin, sjá!“

---

## VII. MANSALIÐ.

Við fjarðar-sund i logni lá
með leynd ein þræla-skeið;
um kvöldið bjóst hún kul að fá
og komu tunglsins beið.

Við ströndu lítill bátur beið,
og bátsmenn skemtu sér
við krókódíl, sem kraup og skreið
í kring um þara-sker.

Þeir kendu ilm af grænni grund
og gull-apaldra keim,
sem angan yfir Edens-lund
og ekki fallinn heim.

Hinn ríki sat og reykti hás
og ræðu lauk við gest,
er lagði hönd á hurðar-lás
og hraða burtu lézt.

Hann kvað: „nú legg ég landi frá,
ég legg með búna skeið,
ég bjóst í kvöld við kul að fá,
og komu tunglsins beið.“

Í salnum vaxin stúlka stóð,
og stórum augum leit
á víxl á þá, svo hýr, en hljóð,
og hægt á varir beit.

Og íturfrítt var yngis-sprund,
með ástar-ljós um brár;
einn lítill kyrtill huldi hrund,
og hrafnsvart meyjar hár.

En stundum blíðu-bros hjá drós
um bjartar varir fór,
sem minti á hið milda ljós,
er musteris slær um kór.

Þá mælti bóndi: „illa' er ært
og alt þarf stóra bót",
og augum gaut á gullið kært,
og gullinu frá á snót.

Það var, sem málið misti hann,
því millum elda stóð,
hann vissi bezt, hvers blóð þar rann,
er brosti saklaust fljóð.

En röddin blóðsins varð of veik:
hann valdi gullið rautt,
og strax sem nár varð brúður bleik,
og bragðið kalt og dautt.

Þá mýktist svipur mansalans,
á meyna lagði' hann hönd;
sem þý og frilla fépúkans
hún fór í ókunn lönd.

---

### VIII. VARNAÐUR.

Heyr varnað! Sá er vopnlaus feldi ljón, –
þá vélar höfðu klipt hans hár og þrótt,
og stungin út var augans hvassa sjón
og alt var sorg og smán og þrældóms nótt,
og hann varð loksins fífl við heiðinn flaum,
og Filisteans prýddi drykkju-glaum, –

Þá lagði' hann æðis-hönd á hofsins stoð,
svo húsið féll á sjálfan hann og þá,
er hæddu Guð og heiðin blétu goð
og horfðu glaðir blinda kvöl hans á:
einn sjónlaus, smáður, þjáður þræll hann stóð,
en þúsund fjanda valköst með sér hlóð.

Í landi þessu blindur Samson býr,
sem bundinn er, með járn um fót og hönd,
þá varir minst hann viðjar sundur snýr,
þá verður gnýr, þá skelfur fólk og lönd.
Ó, sjáum til, vort fræga frelsis-hof
ei falli þá sem grjót og ösku-rof!

## EFNIS-RÖÐ.

Bls.

### I. VIÐ 1000-ÁRA-AFMÆLI ÍSLANDS.



### II. FRÁ ÁRUNUM 1865–1880.

III. ORKT EFTIR 1830.

IV. ÚR LEIKRITUM.

V. ÞÝÐINGAR OG STÆLD KVÆÐI.

## PRENTVILLUR Í 1. BINDI.

Bls. 3, a. dlk., 6. l. a. n. sjafna, les Sjafna
- 9, a. dlk., 2. l. a. n. búðlings, les buðlungs
- 16, fr. dlk, 11. l. a. o. harðstóri, les harðstjóri
- 31, 12. l. a. o. Njörðr, les Norðri
- - 5. l. a. n. Njörðr, - Norðri
- 32, 4. l. a. n. Ægir, - Norðri
- 36, a. dlk., 5. l. a. n. dregin, les dreginn
- 41, 1. l. a. o. skuld, les Skuld
- 42, fr. dlk., 1. l. Ermanþus, les Erimanþus
- 48, 2. l. a. o. handa, les handan
- 52, 10. l. a. n. enginn, - engin
- 57, 1. l. a. o. heljars-kra, les heljar-skrá
- 99, á miðri bls. bá, les þá
- 106, 1. l. a. o. storma, les stormar
- 108, 10. l. a. o. þitt, les þín
- 110, á miðri bls. buna, les búna
- 125, 4. l. a. o. „skýr", les. „skyr"
- 128, 9. l. a. n. þær, les þér
- 148, 11. l. a. o. Óðinn, les óðinn
- 164, 8. l. a. o. sköjgraði, les skjögraði
- 171, á miðri bls. hringa, les hringja
- 172, 10. l. a. o. Hottentottan, les Hottentottann
- 180, 3. l. a. n. þú skal, les þú skalt
- 193, 9. l. a. n. frjófgað, les frjófgan
- 234, 1. l. a. o. mér þǫtt, les mér þótti
- 237, 4. l. a. o. Magnús jarl, les Mágus jarl,
- 262, 8. l. a. o. með dauðanum í, les dauðanum í,
- —, 11. l. a. n., hlunnurinn, les hlummurinn
- —, neðstu l. rumdu, les og rumbdu
- 267, 1. l. a. o. árarhlunn, les árarhlumm
- 280, 4. l. a. n. hagur, les haugur